11. Purfamadur ert þu mijn Sæl, þiggur af DRottne sier hvert Mæl, Fædu þijna og Foostred allt, fyrer þad honum þacka skallt.

12. Illum Præl er þad eillijf Smaan, Ef hañ so þiggur HErrañs Laan, Drambsamlega, Og dreissar sig. DRotteñ geyme frä slijku mig.

† 13. Epter hañ Saung eñ ecke fyr, wt gieck IEsus uñ Hwssins Dyr, ad hañs Sidveniu er þad skied, Til Oliu-Fiallsins gaanga ried. †

14. Lausnarans Veniu lær og halle, Lofa þiñ Gud og dyrka skallt, Bænarlaus alldrei byriud sie, Burtfør af þijnu Heimele.

† 15. Yfer uñ Cidrons breidañ Beck, Blessadur þa med Sveinum gieck. † Sa Lækur Nafn af Sorta ber, Sijner þad goodañ Lærdoom mier.

16. Yfer Hormungar er mijn Leid, Æ medañ varer Lijsins Skeid, undañ gieck IEsus, epter eg, A hañ ad feta Rauna Veg.

17. Hørse eg nu i Huga mier, HErra miñ IEsus epter hier, Daarsamleg eru Dæmeñ þijn, Dreg eg þaug c'arnañ heim til mijn.

18. Þu villder ecke Upphlaup hart, Yrde þegar þu fangeñ vart, wt i Grasgardeñ gieckstu þvi, gafst þig i Maña Hendur frij.

19. Af þvi lære eg ad elska ei freckt, Eiged Sagn mitt, So Fridur og Spekt, Þess vegna raskest: Þier er kiært, Poleñmæde og Gied hoogvært.

20. Sorgande giecktu sagda Leid, Særde þiñ Huga Kvol og Neyd, Hlæande Glæpa hlioop eg Stiig, hefur þu kvittad fyrer mig. 21.

21. Vort Lijf er Grasgards Gaunga riett, Grøfen er ollum fyrer sett, Syndugra Leid ei leik þier ad, Lender hun vijst i Kvala-Stad.

22. Jdrunar Tæren ættu vor, Oll hier ad væta Lijfsins Spor, Giegnum Daudan med Glede og Lyst, gaungum vier þa i Himna-Vist.

† 23. Pa JEsus nu a Vegenum var, vid Postulana han rædde þar, Henda munde þa Hrøsun fliott, hardlega Petur þrætte a moot. †

24. Frelsaren JEsus fyrer sier, Pa Fall og Hrøsun er bweñ mier, Han veit og lijka Lækning þa, Sem leysa kan mig Sorgum fra.

† 25. Alldrei kvad Petur ætla eg, a þier hneixlast a nockurn Veg, Po aller fra þier falle nu, † Fullkomen var hans Lofun su.

26. Su Von er bæde vollt og myrk, ad voga freklega a Holldsins Styrk, ann Guds Nadar er allt vort Traust, Ostødugt veykt og Hialparlaust.

27. Gief mier JEsu ad gá ad þvi, Glas-Kiere ber eg min Fiesioodi, Vidvorun þijna virde eg mest, Veykleika Holldsins sier þu best, Amen.

## 2. Psalmur.

## Um Christi Kvøl i Grasgardenum.

Ton, Fader vor sem a Himnum, rc.

†

JEsus gieck in i Grasgard han, Gethsemane var nefndur-han. † Af Oliu-Prwgan þad Auk-Nafn bar, Oliu-Tried rietta HErran var, Oleum

Hialp-

Hialpræðis allra fyrst, af hans Lijfe þar pressaðist.

2. J Alldengarde fyrst Adam braut, aptur Jesus það bæra hlaut, Alldengards Eikeñ Avöxt gaf, Synd Synd og Dauðe kom þar af, J Alldengarde liwst Lijssins Tried, „ Lijfgunar Friðefgun veita ried.

† 3. Judas þeckte vel þeñañ Stad. † Par hafðe hañ leinge uḿhugað, helst munde Platz það hentugast, Herrañ mætte þar forraadast, so fæster hefðe að segia af því, og Svik hañs lægiu so Hylining i.

4. Satan hefur og sama Lag, Situr hañ uḿ mig Nótt og Dag, Hyggiande að glögt hvar hægast er, J Hættu og Synd að koma mier, Eñ þó i þeim Stad allra mest, Sem æ eg Guðe að þioona best.

5. Heims-Borneñ hafa Lyst þá lært, Lygð og Svikræðe er þeim kiært, Footsporum Diöfuls fylgiande, Fals-Raadeñ draga þó i Hlie. Fraa hañs og þeirra Hreckia Stig, HErra JEsu bevara mig.

† 6. Opt hafðe JEsus i þañ Stad, ædur geinged. † Því veit eg það, hefur sañlega HErrañ miñ, hugað uḿ Pijnu og Dauða siñ, Fulltinges beðed Föðureñ þar, So feinge hañ stadest Pijslernar.

7. Jurtagardur er Herrañs hier, helgra Guds Barna Legstader, Þegar þu geingur uḿ þeñañ Reit, Þijn sie til Reiðu Bæneñ heit, Andlaats þijns giæt og eirneñ þá, Upprisu Dageñ minstu á.

† 8. Læresveinana Lausnareñ kiær, Liet suma bij-

da

da nockud fiær, Prìar took þo med sier Hiarta hre-
iñ, Hañ gyrnteſt ecke ad vera eiñ.† Saala mijn þar
um þeinkia ſkallt, Pier til Lærdooms þad ſkiede allt.

9. Guds Christne er Grasgardur hreiñ, Guds
Sonar ertu Læresveiñ, Sittu þar sem hañ ſeiger
þier, ſoñ Hlijdne beſta Offur er, til Kroſſens ef hañ
þig kallar þar, Kom þu gladvær aan Moglunar.

10. Freiſting þwng ef þig fellur aa, Fordaſtu
Eiñ ad vera þa, Gudhræddra Selſkap gyrnſtu
meſt, Giefa þeir jafnañ Raadeñ beſt, Huggun
er Mañe Moñum ad, Myſkun Guds hefur ſo
tilſkickad.

† 11. Hiartanlega vard Harmþrwngeñ, HErr-
añ JEſus i þetta Siñ, Hollded ſkalf vid þad feik-
na Faar, ſlutu i Vatne Auguñ klaar, ſagde graat-
ande: Saal mijn er, ſo allt i Daudañ hrygg i mier.

12. Hart nær Stein-Svare fraa þeim foor,
fiell ſtrax til Jardar DRotteñ vor, ſlatur ſitt
Bleſſad Andlit aa, † Ognarleg Kvol hañ mædde
þa, Hiartad bardeſt i Brioóſte heitt, Bæde var
Lijf og Saaleñ þreitt.

13. Samvitſkañ mig nu ſiaalfañ ſlær, ſie eg þad
giorla JEſu kiær, mijn Synd, mijn Synd, hun
þlaade þig; þetta allt leidſtu fyrer mig, Avi! hvad
hef eg aumur Præll, aukéd þier Mædu DRott-
eñ ſæll.

14. Mier virdeſt ſo ſem mijn Misgiord, ſie mei-
ire ad Þijngd eñ Himen og Jord, Þvi JEſus þad
Fodurſins Orded er, ſem allt med ſijnum Kraapte
ber,

ber, flatur hlaut þo ad falla þar, þa fyrer mig bar
hañ Synðernar.

15. Hiartans Glede og Huggun traust, hier
giefst þier Saal mijn Efalaust, Pad Gialld fyrer
mijna Misgiord, er meira verdt eñ Himen og
Jord, Hañs Sorg, Skiælfte og Hiartans Pijn,
hiaa Gude er eiliif Kvittun mijn.

† 16. Fram̃ þegar JEsus falleñ var, Fegurstu
Bæn hañ giorde þar: Abba Fader ælstkiære miñ,
af mier tak þeñañ Kaleikeñ, Po so sem hellst þu
siælfur villt, sagde JEsus med Gjeded stillt. †

17. Urrædeñ best er audmiwkt Gied, ærngrad
Hiarta og Bæneñ med, hvonær sem kiemur Hor-
mung ad, hupa þu Saal mijn vel um̃ þad, Oþoleñ-
mæde og Moglan þver, meire Reffingar aflar sier.

18. O-bliwgur skalltu alldrei neitt, wtheimta
hvad þu gyrnest veitt, Til Holldsins Muna hent-
ugt þier, hupa jafnañ ad DRotteñ sier, hvad Lijfe
og Saal til Lids er nu, længtum betur eñ sialfur þu.

19. Eins Lijkameñ og Saaleñ sie, sañ audmiwk
legt i Bæneñe, ælijtur DRotteñ iñra hitt, Ei ad
sijdur skal Hollded bitt, Fyrer Gud med Blygdun
gænga fram̃, giorde so fordum Abraham.

20. JEsu! þijn Grætleg Grasgards Pijn,
Gledur erþiæda Saalu mijn, þitt Hiartans Angi-
ur Hiartad mitt, fræ Hrygd og Mædu giorde
kvitt, Pvi skal mijns Hiartans Hiarta Pel, Heid-
ra þig miñ Emanuel.

3. Psalm.

## 3. Psalmur.

### Um HErrans Christi Daudans-Strijd.

Med sama Lag.

EDNN vil eg Saal mijn uppvæ ny, Upphaf taka at Maale þvi, † Uppstood JEsus þo þreittur sie, Prisvarsinum fra Bænenē, Læresveinarner svaafu fast, St. Petur þvi avijtast.

2. Til og fra gieck hañ Prisvar þo. † Par fieckst ei minsta Hvijld nie Roo, Undañfære þvi eckert fañ, Allstadar DRottens Reide brañ, giegnum Holld, Ædar Blood og Bein, Blosse Guds legrar Heiptar skein.

3. Himna-Lioosed var honum byrgt, hellst þvi af Nott var orded myrkt, Ástvina Huggun eingva fañ, Aller svaafu um Tijma þañ, Jorden var honum Ohæg eins, Eingeñ fieckst Boot til þessa Meins.

4. J þessum Speigle þad sie eg, Peim sem Drottenn er Reidur mieg, hvorke verdur til Huggunar, Himen, Lioos, Jord nie Skiepnurnar, aun Guds Nædar er allt um kring, Eymd, Mæda, Kvøl og Fordæming.

5. Framar siest hier, hvad saarleg sie, Fordæmdra Kvøl i Helvijte, fra eiñe Plaagu til añarar, J ytstu Myrkrum þeir rasa þar, O hvad Synden afskapleg er, Allt þetta færer hun med sier.

6. J Pridia Maata af þessu siest, þad lærdu Saal mijn allra best, Guds Reide-Elld og eilijft Faar,

Utslócktu og lægdu HErrans Taar, Allt henum þvi til Ama var, So allt verde þier til Huggunar.

7. Hrygdar Sporeñ þijn HErra miñ, i Himnarijke mig leida iñ, J Nætur Myrkrum laa Neyd a þier, Naudar og Dyrdar Lioos gafst mier, Vener þier eingva veittu Stod, So Vinskap feinge eg vid sañañ Gud.

† 8 Þar kom loksins að þeirre Tijd, þreytte JEsus vid Daudañ Strijd. † Andlaat mitt bæde og Bana-Soott, blessadest mier þa somu Noott, Daudeñ tapade, DRotteñ vañ, Dijrdlegañ Sigur gaf mier hañ.

† 9. Agieck so Daudans Afled rijkt, Eckert Dæme maa fiña slijkt, Allur Lijkame Lausnarans, Laugadest þa i Bloode hañs, Sa Dreira-Sveiteñ dunde a Jord, † DRottens Pijna þvi miog var hord.

10. J Adams Brote var Blood-Skulld giord; Bolvan leidde þad yfer Jord, JEsu Blood hier til Jardar hnie, Jordeñ aptur so blessud sie, Avoxtur, Groode og Alldin klaar, Ofs verde ad Notum sierhvert Ar.

11. Saarkallda Daudans Sveita Bad, uñ sijder þa mier kiemur ad, Saarheite Dreyra Sveite þiñ, Sefe og mijke JEsu miñ, Angistar Sveita eilijft Baal, Alldrei laat snerta mijna Saal.

12. Mier er so Kvol þijn miñeleg, A Morgne hverium þa uppstend eg, Fyrst eg stijg nidur Fæte a Jord, sære eg þier Hiartans Packargiord, Blood-Sveite

Sveite þin eg bid, mier sie, Blessan og Vernd at Jordune.

13. Hormung þa særer Huga min, Hef eg mig strax i Grasgard þin, Dropana tijne eg Dreyra þijns, DRotten i Siooden Hiarta mijns, Pad Gialld alleina gylldir mest, hiar Gude fyrer mijn Afbrot vest.

14. Upphaf alls mesta O-fognuds, Aklogun strüng og Reide Guds, bætt er Fridstillt og forlijkad, Faderen liet sier lynda þad, Sonuren bar hans Bræde frij, borgadest Prællen wt med þvi.

† 15. Pess meir sem Pijnan þreyngde ad, Pvi iñelegar JEsus bad, Heilagur Eingell Himnum fra, HErran sin kom ad styrkia þa. † Eñ hefur þu hier ein Lærdoom, Jdka og lær han Saal mijn froom.

16. Ef hier verdur sem opt kan skie, Undandrattur a Hiarpeñe, Bid, Stin, Andvarpa æ þvi meir, Sem aukast vilia Harmar þeir, Fodurlegt Hiarta hefur Gud, vid hvern sem lijdur Kross og Naud.

17. Sia þu ad Eingell sendur var, Syne Guds hier til Huggunar, Peir goodu Andar oss eru nær, Alla Tijma þa bidium vær, helst þa Lijfs-Enda lijdur ad, Lazari Dæme syner þad.

18. Heidur, Lof, Dyrd a Himne og Jord, Hiartanleg Astar Packargiord, DRotten JEsu hier sætast sie, Sungen af allre Christneñe, Forer Strijded þig þiade frekt, Pad er vort Frelse Æfenlegt. —

# 4. Psalmur.

## Samtal Christi vid Lærersveinana.

Ton, Eirn Gud Skapare allra sia, etc.

†

POstula kiore Christur Prica, J Kvoleñe sier ad vera hia, Baud þeim Vaked og Bidied vijst, Brædleg Freisne so grande sijst.

2. Strax sem JEsus um̃ Steinsnar nær, stie fram̃ leingra (þess giætum vær) aller sofnudu sætt med Roo, Siaalfur HErrañ eiñ vakte þo. †

3. Adur var soddañ um̃ þig spaad, æsett fram̃kom nu HErrans Raad, Pu hlautst Guds Reide Prægu eiñ, Preyttur ad troda JEsus hreiñ.

4. Ef eg skal ecke sofa i Synd, so er Natturañ veyk og blind, um̃ Steinsnar mattu eitt mier þa, alldrei miñ JEsu vijkia fraa.

5. Nætur-Hvijldeñ mijn Natturlig, Noog er mier trygg, þa veit eg þig, hiaa mier vaka til Hiaalprædes, Hvort Kvolld vil eg mier Oska þess.

† 6. Prisvar JEsus til þeirra foor, Po ad hañ mædde Pijna stoor, hañ bad Petrum med hryggre Lund, Hiaa sier vaka um̃ eina Stund.

7. Eñ hañ sofnade æ þvi meir, Ei helldur vissu siaalfer þeir, hveriu svorudu honum þa. HErrans Pijnu miog jook þad aa. †

8. Mig hefur liwfur Lausnareñ, leidt iñ i Naad' ar Grasgard siñ, Vakande so eg være hier, Vitne Skijrneñ mijn um̃ þad ber.

9 Ungdooms Bernskan sem voulegt var, Bill-de mig ofmiog svæfa þar, Forelldra Hirting hoog-værlig, hans vegna kom og vakte mig.

10. Allduren þa mier eðladest, asiell Giaaliifis Svefnen mest, Kienemen D Rottens komu þraatt, Kolludu mig að vakna braatt.

11. Fullvaxen Gleymsku Svefnen saar, sookte mig heim og varð miog daar, Diman Heims Elsku drooft að með, dapurt varð mitt til Bænar Gied.

12. Þa kom Guds Anda Hræring hrein, J Hiartað mitt inn saa Lioomen skein, En i Heimskune so eg svaf, sialdan mig neitt að slijku gaf.

13. Fatrlega var mijn Fijsstkan blind, forlaat mier JEsu þessa Synd, hvar með að jook eg Hor-mung hier, en Hefnd og Ressing sialfum mier.

14. Laattu þo alldrei leidast hier, liwfe JEsu að benda mier, huxe til mijn þitt Hiartað milldt, hyrtu mig lijka sem þu villt.

15. Vil eg nu Hiartans segen saa, Frelsare min að vaka hier hiaa, Anden til Reidu er i Stad, Of-miog Holldeð forhindrar það.

† 16. JEsus unte með liwfre Lund, Læresveinum að hvijla um Stud, † Þvi han vorkynte þeim og mier, Það eitt mijn blessuð Huggun er.

† 17. Sijdarst allra þa saa han þar, Svikara Lið fyrer Hende var, Baud þeim Vakeð og Biðieð best, Burt er nu Værdar Tijden mest. †

18. Soddan Aminning Saala mijn, Sanlega kyllde naa til þijn, So big ei skade Svefnen vær,

Svikareñ er þier ecke fiær.

19 Daudeñ forrædur Fiøred þo, fyrr eñ varde þvi margur doo, hañ er i nænd þo siæst sijst, sierhvern Dag er hañs Ahlaup vijst.

20. Daudeñ þa mæter dapur þier, Doomeñ hefur hañ epter sier, Andskoteñ bijdur bweñ þar, J Baaled vill draga Sæalernar.

21. Siæ þu vel til ad soddañ Her, Sofande kome ecke ad þier, J hreiñe Ydran þu hvørn Dag vak, Herskrwda DRottens æ þig tak.

22. Bæneñ mæa alldrei bresta þig, Bweñ er Freisting ymislig, Pa Lijf og Saal er lwed og þiæd, Lykell er hun ad DRotteñs Naad.

23. Andvana Lijk til einskis neitt, er ad Sioon Heyrn og Maale sneidt, Svo er aan Bænar Sæaleñ snaud, Sioonlaus, Kolld, Dauf og riett Steindaud.

24. Vaktu miñ JEsu, Vaktu i mier, Vaka læattu mig eins i þier, Sæaleñ vake þa sofnar Lijf, Sie hun ætijd i þiñe Hlijf, Amen.

## 5. Psalmur.

## Um̃ Gydingaña Komu i Grasgardeñ.

Toon, Heidrum vier Gud af Hug og Sæal.

†

MEdañ JEsus þad mæla var, Mañfiollde kom i Gardeñ þar, Judas sæa HErrañ siñ forried, Sveinar Prestaña og Strijds Foolk med, Skrid-Byttur bæru Blis og Sverd. † Bwner miog

wt

wt i þessa Ferd, Um þad eg framar þeynkia verd.

2. Verdur þad opt þa varer minst, Voveisteg Hætta bweñ finst, Ein Rootter ei til Enda trygg, ad þvi at Kvollden Saal mijn hygg, Hvad hellst sem kañ ad koma uppa, kioos JEsum þier ad vera hia, Skielsingeingeñ þig skadar þa.

† 3. Eñ Judas hafde adur sagt, Andkieñe þeim, og so vid lagt, hvern eg kysse Handtaked hañ, hondsled med Giætne og bindeð hañ. † Varastu Saal mijn Svik og Prett, Po siinast meige i Hylming sett, Ð Rotteñ augliost þad dæmer riett.

† 4. Eñ JEsus adur allt fornam, hvad ætte vid hañ ad koma fram, Po gieck hañ siaalfur þeim a moot, þañeñ rædde med Kiærleiks Hoot, Ad hverium leited hijngad þier? Hoopur Illmeñis þañeñ tier, JEsum Nadverska nefnum vier.

5. Jeg er hañ: Sagde JEsus þa, Judas siaalfur stood Flocknum hia, Oflugt var Ð Rotteñs Orded þad, aller til Jardar fiellu i Stad. ‡ Hvad hañs Ovine hrellde mest, Huggar nu mijna Saalu best; J allre Neyd þad augliisest.

5. Pa eg fell edur hrasa hier, Hædstur Ð Rotteñ vill reidast mier, Pa segier JEsus: Eg er hañ, Sem Endurleyste þañ Syndarañ, Med mijnu Bloode og beyskre Pijn, Bræde Fader kiær stilltu þijn; Eflaust er þad Assokun mijn.

7. Diøfull, Synd og Samvitskañ ill, Saalu mijna þa kvelia vill: Eins segier JEsus: Eg em hañ, sem afmaa þijna Misgiørd vañ, liika sem

Vindur liettfær Skÿ, længer feiker burt og siaust ei
þvi; A mig trw þu, so ertu frij.

8. Þegar mig særer Soott eda Kvol, Sorgleg Faatækt og Heimsins Bøl, Jeg veit þu segier: Jeg er hañ, JEsus sem lækna vill og kañ, Audlegd af Himnum ættu vijst, Synd þijn og Hrygd i Glede snijst, Heimeñ sigrade eg, hrædstu sijst.

9. A Dauda Stund og Doomsins Tijd, DRotteñ þad skal mijn Huggun blijd, Ord þitt er sama: Eg er hañ, Sem iñ þig leide i Himna Rañ, Pioon miñ skal vera þar eg er; Þvi hefur þu JEsus lofad mier, Gladur eg þa i Fride fer.

10. Jeg seige a moote: Jeg er hañ, JEsu, sem þier af Hiarta añ, Ord þitt lat vera eins vid mig, Elska eg, seigdu, lijka þig: Eilijft þad Samtal ockar sie, uppbyriad hier a Jorduñe, Amen, eg bid so skylde skie, Amen.

## 6. Psalmur.

## Um̃ Judas Koss, og Christi Fangelse.

Ton, Eiñ HErra eg best ætte.

†

FRelsareñ hverge flijde, Fiandmeñ þa lau señ, HErrañ beid þeirra hiñ þijde, Þeim leyfde af Fætur eñ, hvern hellst þeir huxe ad fiña, Hañ spyr sem liooft eg giet, jafnt sem fyrr Judar iña: JEsum af Nazareth.

2. Eg em hañ, aptur sagde, Añad Siñ JEsus hatt; Lærersveinunum lagde, Lijknar Ord þetta bratt,

braut, Ef mijn ydur lyster leita, Pa laated þessa frij. † Bwen var han ad heita, Hialpræðes Orde þvi.

3. Hier af maa heyra og skilla, HErrans vors JEsu Makt, Ecke gat ain hans Villa, aa han neiñ Hendur lagt. Vid mig þo Hatre hreise, Heiptar Meñ illgiarner, Eingen kan utan han leyse, Eitt skierda Haar aa mier.

4. Fodurnum Hiarta blijdeñ, hañ gafst aa þeirra Valld, Saal mijn þvi siert Okvijdeñ, sia þitt Ohlijdnes Gialld, Viliuaur villde hañ bæta, vijst er þijn Skyllda audsien, Ast og Audsveipne mæta, aattu ad leggia i Gien.

† 5. Judas kom flioott sem kuñe, Kyssande JEsum nu, mællte Flaaraadum Muñe, Meistare: Sæll vert þu, HErrañ Hoogværdar rijkur, hañ sagde: Pu miñ Vin, Med Kosse Son Mañsins svijkur. † Sijst mun þvi Hefndeñ lin.

6. Evu Muñ Epled eina, Aumlega ainte uñ Siñ, Fals-Koss þvi sieck ad reyna, Frelsareñ Muñur þiñ, Blijdmælum Diofuls bægdu, So bleckest eg ecke af þeim: Heims Hrecke lijka lægdu, Lijf mitt og Æru geim!

7. Audsien eru Augum þijnum, Öll Viel og Laun Svik hier, hritt þeim wr Huga mijnum, hreint skapa Gied i mier, Virdstu mig Vin þiñ kalla, verda laat Naun þar aa, Hollds Brest og Hræsne alla, hindra og rek mier fraa.

8. J Hættu og Haaska mikeñ, hefur mig Satan

an leidt; O hvad opt eg verd sviken̄! Ei giet eg hlaa-
þvi sagt, Son Mañsins Svikum mætte, sañlega
uppaa þad, Svikaña Haasken̄ hætte, Hiaa mier
ei finde Stad.

9. Muñur þiñ (ad eg meina) miñest vid JEs-
um bert, Pa Holld og Blood hañs hreina, hier sær
þu Saal mijn snert. J Guds Nafne ad þier gaa-
du, Gief honum ei Koss med Viel; J Trw og Yd-
ran þig tiaadu, Tilbw þitt Hiarta vel.

† 10. Paungad þegar ad Stundu, þuste Jllræd-
is Lid, Linsasta Lamb Guds bundu; Loked var
ollum Frid, hardsnwnum Reipum reirdu, Raung-
lætis mijns hañ galt, O Rotten̄ i Droома keyr-
du, Dofnade Hollded allt. †

11. Judar þig JEsu streingdu, Jeg gaf þar
Efne til, Synder mijnar þier þreyngdu, þess nu eg
ydrast vil, Glæpa Bond af mier greider, og gief
mier Frelsed þitt, Andlegum Dofa eyder, sem aa-
fiell Hiartad mitt.

12. Guds Son var gripen̄ Hondum, giefen̄ so
yrde eg frij, Hañ reirdest hordum Bondum, hlaa-
ut eg Myskun af þvi, Fiotur þwng og Faangelse,
streckt laa miñ HErra aa þier, Daudans og Diof-
uls Helse, duttu þvi laus af mier.

13. Bid eg þijn Bonden̄ hordu, binde nu hvern
miñ Lid frаa allskins Glæpa-Giordum, og goldum
Heimsins Sid, Laus og lidugur Ande, Lijfs med-
añ dvelst eg hier, Pier sie jafnañ þioonande, Pessa
Boon veittu mier.

7. Psalm.

# 7. Psalmur.

## Umm Vorn St. Peturs, og Malchus Eyra-Saar.

Ton, Giæsku Guds vier priisum.

†

LAusnarans Lærefveinar, þa litu Adburd þann, og Juda Athafner einar, Aller senn spurdu hann: Eigum vier ecke ad slaa, Ovina Sveit med Sverde, so hier ei þijngra verde? † Saal mijn hier gior ad gaa.

2. Ef þu afforma villder, Eitt hvad sem Vande er a, Parfleg Raad þiggia skyllder, og þig vel fyrer sia, Af þvi optlega skier, Sa sem er einn i Raadum, Einn mæter Skada bradum, Seint þa ad ydrast er.

3. Enn med þvi Mannleg Vitska, J morgu nærer skamt, a allt kann ecke ad giska, sem er þo Vandasamt; Kost þann hinn besta kioos. Guds Ord fær syndt og sannad, Hvad sie þier Leift eda Bannad; Pad skal þitt Leidar-Lioos.

† 4. Petur med svellu Sinne, Sverd wr Slijdrum droo, hans trw eg Brædenn brinne, og beint i Flockenn sloo, Malchus hlaut hier af Tioon, Hann miste hid hægra Eyra, Hogged took ecke meira, Pesse var Biskups Pioon.

5. Lausnarenn lioost nam svara, Lærefveinunum fyrst; Laated þessa framm fara, frekast ad sinne Lyst, Petre svo sagde nu, Sverds Dauda sa skal sekur, Sem Sverd aan Leifes tekur, Sverd slijdra Simon þu.

6. Mein-

6. Meinar þu Faderen̄ millde, munde ei senda hier, Ef eg þess Oska villde, Eingla til Fylgdar mier, Fleire een̄ Tolf Fylkingar, Eda mun skyllt eg ecke, ausfeinktan̄ Kaleik drecke, Sem mier þo sett ur var?

7. So mun uppfyllast eiga, Hvad er i Ritning tiaad, Og sijdan̄ san̄ast meiga, Hvad siest fyrer længu Spaad, So epter Sermon þan̄, Eyra Pioonsins aahrærde, sem aadur Petur særde, Læk ngde ad Heilu han̄. †

8. Saal mijn lærum og siaaum, Med san̄re Hiartans List, Tveñslags Sverds glogt vid gaaum, Greina skal þar um̃ fyrst, Sverd DRottens Doomaren̄ ber, Sverd eigen̄ Hefndar an̄ad, sem øllum verdur ban̄ad, Pad kien̄er Christur hier.

9. Vid eg hier glogt ad giæter, good Vallds tiloorn heidarlig, Saklausan̄ sijst þu græter, nie sialf an̄ meider þig, vird Sverd Guds Vandlætis, Blood skalltu þvi ei ban̄a, burtsnijd þu Grein Last an̄a, merk Dæme Moysis.

10. Pitt Sverd sem þitt er eiged, fyrer þijna eigen̄ Sok, skal ei ur Skeidum dreiged, skijr eru þar til Rok, JEsus bad ban̄ar bert, honum er skyllt þu hlijder, Hoogvær um̃berer, lijder, þad moote þier er giort.

11. Ræn ei Gud sijnum Riette, Pvi reiknast Hefnden̄ han̄s, Valldstioorn til Verndar sette, vijda um̃ Bygder Lands, Ellegar ad þvi gaa, Sverd DRottens sem hier nefnest, san̄lega aa þier hefnest,

Twon þitt vvofalldast þa.
12. Malchus sem miste Eyra, merker þar alla frij, Sem Ord Guds ecke heyra, eiga þo Kost ad þui, Heyrn er þeim hægre stioo, Vinstre Hlust he-illre hallda, Hæd og Spielne margfallda, Noog gieta numed þo.
13. Skalka Mark matte kalla, Malchus hier feinge riett, ad Guds Ovine alla, Einkiene slijkt er sett, Ord hans ei ackta hier: Jeg bid og jafnan feige, JEsus minn lattu eige, þad Merke siast ad mier.
14 Enn sinnur þu hier framar, Frelsarans Dæmed best, Hormungar hættusamar, ad honum lætu mest, sitt Traust þo sette hann, ad Guds Fodurs Giæsku rijka, Gior þu þad Sal mijn slijka, Ef Kross þig henda kann.
15. Kvol sijna JEsus kallar, Kaleik asskeinkt-ann sier, Kross þinn og Eymder allar, Eins mattu nefna hier, þvi DRottenn drack þier til, fyrer þig þa hann pijndest, so þu mijn Sal ei tijndest, Gior honum aiarnan Skil.
16. Þu matt þig þar vid hugga, hann þecker Veikleik Manns, Umm þarftu ecke ad ugga, A-dryck-in Skamtenn hans, vel þijn Vankvæde sier, Hid Swrasta drack hann sialfur, sætare og minne enn haalfur, Skierfur er skeinktur þier.
17. Heipt mijna og Hefndar Næme, hefur þu JEsus bætt, Mier gafst Manngiæsku Dæme, þa Malchum fieckstu grædt, Eg þarf og einenn vid,
Eyrad

Eyrad mitt læknad yrde, so Ord þitt heyre og virde, Pijdlega þess eg bid.

18. Hiaalpa mier Herra sæle, ad hallda Kross-Bikar miñ, so mig ei undañ mæle, nie megle um̃ Vilia þiñ, Eg bid Almætte þitt, vorkyñe miñe Veike, Ef verda kañ eg skeike, Hreskú þa Hiartad mitt, Amen.

## 8. Psalmur.

### Predikun Christi fyrer Gydingum.

Ton, Sa frials vid Løgmaal fæddur er.

TAlade JEsus Tijma þañ, til vid Ovine sijna, Sem komner voru ad hondla hañ, heyrum þa Kieñing sijna.

† 2. Sem til Illvirkia eru þier, wtgeingner mig ad fanga, aadur gat eingeñ meinad mier, J Musterenu ad gaanga.

3. Daglega hef eg synt og sagt, Sañleiksins Kieñing mæta; Eingeñ gat Hendur aa mig lagt, ættud nu þess ad giæta.

4. Yfer stendur nu ydar Tijd, uppfylld so Ritning verde, Myrkrañа geisar Magteñ strijd, mæla so JEsus giørde. †

5. Liwflynde Blessad Lausnarans, Lijttu hier Saal mijn kiæra, Saa vill ei Dauda Syndugs Mañs, Soddañ maattu nu læra.

6. JEsus þeim synde i sañre Raun, Saalar-Heill Raad og Frelse, Guds Syne Judar gulldu i Laun, Grimd, Hatur og Faangelse.

7. Furda

7. Furda þvi, Saal miin, eingeñ er, Ei skallt þvi Dæme tiina, Po Verolldeñ laune vondu þier, Velgiord miog litla þiina.

8. Gydinga Dæme skynia skallt, Skil þig vid Odygd sliika, Packlæte fyrer Goodgiord giallt, Gude og Moñum iijka.

9. Jeg læt mier þessu jafnframt sagt, JEsu af Ordum þiinum, Eingeñ gat Hendur aa þig lagt, ad eigeñ Vilia siinum.

10. Pañ Takmarkada Tiimans Punct, Tilsette Fadereñ millde; Nær þad Anaudar Oked þrongt, yfer þig gaanga skyllde.

11. Eins Upphaf liika og Ending med, Allrar Hormungar miñar; Fader Himneske, er fyrer sied, J Forsioon Myskunar þiñar.

12. Pesse nu Tiimeñ ydar er, Ovinum JEsus sagde, HErrans eg þetta Maaltak mier, J Muñ og Hiarta lagde.

13. Nu stendur yfer Naudar Tiid, Naudsyn er þess eg giæte, Liidur mig DRotteñs Bidlund bliid, Brot miin so kvittast mætte.

14. Ef eg þa Tiid sem Gud mier gaf, Gaalaus forsooma næde, DRotteñs Tiime þa tekur af, Tviimæleñ oll i Bræde.

15. Pvi leingur sem hañs Bidlund bliid, Bedeð forgiefens hefur, Pess hardare mun Heipteñ striid, Hefndar þa DRotteñ krefur.

16. Guds vegna ad þier giæt miin Saal, Glæp um ei leingur safna, Giorum Ydran þvi meir eñ Maal,

Maal, Mun vera Synd ad hafna.

17. J Dag vid skulum skipta um̃ skiott, skal Synd ꝏ Flootta rekeñ, Hver veit nema sie nu i Noott, Naadeñ i burtu tekeñ.

18. Talar JEsus um̃ Myrkra Magt, Merked þad Valldstioornendur, ydur skal nu i Eyra sagt, Um̃dæmed Heims tæpt stendur.

19. Liooſed Myrkreñ burt leider frij, med Liooſma Byrtu ſiñar, Varaſt ad ſkyla Skælkum þvi, J Skugga Magtar þiñar.

20. Miñſtu ad Myrkra Magteñ hver, þa Myrkur Daudans ſkalt kaña, J ytſtu Myrkrum eingeñ ſier, Adgreining Hoſdingiaña.

21. Myrkre liettare er Mägteñ þijn, miñſt þeſs ſyrer þiñ Dauda, Pa DRotteñs Hætignar Dyrdeñ ſkijn, hañ dæmer eins Rijka og Snauda.

22. Fyrſt Makt Heims er vid Myrkur lijkt, Mijn Sæl hallt þier i Stille, varaſtu þig ad reida rijkt, ꝏ Rijkes-Maña Hylle.

23. DRotteñ JEſu þu Lijffins Lioos, lijſtu Valldſtioornar Moñum; So þeir ſem ræda yfer oſs, Efleſt ad Dygdum ſoñum!

24. JEſu þijn kallda Kvala-Stund, Kvala-Tijd af mier ſvipte, Guds Barna gafſt mier Gledeſ Fund, good voru þau Um̃ſkipte.

25. Myrkraña þreyngde Makteñ hier, mig ſvo leyſter wr Vanda, Kvalaña ytſtu Myrkur mier, meiga þvi alldrei granda, Amen.

## 9. Psalmur.

## Um̃ Flootta Læresveinanna.

Ton, JEsu Christe þig kalla eg a.

†

ÞA Læresveinarner sau þar, sin̄ HErra gripen̄ Hondum: Og han̄ af Foolke vestu var, Vægdarlaust veirdur Bondum: Aller sen̄ honum flijdu fra, forlietu DRotten̄ hreinan̄, J Haska einan̄. † Ad soddan̄ skulum vid Saal mijn ga, sian um hier Lærdoom beinan̄.

2. An DRottens Raada er Adstod Mans, J eingvu mun̄sta Gillde, famnijtt reyneft opt Fylged hans, Er frekast hiaalpa skyllde, Hver ein̄ vill forda sialfum sier, Ef sijnest Haaske bwen̄, ad Hende snwen̄, Far þvi varlega ad fallvollt er, Frænda og Vina Trwen̄.

3. J sama Maata sier þu hier, Saal mijn i Speigle einum, ad hrygqelegar sie hattad hier, ein̄ HErrans Læresveinum, Þeir hofdu Leise Lausnarans, Lijfe ad forda sijnu, Fra sarre Pijnu, Nauduger mistu Naavist hans, Nu giæt ad Raade þijnu.

4. Hvad opt JEsu þier stwde eg fra, freckt a moot Vilia þijnum, þa Glæpa Veigen̄ gieck eg a, Gyrndum fylgiande mijnum, Forskulldad hafde eg fyrer þad, Flootta Madur ad heita, Til Heliar Reita, En̄ þu virdtest mier aumum ad, Aptur i Myskun leita.

5. Ein̄ varstu JEsu epter þvi, J Ovina Lauten̄

Hondum, Eiñ so ea være alldrei i, Eymd og Freistingum vondum, Aller forlietu einañ þig, Allt so mig hugga kyñe, i Mañraun miñe, Eg bid O Drottiñ lat ecke mig, Einsamlañ nockru Siñe.

† 6. Læresvein Sæl mijn stiædu þañ, sem JEsu epterfylgde, Rænglæt Ungmeñe ræntu hañ, Rett-Nakeñ vid þaug skyllde, † Bet-snoggur Flootte betre er, eñ Brædralag Orietteñda, Vid Selskap Synda, Avinning læt þig eingvañ hier, J þeirra Flocke binda.

† 7. Burt þadañ JEsum færde sliott, Flockur Jllrædes Maña, Lamb Guds Saklaust, þo leid ad Nott, Leiddu þeir til Kvalaña, Myrkunarlaus sin Medferd braad, Mier virdest epter Vonum, J Nætt Myrkrunum, Peir hafa bæde Hrakt og Hriæd, Hrunded og Piakad honum. †

8. J Daudans-Myrkrum eg dæmdur Præll, dragast ætte til Pijnu, Eñ þu teokst JEsus Son Guds sæll, Saklaus vid Straffe mijnu, Pañeñ tilbioostu Lijfsins Leid, Lioomande Sælu miñe, Po Lijf hier liñe, Andlæts Kvolum og kalldre Neyd, Kvijde eg þvi eingvu Siñe.

9. Hrocktu þvi so og hriædu þig, HErra miñ Jlsku-Piooder, ad hier nu bære æ Hondum mig, Heilager Einglar gooder, Mædusom urdu Myrkureñ hier, Mæta lietu þig hordu, og Hindrun giordu, Guds Dyrdar Lioos svo lyse mier, æ Lifande Maña Jordu.

10. Kvala-For JEsu þesse þijn, sem þa gieckstu Einu-

Einusine, Vere Kraptur og Verndenn mijn, Svo Vegenn Lijfsins eg sine, Lat ecke Dioful draga mig, J Dofenleik Holldsins blinda, til Sektq og Synda, Eg bid af Ast og Alwd þig, Akiesd hans burtu ad hrinda.

## 10. Psalmur.

### Um Fyrsta Ransak fyrer Caipha.

Ton, Allt mitt Rad til Guds eg set.

†

TJL Hanas Hwsa HErran Christ, Hardrader Judar leiddu fyrst, Beysk frá eg Bond hann sære, Honum strax þadann vijsad var, Vidtekt fieck ei nie Hvijlder þar, miog so þott mæddur være.

2. Burt sende þui med beyskre Pijn, Bundenn Caipha Maage sijn, Hannas vorn HErrann sæta, Hofud-Kiennemans hædstu Stiett, hafde sá þetta Ared riett, Guds Logmals ætte ad giæta. †

3. Ur Himnarikes Hvijldar-Stad, hofdum vid Saal mijn forskulldad, wtreken vijst ad vera, Enn JEsus took nu uppá sig, Onaidan þessa fyrer þig, Lof sie þeim liwfa HErra.

4. Hiartad bæde og Hwsed mitt, Herberge vere JEsus þitt, Hiá mier þigg Hvijld hentuga, Þoott þu komer med Krossenn þinn, Kom þu blessadur til mijn inn, Fagna eg þier fegens Huga.

† 5. Caiphas hafde hier um spaad, Hentugast munde þetta Raad, Ad dæe Einn fyrer Alla. † Embættes mæste Andenn þar, af þui Hiartad ei vissi

 þar,

þar, Sañleik Guds siñe valla.

6. Balaams Dæme eins var eitt, Andagypt sliik var honum veitt, Spaklega Tungañ sparde, Hañ hafde i Siñe Hreckia-Raad, Hiartad fieck ecke Sañleiks gaad, Þvi hañ Fiegyrndeñ þiarde.

7. O JEsu! lææt þiñ Anda hier, alldrei vijkia i burt fraa mier, Leid mig Veg Lijfsens Orda, S o Hiartad bæde og Maaled mitt, Mykle samhuga Nafned þitt, Hollds Gyrnd og Hræsne forda.

† 8. Til Caiphas voru komner señ, Kieñevallded og Stioornar-Meñ, Biskupeñ þegar ad Bragde, Leitar Andsvars til Lausnarans, um Læresveina og Kieñina hañs, Eñ JEsus aptur sagde:

9. Opeñberlega eñ ecke leynt, J Musterenu kienda eg beint, Hvad spyr þu mig um þetta? Kuñgiørd meiga þar vm þier, Þeir sem Lærdoomeñ heyrdu af mier, Þa læættu þig Leidrietta. †

10. Giæt ad mijn Saal og siaadu þar, Sonur Guds under Rañsak var, Krafdur þad Kvollded eina, A Kvollde hveriu þu koma skallt, Kvollds-Reikning vid þig siaalfañ hallt, Med Kvollds-Offurs Ydran hreina.

11. Þu Guds Kieñemañ þeink um þad, Þar mune um sijder grenslast ad, Hverneñ og hvad hier kiender, ad Læresveinum mun lijka spurt, sem liet þitt Gaaleyse villast burt, Huxa glogt hvar vid lender.

12. JEsus vill ad þijn Kieñing klaar, Kroptug sie hrein og Opeñskaar, Lijk hvellum Lvdurs Hlio-

me,

me, Laun-Smiadran øll og Hræsnen haal, hindrar Guds Dyrd en viller Saal, Straffast med straungum Doome.

13. Vangiætslan mijn er margvijsleg, Milldaste JEsu beide eg þig, Vægdu Veikleika mijnum, Forsoomun eingen sanst hiaa þier, Fullnadar Bert þad tel eg mier, Styrk veittu Pioonum þijnum.

14. Eins er hier einen øllum riett, Alvarleg Kienning fyrer sett, Ord Guds elske og lære, Trwen Innvortes efle Gied, Einardleg Jaatning lijka med, Avoxt hid ytra fære.

† 15. Byskups Pioon ein i Bræde þo, Blessadan JEsum Prwstur sloo, So þad Ritningen seger, Hoogværlegt Andsvar HErran gaf. † Honum Saal mijn þad lærdu af, um Sakleyse þitt e þeiger.

16. O, vart Samvitskan Adam sloo, Illan Kinroda sieck han þo, J fyrsta Falle sijnu, Pess vegna JEsus Hogged hast, hlaut ad lijda og Rod na fast, Allra fyrst i hans Pijnu.

17. DRotten JEsus eg þacka þier, þetta leidstu til Frelsis mier, Eg bid Astseme þijna, Samvitsku Sløgen Svida skiæd, a Saalu mine þu Myk og Græd, burt-taktu Blygdun mijna, Amen.

## II. Psalmur.

### Um Afneitan Peturs.

Ton, Dagur i Austre øllu.



GUDspialls Historiañ gietur, gripeñ þa JEsus var, Aller señ utañ Petur, yfergæfu hañ þar, Og Lærefveiñ eiñ añar, Aleingdar geingu hlloott, HErrañs Braut Hrigdar saña, Harla dimt var af Noott.

2. Caiphas Kieñemañe, kuñugur Lærefveiñ, Jñgeingur ert med Sañe, wreftood Petur eiñ, Ambaatt upplwka beider, Okiendañ Petrum þa, J Forsal til Lydsens leider. † Lærdoom hier fiña maa.

3. Kross-Ferle ad fylgia þijnum, Fyser mig JEsus kiær, vorkyntu Veykleik minum, Po verde eg Aleingdar fiær, Pa Trw og Pol vill brotna, Preynger ad Neydeñ vond, Neys þu vid Neyreñ brotna, Og riett mier þijna Hond.

† 4. Kol-Elld þvi kallt var nærsta, Kveikt hafde Præla-Lid, Petur med Sturlan stærsta, stood hiaa þeim Logañ vid, Ambaatt hañ Ein sprogsette, af sier þad heyra liet, Mun þesse Mañ (hun friette) Med JEsu af Nazareth?

5. Hañ neitar hradt ad Bragde, hræddur vid Ordeñ bist, þañ sig ei þeckia sagde: Pa gool nu Haneñ fyrst, Ætlar sier wt ad rijma, Oñur Persona hañ saa, talar i Añañ Tijma, til þeirra er stoodu hiaa.

6. Af Nazareth nu er þesse, nykomeñ JEsu med, hiñar Gied trw eg þad hvesse, hver Madur spyria ried: Ertu eiñ af hañs Sveinum? Eñ Pet-

ur

ur neita vañ, sagde med Eide einum: Alldrei peckta eg hañ.

7. Pridia Siñ par til logdu, Pionar Caiphas bert, Maalfæred sumer sogdu: Seiger til hver þu ert, Frænde Malchus ried mæla: Munde eg þig ecke siaa (giet eg sijst Grun mig tæla) J Gardenum JEsu hiaa?

8. Petur med kliwgu Bragde, hyrdlega sagde Ney: Soor sig og sart vid lagde, soddañ Mañ þeckte hañ ei, Glogt þegar giordest þetta, gool Haneñ Añad Siñ, † Sijst matte Sorgum lietta, Swt slaug i Briooſted iñ.

9. Saal miñ þier Faare forda, freklega voga sijst, aan Leysis DRottens Orda, Ostyrkt er Hollded vijst, þykest þu stodugt standa, stilla þiñ Metnad þarft, hver sier vogar i Vanda, Von er saa falle snart.

10. Adur i Allden-Garde, Ohræddur Petur var, Kallmeñsku Hugureñ harde, hañs sig Auglijste þar, Audvird Ambaatt hañ hrellde, ofmiog þvi skielfast vañ, frá Sañleik sijdañ fellde, Sama þig henda kañ.

11. Kol-Ellde kveiktum jafnast, Kotlande Veralldar Prial, Prælar Syndaña safnast, samañ vid Losta-Baal, Fuller med Fals og Villu, forðastu þeirra Glis, Vtijd er med þeim Illu, Einfolldum bwed Slis.

12. Ambaatt med ygldu Bragde, er þesse Verolld leid, morguñ Mein-Snorur lagde, miog aa

Spott-Yrden̄ greid, Pijed med Prælum sijnum, Pioona Guds laſtad ſær, Styrk mig med Mætte þijnum, moothen̄e O Drotten̄ kiær.

† 13. Epter Afneitan eina, wt villde Petur gaa, Hugde han̄ Braut ſier beina, bwna þeim Solle fraa, þa kom eitt odru verra, um̄krijngdu Prælar han̄, Affoor ſin̄ ſæla HErra, ſier og formæla van̄. †

14. Hægt er hverium ad ſtofna, J Hættu og Vanda Spil, Forvitnes Dælſkan̄ dofna, dreguꝛ þar margan̄ til, Ogiæfu Gilldran̄ þraungva, greip ſkiott þan̄ kun̄e ad naa, wtkomu Von fieck ongva, Ad þvi i Tijma gaa.

15. Opt maa af Mæle þeckia, Man̄en̄ hver hellſt han̄ er, ſig mun fyrſt ſiaalfan̄ bleckia, ſa med Laſt-Mælge fer, Goodur af Giede hreinu, Good-Ordur reyneſt vijſt, fullur af Jllu einu, Jllyrden̄ ſparar ſijſt.

16. Hryggeleg Hroſun hente, heilagan̄ Drottens Pioon, Synden̄ miog ſaart han̄ ſpente, Saalar var bwed Tioon, Hvad mun eg Mattar naumur, meiga þa ſtandaſt vid, Vangiæten̄, Veſæll og Aumur, Vielum og Hreckia Snid?

17. J Veralldar Vondſku Solle, velkeſt eg JEſu hier, Falle þad opt mier olle, Oſtödugt Hollded er, Megnar ei moote ad ſtanda, mijn Hreyſte Natturlig, Laattu þitt Lioos og Anda, leida og ſtyrkia mig, Amen.

## 12. Pſálmur.

## Um̃ Ydran Peturs.

Ton, Kom Ande Heilage.

†

PEtur þar sat i Sal, hiaa Sveinum iñe, Tvent hafde Hana-Gal, heyrt ad þvi Siñe.

2. Bweñ var Prisvar þa, hvert hañ ad neita, sier JEsum slæañ fraa, Sorg maa þad heita.

3. ORotteñ vor veik sier vid, vijst uñ þad giet ur, Liwfur med Lijknar Sid, og leit aa Petur.

4. Strax slaug i Huga hañs, hvad þo sijst varde, Lausnarans Ord og Ans, J Alldengarde.

5. Blygdadest braatt vid þad, Briootst fullt af Trega, gieck wt wr greindum Stad, og griet beisklega †

6. Siaa þu med sañre Trw, Saal mijn aastkiæra, Hvad framar hefur þu, hier af ad læra.

7. Haatt galar Haneñ hier, J hvers Mañs Siede, drygdar þa Synder sier, sem Petur skiede.

8. Saarlega Samviskañ, Sekañ aaklagar, Jñvortes aumañ Mañ, aangrar og nagar.

9. Fær hañ sig frælsañ sijst, þo fiñest brelldur, Sem Fugl vid Snwning snijst, Peim Snarañ helldur.

10. Vijkia þo vilie hañ, fraa Vondsku Hætte, orka þvi ecke kañ, af eigeñ Mætte.

11. Upp þo sier ætle braatt, aptur ad standa, sellur hañ þegar þraatt, J þijngre Vanda.

12. Løgmaal Guds hroopar haatt, Hana-Gal Añad, seiger og syner þraatt, Hvad sie þier bañad.

13. Pad þvijngar þrwgar med, Pad slær og

lemur, Sorgande Syndugt Sted, ſærir og fremur.

14. Pad verkar Sorg og Smt, þeim ſeka Mañe, hiaalpar þo eingvum wt, wr Synda Bañe.

15. Hollded þar þriootſkaſt vid, og þyker illa, Eykſt aa þañ Synda Sid, Svik Hræſne og Villa.

16. Eñ JEſu Allt ſkijrt, Anda Guds þijder, Saa giører hægt og hijtt, Hiartad um ſijder.

17. Lætur hañ Logmaal biſt, Lemia og hræda, Epter þad ſer hañ ſyrſt, ad frida og græda.

18. Ord JEſu edla ſætt, er hañs Verkfære, helſt fær þad Hugañ kiært, Po hreldur være.

19. Hañ giefur hreina Trw, Hañ Falleñ reiſer, Hañ Veikañ hreſſer nu, Hañ Bundeñ leyſer.

20. Ei er i ſiaalfs Valld ſett, Sem nockrer meina, Pferboot Pdran riett, Og Trweñ hreina.

21. Hende þig Hroſun braad, ſem helgañ Petur, under Guds aattu Naad, hvert ydraſt gietur.

22. Heimſka er verſta viiſt, vid þad ad dyliaſt, þu muner þa þier lijtſt, vid Prauter ſkiliaſt.

23 Ef JEſus ad þier ſnijr, med Aſtar Hoote, Lijtſu þa Huga hijr, honum aa moote.

24. Graata ſkallt Glæpe ſaart, eñ Gude trwa, Elſka hañs Orded klaart, fraa Illu ſnwa.

25. Onyt er Pdran tæp, ad þvi ſkallt hyggia, Ef þu i giordum Glæp, Gyrneſt ad liggia.

26. Petur þa formerkt ſieck, Fall-Hroſun ſlijka, wr Synda Salnum gieck, So giordu lijka.

27. O JEſu! ad mier ſnw, Aſioonu þiñe, ſiaadu mig ſærdañ nu, aa Saalu miñe,

28. Þegar eg brasa hier, hvad mieg opt sanast, bend þu i Myskun mier, so mege eg vid kanast.
29. Opt liit eg upp til þiin, Auaum grætande, Liittu þvi siwst til miin, so leysest Vande, Amen.

## 13. Psalmur.

### Um Caiphas Doom.

Ton, JEsus Guds Son Eingieten.

†

FOringiar Presta feingu, Fals-Vitne morg til-sett, Frwslega fram ad geingu, Fuller med Svik og Prett, Samhlioóda urdu eige, Uppdicktad mar-gt þo sege, JEsus þa þagde sliett. †
2. Lær þu ef Ligum mæter, Liifs-Reglu Sæl miin hier, Med Forsse og Pioost ei þræter, þræ.eta so til ber, Hoogvær Pogn Heypter stiller, Heimsk-ordur Sanleik spiller, Opt fyrer siælfum sier.
3. Hyrt alldrei hvad sem gyllder, ad hætta at Osatt Mæl, hvert veria edur sækia villder, Verdur þad morgum Tæl, Munur sæ laungum lygur, Frai Lucku og Blessan hnijgur, Han deyder siina Sæl.
4. Sanleiks Vitne þo seige, Sekan mig Gude hiæ, Ottast þarf eg nu eige, Assokun hef eg þa, Liwgvotta Lyge megna, Leid JEsus mina vegna, Klogun mig keypte fræ.
† 5. Caiphas friette fyrstur, Falsklega HErran ad Siælfur hvert sie han Christur, Og so en fram-ar kvad, Vid sanan Gud eg þig sære, Ef Sonur

hans

hañs ertu hiñ kiære, Segdu oss satt um̃ þad.

6. JEsus jatar ad Stundu, Jafnframt þvi so nam tiaa, Son Mañsins siaa þeir munda, sitia þadañ i fraa, Til Kraptarens Hægre Handar, og hier epter komanda, skiæraſta Skye aa.

7. Kieñemañ reif sijn Klæde, Kvad slijkt Guds-Lastan er, ad spyr med Ogna Bræde, um̃ þad hvad hallde þier? Allt Narded under tekur, Er hañ vijst Dauda sekur, Soddañ sambyckium vier. †

8. JEsus ei ansa hyrdte, aadur þa loged var, Guds Nafn þo giarnañ virdte, Gaf þvi Caipha Svar, Lygd Heims þo lijted sæter, Lausnarans Dæmes giæter, Leita Guds Lofdyrdar.

9. Hygg ad og herm̃ hid saña, Hvenær sem til er reynt, Hrædst ei Hootaner Maña, Hallt þiñs Jatning beint, Giæt vel ad geymer þetta, Guds Ord og Trwna rietta, Medkiendu Liooſt og Leynt.

10. Caiphas Løgsogn leida, Lært hafa marger eñ, hvad sem Hofdingiar beida, hiner aalykta señ, Vinskap sig villa laata, Viliande Naungu jaata, Fordeſt þad froomer Meñ.

11. Su er mijn Huggun sama, sem þijn var JEsus miñ, Krossiñ þa ad vill ama, Offsokn og Hormung stiñ, hiaa þiñe Hægre Hende, hier þo ad Lijfed ende, Fagnadar Nægd eg fiñ.

12. Þier til Gudloſtun lagde, Liwgande Kieñe-mañ, Dauda sekañ þig sagde. Sañlega Urskurd þañ, aatte eg ad heyra helldur, Hart med riettu Sakfelldur, Vijst eg nvog til þess vañ.

13. Andlegt Valld einum Roome, Urskurdar Daudan hier, DRotten i Raudar Doome, dæmer hvi Liifed mier, Packa eg Elsku hiñe, Pu keypter Saalu miñe, Friijun og Frelse hier, Amen.

## 14. Psalmur.

## Um̃ Pioonaña Spott vid Christum.

Ton, Allsagurt Livos oss birtest bræatt.

†

EPter hañ Doom sem allra fyrst, Andleger dæmdu um̃ HErrañ Christ, hafa þeir hvi ad þa var Roott, Pegar til Hvijldar geinged skiott.

2. DRotteñ vor epter þreyttur þar, Præum til Giærslu feingeñ var, Giorde ad honum Gis og Daar, Gudlausra Maña Flockur þraar.

3. Hædung, Spottyrde, Hroop og Briixl, Hver sliet med ødrum gaunga æ viixl, Hræktu og sloou HErrañ þar, hañ þo æ medañ bundeñ var. †

4. Siaæ þu og skoda Saala mijn, Saklausa Lambsens beysku Pijn, Huxa vandlega um̃ þad allt, af þessu hvad þu læra skallt.

5. Hañ sem ad Nætur-Hvijld og Roo, hverre Skiepnu af Myskun bioo, J siñe Ogna Eymda-Stærd, Eingvañ Kost fieck æ neiñe Værd.

6. Hvijldar-Roott marga hef eg þaad, HErra JEsu af hiñe Naad, Kvol þijn Eymdum mig keypte fraæ, Kañast eg nu vid Giædsku þa.

7. Nær sem eg reyne Sorg og Soott, Seinast ad kiemur Daudans Roott, Nætur-Kvala sun

neyddu

neyddu þig, Nioota láttu þo JEsu mig!

8. Samvitsku-Slog og Satans-Hard, Sefe JEsu þijn blessud Nard, Ofbod Daudans og Andlaats Pijn, aftake og myke Giætskañ þijn.

9. Margur (og viijst þad maklegt er) mieg þessum Skalkum formæler, Po fiñast nockrer hier i Heim, ad Headun allre lijker þeim.

10. Hvad giora þeir sem hier a Jord, hafa ad Spotte DRottens Ord; Lifa i Glæpum lioost til Sañs, Lasta og Forsmaa Pioona hañs.

11. Saa sem Guds Nard og Sañleikañ, Sier Pecker Veit og Skynia kañ, Kukl og Fiolkynge kyñer sier, Caiphas Prælum verre er.

12. Soneñ Guds ecke þecktu þeir, Pvi Syndga hiner laangtum meir, sem kallast vilia Christner best, Christum þo lasta allra mest.

13. Hræsnarar þeir sem Hrecke og Synd, hylia þo under Froomleiks Mynd, Lijkiast þessum sem Lausnarañ, Lomdu blindande og spiodu hañ.

14. Hverium sem Spott og Hædne er kiær, hañ geingur þessum Selskap nær Forsmaan Gudrækins Faatæks Mañs, Fyrerlitning er Skaparans.

15. O! Vesæll Madur ad þvi gaa, epter mun koma Tijme saa, sama hvad nidur sæder hier, siaalfur aan Efa upp þo sker.

16. Ef hier a Jord er Hroop og Hard, Hædne og Gudlast nidursærd, Uppskored verdur eilijft Spie, Agg og Forsmaan i Helvijte.

17.

17. Etla þu ecke aumur Mañ, áskomast mune Straffslaust hañ, Sem Soneñ hefur hier hædt og spiad, horfe Fadereñ uppa þad.

18. Hvad JEsus nu um̃ Nætur Skeid, Naudstaddur hier af Moñum leid, Ogudlegur um̃ Eikifd þa, af illum Dioflum lijda maa.

19. Okiendum þier, þo aumur sie, alldrei tillegg þu Hæd nie Spie, Þu veitst ei hvern þu hittet þar, helldur eñ þesser Gydingar.

20. Siaalfañ slær mig nu Hiartad hart, hef eg aan Efa miken̄ Part, af soddañ Illsku aastundad, Audmiwklega eg medgeing þad.

21. Saad hef eg nidur Synda Root, Svijvirding mijn er morg og lioot, Uppskieru Tijmañ Ottast eg, aangrast þvi Saaleñ næsta miog.

22 HErra miñ JEsu Hormung þijn, Huggun er bæde og Lækning mijn, Sakleyse vijst þu saader hier; Sæluñar Avoxt gafstu mier.

23. Blood Dropar þijner, blessad Saad, ber þañ Avoxt sem heiter Naad, Þañ sama Gud mier sialfur gaf, Saaluhiaalp mijn þar sprettur af.

24. Hæddur varstu til Heidurs mier, Hogg þijn og Slog mijn Lækning er; Alldrei min Dioful eiga Vallð, aa mig ad leggia Synda Giallð.

25. Eñ þier til Heidurs aptur aa moot, ydrast vil eg og giora Boot, Hollds Vilia giarnañ hepta miñ, Hiaalpe mier JEsu Kraptur þiñ, Amen.

## 15. Pſalmur.

## Um̃ Raadſtefnu Preſtaña yfer Chriſto.

Ton, Chriſts er koma fyrer Hondum.

†

MOrgen arla uppe voru, Olldungar Juda ſeñ, So til Samfundar fooru, fyrſter þo Kieñe- Meñ, J Raadſlag lietu leidaſt, lijkar þad ollum vel, Hverneñ þeir giæte greidaſt, Guds Syne ko- med i Hel.

2. Heimtu med Heiptar Lundu, HErrañ vorn til ſijn brætt, Orſøk þvi aungva fundu, aller ſeñ mælltu hætt: Seig oſs ef ertu Chriſtur, einaſte Son Guds ſa, Grædareñ Giæſku lyſtur, Gaf Andſvar þar uppa.

3. Po ydur eg þad ſeige, Ecke ſamt trwe þier, Andſvared mier og eige, ef eg ſpyr nockurs hier, Mañſins Son ſiaed ſitia, ſeñ hiaa Guds Hægre Hlid, J Skije mun eiñeñ vitia, aptur med Dijrd- ar Sid.

4. Ertu Guds Son þeir ſogdu? Svarade DRotteñ, Jaa, Diarfer þañ Doom aa logdu: Dauda-Madur er ſaa, Uppſtoodu ſtrax ad Stun- du, Stríd þeim i Hiarta brañ, Frelſarañ Fiøt- rum bundu, Færdu Pilato hañ. †

5. Hier maattu Saal mijn ſaña, ſo geingur þad til vijſt, Aſtundan Jllvirkiaña, Umbyggiu vantar ſijſt, aarla þeir Blunde bregda, Binda faſt oll ſijn Raad, Klooklega Hreckium hegda, Hver ſem þeſs ſenge gaad.

6. Eñ

6. Eñ þu sem ætt ad vera, Utvaleñ DRottens Pioon, Verk hans og Vilia ad giera, og varast þitt Saalar. Tioon, Andvara eingvañ hefur, Umhygg-iu lijtell sieſt, Vid Glis Heims Saalaus sefur, Gud nærde soddañ Brest.

7. Marger upp ærla rijſa, Ei gieta sofed vært, Epter Aud Heimſens hnyſa, Hollds-Gagned er þeim kiært, Saaleñ i Briooſte sofnud, Syneſt ad meſtu daud, Til allra Dygda dofnud, sem DRotteñ hellſt þo baud.

8. Forſioonar Verk-Meñ vijſer, Vijngards DRottens i, Fyrſt þa Dags-Lioomeñ lijſer, Liwſt bid eg giæte ad þvi, uñ ſitt Embætte hygge, ærla glørd Bæneñ ſie, Jdiulauſer ei ligge, J Lijkamans Giaalijſe.

9. Haturs-Meñ HErrans vaka, Hyxande ad giora Tioon, Epter þvi ættu ad taka, Ef ertu hans Trygda-Pioon, Vilier þu vid þeim ſporna, og varaſt þeirra Hæd, ærla Dags alla Morgna, Vid Ord Guds halltu Raad.

10. Peink nu i þijnu Hiarta, Þar næſt i Añañ Stad, Hvar uñ HErrañ ried kvarta, Hyggia mættu þar ad, Ordum hans ecke treyſtu Illgiarn-er Jwdar þeir, wr Spurning eingre leyſtu, AE þvi veſtnudu meir.

11. Hver trwer nu hart þo hoote, HErrañ Syndugum Lyd? Allſæſter iña æ moote, Ydran-ar Svoreñ blijd, Hyrtingar hiaalpa ecke, Helmur veſtnande fer, Blindleikeñ trw eg oſs blecke, Bwed

Straff nœlægt er.

12. Vijst er eg veikur ad trwa, veitstu þad JEsu best, Frœ Syndum seiñ ad snwa, Sodd añ mig angrar mest, Po framast þad eg megna, Pijnum Ordum eg vil, Treysta og giarnañ giegna, Gief þu mier Nœd þar til.

13. Par-næst ad þessu giæter, Pad er oss Lærdooms Grein, Ef þu Oriette mæter, Affokun dug-er ei nein; Hafdu þa Bidlund hyra, HErrañ mun til þijn siœ, Lœt Polgieds-Dœmed dyra, DRottens þig hugga þa.

14. Mier er sem i Eyrum hlioome, Urskurdur DRottens sœ, œrla œ Effta Doome, upp þegar Dauder stœ, Affokun ei mun stoda, Andsvor nie Spurningar, Sœ stendur vijst i Boda, sem verdur sekur þar.

15. Hier er nu Kostur ad heyra, HErrañ talande i Nœd, Opna JEsus mitt Eyra, So ad þvi feinge gœd, Hoogvær vors Bata bijdur, Blessadur þessa Tijd, Añars Heims er hañ strijdur, ollum Forherdtum Lijd.

16. Arla Urskurdeñ logdu, œ þig Gydingar þo, JEsu, og sekañ sogdu, Selldu þig Pilato, œrla œ Effta Deige, Affokun gillder sw, Til Dauda eg dœmest ·ige, DRotteñ þess miñest þu.

17. Arla Dags uppvaknadur, ætijd eg miñest þijn, JEsu miñ Hiœlpar hradur, Hyxa þu æ til mijn, Arla œ Effta Doome, Affokun vertu mier, Miñstu þa Frelsareñ froome, Hvad fyrer mig leidstu hier, Amen. 16. Ps.

# 16. Psálmur.
## Um̃ Judasar Jdran.
Ton, Konung David sem kiende.

†

JUdas i Syrndar Grade, Af Sydingunum fyrst, Priaatijge Peninga hade, Hvi sveik hañ HErrañ Christ, Lioost þegar lijta vañ, DRotteñ var nu til Dauda, Dæmdur og þwngra Nauda, Jdradest epter hañ.

2. Greidt i Mustered geingur, Greiner so Nitning fra, um̃ Sylfred synte ei leingur, Señ vill þad Prestum fa, Sagde med sarum Mood, O! hvad eg giorde illa, Pa yfer mig kom sw Villa, Ad sveik eg Saklaust Blood.

3. Lidsemd Prestarner løgdu, Litla sem Von var ad, Hardlynder honum søgdu, Hvad eigum vier med þad? Pu maatt Eiñ sia um̃ þig, Sylfreuu a Goolfed Grijtte, Gieck þadañ miog sier flijtte, Og heingde sialfañ sig.

4 Radstefnu Herrar hielldu, Hættu þar seinast vid, Fyrer Akur sialfer selldu, Sylfred Leyrkiera Smid, adur sagt um̃ þad var, J Spadooms Spanum̃ soñum, Sa var Vegferdarmoñum, Giefeñ til Greftrunar. †

5. Sia hier hvad illañ Enda, Otrygd og Svikeñ fa, Judasar Lijkar lenda, Leiks Brood ur sijnum hia, Andskoteñ Illsku flar, Eñ hefur Snoru snwna, Snoggalega þeim til bwna, sem



fara

fara med Fals og Daar.

6. Otrw sin eigen Herra, Aetijd um Hælsen sloo, Eingen fieck af þvi verra, En sa Meinlausum bioo, Forræde, Fals og Viel. Judas þvi Heinging hendte, Han Følkum til sijn bendte, Eins og Achitophel.

7. Fie-Gyrnden Judas sellde, Fyrst var hans Adteckt sw, Guds Son Gydingum sellde, Gleymde þvi Aeru og Trw, So til um sijder gieck, Kastade keyptum Aude, Pa kvalde Sorg og Daude, Huggun alls eingva fieck.

8. Under-Root allra Lasta, Agyrnden kølluð er, Froomleika fra sier kasta, Fiarploogs Men Agiarner, sem freklega elska Fied, Aude med Okre safna, Andlegre Blessan hafna, En setia Saal i Ved.

9. Ann ad hvert er i Vonum, Auduren fagur nu, Hafnar þier, Ellegar hønum, Hryggur burt kastar þu, Pa Dauden þreinger ad, Agyrnden Otæpt svelger, Af þvi Saalena velger, J kølldum Kvala Stad.

10. False og Fie-Gyrnd rængre, Forda þier Saal miin bliid, So mæter ei Ogn nie Angre, Pa ad fer Daudans Tijd, Vird lijtels Veralldar Ploog, Hver sa sier Lynda lætur Pad lienar ORotten mætur, Sa hefur alls Nægta noog.

11. Opt JEsus ædur hafde, Aminning Judas giort, Hreckviisen Hiartad vafde, Han hiellt þad Einskis vert, Nu kom þar sinen ad, Tilsogn hatade

ade hreina, Huggun sieck þvi ei neina, Varastu Vijte þad.

12. Eñ hvad framleidde hañ illa, adur Lijfernsed sitt, Þesse þo var hañs Villa, verre eñ allt añad hitt, Ad hañ Orvænting med, Saal og Lijf sette i Vanda, Synd a moot Heilogum Anda, helld eg hier hafe skied.

13. J DRottne ef villtu deyia, DRottne þa tifdu hier, Til Jlls laat ei þig teygia, Ord Guds sie kiærast þier, Sæll er saa so vid bijst, Eñ ef þig Ofall hender, Aptur i Tijma vender, Undañdrag Jdran sijst.

14. Brot þijn skallt bliwgur jata, Eñ bid þo Gud um Naad, Af Hiarta hryggur grata, Eñ heilnæm þiggia Raad, Umfram allt þeinktu þo, Son Guds bar þijnar Synder, Og so þu Myskun finder, Saklaus fyrer sekañ doo.

15. DRotteñ laat mig ei dyliast, Diarflega Synder vid, Þo hier um Stund mege hyliast, HErra trwr þess eg bid, Nær Heime fer eg fra, Orvænting ei mier grande, Ord þitt og Sañleiks Ande, Hiarta mitt hugge þa.

## 17. Psalmur.

### Um̃ Leyr-Pottarans Akur.

Ton, Fader a Himna Hæd.

✝

SO sem fyrr sagt er fra, Sylfur-Peninga þa, Hverier Loks Judas hrelldu, Hofud Prestarner

11. I Pridia Lage þad er eñ, þier Saal mijn athugande, hverier þeir Reysu mundu Meñ, sem mæddust hier Vegfarande. † Læresveina vors Lausnara, Lioos Guds Ord bauda auglijsa, halldna i Harma Stande. †

12. Ef þu villt Madur ad þu bert, Odlest JEsum ad fiña, Læresveiñ hañs med Sañe siert, sijst læt þig Heimeñ giña, blessad Ord hañs med blijdre Lund, breid wt og medkieñ alla Stund, Bodum hañs best skallt fiña.

13. Hañ umfram allt þu heidra ætt, hañ er Gud þiñ Lausnare, Kross hañs Ovirda alldrei mætt, eñ þo hañ leinge vare. O! JEsu læt þu alltijd mig, Elska, Prijsa og dijrka þig, hier æ medañ eg hiare, Amen.

## 17. Psalmur.

### Umm þad, hverneñ Christur kom æ Veigenum til þeirra Tveggia Emaus Reysu-Maña, og i hverre Lijking hañ byrtest þeim.

Ton, Ef Gud er oss ei sioalfur hiaa.

GUDspiolleñ seigia, HErrañ hijr, hafe sem Vegfarande, Komed og nalægst Kraptadijr, Kiæra Sveina reysande. † Þeim þar samlaga sig nam hañ, so sem hiñ Pridie Ferda-Mañ, Þeirra so hverre Vande.

† 2. Jafnframt þeim baadum JEsus gieck, JEsum samt þecktu eige, fyrer Sioon þeirra Hulda hieck,

eck, hun var a þessum Veige, halldeñ, so þeir ei hugdu hier, HErrañ være i For med sier, so fra eg Ritning seige. †

3. Sia hier og skoda Saal mijn kiær, Siñe þijns JEsu blijda: Gudhræddum er hañ alltijd nær, Eins þa vid Freisting strijda: Veiktrwada hañ vidrietter: Vanfærum Styrk og Huggun lier, Ei þarftu þvi ad kvijda.

4. Hvar sem ad eru einer Tveir, eda Þrijr kom̃er samañ, J HErrans Nafne, Þar hafa þeir, hia sier JEsum Raad-tamañ, Þeirra a mille midt hañ er, ma þeim so eckert granda hier, þa hañ er fyrer framañ.

5. Fra Hiørd DRottens hier hofdu Tveir, HErrans Sauder burt flæd, a Villu-Stig hættum voru þeir, var þvi Saalar Tioon bwed, Ef uppleitad þa ei hefde hañ, Sem Hyrder er beste Gud og Mañ, og þeim villtum vidsnæd.

6. O JEsu! JEsu, opt hef eg, J burt fra Hiørdu þiñe, villst a Glotunar vondañ Veg, Velferd nær tapad miñe: Eñ þu hefur mig uppleitad, Ædste Hyrder, og samlagad, Saudum þijnum hvert Siñe.

7. Ei byrtest DRotteñ øllum Lyd, Þa upp var risen fra Daudum: Sveinar hañs og so Frændeñ frijd, sem fylltust af Sorg og Naudum, seingu hañ sia, eñ adrer ei, eingeñ kañ þar vid seigia Nei: Sijnum hañ biargar Saudum.

8. Læresveinar med lijfre Lund, Lof DRott-

ens Tve'r viðfrægia ; Þegar þeir JEsu seingu Fund, fra hvers Naalægð ried bægia, Kieñemoñum og Heiðnum Her, Hrecker, Vondska og Lastaner, Er allðrei lietu sig lægia.

9. Ef þu villt Barn mitt, edlast hier, ad JEsus þiñ Frelsare, Sie æ i Fylgd og För með þier, og Foðurlega bevare, með heilögu Tale hañ ævallt, J Hiarta þitt iñ þu locka skallt, Vist hañs so hiaa þier vare.

10. Owfurnar hrædast Hrafna-Maal, Hlioð Ulssins Lombeñ flija, Gier þier ei siaalfum Svik og Taal. Synder með Orðum driigia, Muñ Gofnuð vondañ varast skallt, vit, hañ burt styggjer Guð ævallt, so færðu ei Fylgð hañs nya.

11. Eg blygðast við að athuga, Uppfoostur sumra Maña, a Börnum þeirra, sem herlega, byrtest og Raun vill saña, fyrr eñ þau kuña Faðer Vor, Forelldra vondra rekia Spor, Sveria, Bölva og Baña.

12. Bið eg þess giæteð goðer Meñ, Guð mun af yður krefia, Barnaña yðar Saalna señ, Er Satan fieck Snorum vesia, Leideð þau ung til Lastarans, með liwfum Aga og Kieñing hañs: Hyggeð ei hier við tefia.

13. Eñ framar stadu Saal mijn hier, Sorgande Læresveina, Til Emaus sem ætla sier, að fara Reysu beina, J añarlegre Asynd þaa, Eilijfur Guðs Son liet sig sia: Giet eg so Ritning greina.

14. Eg veit Guðhræddum ertu hia, O! miñ JEsu

JEsu Blessade: Hvar hellst sem ad þu hitter þar, Hormung trwe eg ei skade, eñ stundum þeir ei þeck-ia glogt, þijna Asynd so fliott og snogt, Eins sem i Villu vade.

15. J Lijking Prefalldre lijt eg þig, Lausnare miñ hiñ blijde, Koma til vor og syna sig. J Sorg-um vorum og Strijde, Asynd þijn JEsu Andleg er, J Orde og Sacramentum hier, Leyndardooms full hiaa Lyde.

16. Ecke fæ eg þa Asynd þijn, aa añañ Haatt ad skoda, eñ med Trwar Augunum mijn, allañ so fyrrest Boda, sem Añarlegañ sie eg þig, so þijna Lijking ber fyrer mig, þa Kross þiñ þu kiemur ad boda.

17. J Krossburdenum Kiærleiks þiñ, kañ eg ei glogt ad lijta, Vanmaattur sterkur vijst er miñ, þa verd eg i Eymdum sijta, Hugskots Sioon mijn er halldeñ þa, sem hygge eg þig eiñ Framande siaa, Er Huggun ei vill bijta.

18. J eigeñlegre Asynd þo, eg fæ þig lijka sien-añ, HErrañ miñ kiær, þa Harma Froo, Helg. Naad þijn og Forþienan, Lijkamans Blessan læt-ur hier, og Lijkn þa Andlegu veitast mier, þa giesst aa Raunum Rienan.

19. J hverre hellst Asynd HErra miñ, hier vill-tu mier þig syna, Hiartanlega i sierhvert Siñ, Saal mijn kijs Naalægd þijna, Einmana eg þa ecke er, Einglana veit eg fylgia þier, Allt gledur þad Ond mijna.

20. Kom til mijn JEsu, Kom til mijn, Kom ei sem eiñ Framande: Eg bid, Naalægdar alldrei þijn, Aumur verde eg saknande: HErra miñ kom og hiaalpa mier, Hiaalpræde þitt mig burt leider, hiedañ wr Harma Lande.

21. Eigeñlega þa Asynd þijn, eg fæ gladur ad skoda, horfeñ fraa allre Hrygd og Pijn, hverskyns Eymdum og Voda, Soolu fegre þar sie eg þig, Sool Riettlætesins, hvar ed mig, Eilijf Dijrd æ mun stoda, Amen.

## 18. Psalmur.

## Uṁ Samtal Christi vid Læresveinana aa Vegenum.

Ton, Giæsku Guds vier prijsum.

†

LAusnarans Læresveinar, Litu Tveir Frelsarañ, Hverugur hañ þo meinar, Helldur Vegferdar-Mañ, Hvern þeir sig hugdu sia, Augunum Harm-ar hielldu, Hiortuñ i Efa felldu, HErrañ ei þeck-tu þa. †

2. Grædareñ giefur ecke, Good Naad til Læk-ninga, Utañ hañ aadur þecke, Ordsok Sivkdoom-aña. † HErrañs eins hrellda spyr, Sveina, hvad Samtal hallde, Sem þeirra Hrygdum vallde. † Vijst sem þad visse ei fyr.

† 3 Cleophas klogt med Siñe, Christi Spurn svarade, J Jerusalem iñe, Ertu svo Framande, Greñslast þu þurfer ad, Þvi er aa þessum Dog-

um,

um, Þar hefur giorst? Sem klogum, HErrañ spyr, Hvad er þad? †

4. HErrañ hefur þad Siñe, Hormung þa strijder aa, Vill hañ ad allir iñe, Astseme hañs þar fraa, Med Bæn og bliwgre Lund, Eymder sijnar auglyse, Og honum þær framvijse, A hverre Harma-Stund.

5. Allt veitstu Ædste HErra, Allt aa Himne og Jord, Allar Ord-Ræður hverra, Alla Hugsan og Giord, Eñ þo spurder þu ad, Hvad þijna Sveina hrellde, Hvad þa i Sorger fellde? Allt þo þeckter þu þad.

6. O JESU! Elskañ blijda, Angur mitt best þu sier, Eñ þo hvad eg maa lijda, Audmiwkur byrte eg þier, Og Hiartad Hormum þiaad, Opna eg Eisku þiñe, Aumstaddur morgu Siñe, Þa hlotnast Huggun braad.

† 7. Cleophas eñ þa iñer, um JEsum tolum vier, Oss til hañs alltijd miñer, aadur var med oss hier, Spaadooms Frægd hafde hañ, Maattugur eins i Ordum, Og i Verkaña Giordum, Hiaa Gude, Og hvern vid Mañ.

8. Hañ vorer Hofud-Prestar, Hier med Lands Foringiar, Keyrdu i Kvaler verstar, Krossfestur so hañ var, Vier meintum munde hañ strax, Israels Rijke rietta, Reiknast nu umfram þetta, Þesse Tijd Þridia Dags. †

9. Lærdoom Lausnarañs Þioonar, Lijte hier aller best, Ad Trygd þeirra Umsioonar, Ei hafe nock-

nockurn Breſt: J Orde og Verkum eins, Mætt-
uger eiga ad vera, Eckert moot Kieñing giera, Jlls
alldrei orka neins.

10. Þeir ſem ad þijda giera, Þæg Ord Guds
Lærdooma, Eñ lata ecke vera, Jdkaner Verkaña,
Samþliooda Kieñing ſijn, Ein Hønd hvad upp
næm bæta, Oñur brytur, So giæta, Þeir ei ad
þwngre Pijn.

11. Miñ JEſu Synder mijnar, med Selſkap
Gydinga, Þig ſeldu i Kvaler þijnar, Þig giørdu
Kroſsfeſta, Þær voru Sok þar til, DRotteñ ad
þu varſt Deyddur, Og Dyrdar Vegſemd ſneydd-
ur, Eg þeſs nu ydraſt vil.

12. Eñ þijn Pijſl Endurleyſte, Alla Þiood
Veralldar, Af Hiarta eg því treyſte, Ei gieta
Syndernar, Hamlad nu HErra kiær, Ad eg Jñ-
gongu næe, J Rijke þitt, og faae, Dyrd med þier
DRotteñ ſkiær.

13. O! hvad ſæll eg þa ſaña, Ad þu frelſader
mig, Lijfs a lifande Maña, Lande, nær ſie eg þig,
Og hædſtu H:fd med þier, Lætur mig HErra hli-
oota, Og heñar uñ Eilijfd niioota. O! Gud þeſs
untu mier.

† 14 Næſt þeſſu naadu oſs hræda, nockrar, Cleo-
phas tier, Kviñur, Er allt ſo ræda, Eins og nu ſeg-
ium vier, Ad þær Aar-Deges ſnart, Hia Groſ-
eñe Graatnar ſtundu, Guds Helga Eingla fundu,
Vid hañ þo vard ei vart.

15. Og nockrer af oſs geingu, wt ad hañs
Grafar-

Grafar-Stad, Hañ ecke hitta feingu, Hverneñ sem grenslast ad, Eñ allt Sorgfuller siaa, Læresvei-narner lvwser, Lijkt med oss Siñes-hriwser, Sem Kviñur sogdu fraa. †

16. O! þu Cleophas kiære, Kviñurnar skielfdu þig, Goodañ þo Bodskap bære, Best sem ad gled-ur mig, Ad Christur upp ried staa, Einglar þañ Sañleik sogdu, So og fyrer þær logdu, ad greina glogt þar fraa.

17. Sama Postular prwder, Petur og Jo-hañ siaa, So sem þær Sviñu Brwder, samt var-stu Cleopha, Lijka Lags-Madur þiñ, Vantrwad-ur, sem være, Vijst eige DRotteñ kiære, af Dau-da uppriseñ.

18. Auk þessa aadur iñte, Endurlausnareñ klaar, Hañs þegar Hiervist liñte, Og Holld sitt yr-de Naar, Pa samt aa Pridia Dag, Fraa Dauð-um vijst hañ villde, Varna þess eingeñ skyllde, Rij-sa, med Hefdar-Hag.

19. Af þessu eingu trwdu, Aumer Læresveinar, Hugskoted Harmar lwdu, Hiartad Angisteñ skar, Glede-Fregn siñtu sijst. Saal miin þa Kross þig þiaer, Þott nockra Huggun faer, Hun opt til Hrygdar snijst.

20. Veik Trwa velkest Tijdum, Vijst sem i Olldu-Sioo, Skip fyrer Storme strijdum, steip-est ei alltijd þo, Þvi DRotteñ leggur Lid, Hañ ei Reir broteñ brijtur, Breiskur hañs Hiaalpar nyt-ur, Þegar hellst þarf hañ vid.

21. Eg trwe Ordum þijnum, O! JEsu, gled þu mig, Og vorkieñ Veikleik mijnum, Vil eg fws treysta a þig, Midt i Mañraunum mijn, Sorgernar þo mig þiae, Og þær sialldãn afbræe, Vatn þad snijst señ i Vijn, Amen.

## 19. Psalmur.

### Um̃ Predikun Christi, fyrer Lære-Sveinunum a Veigenum.

Ton, Naatturañ oll og Edle Mañs.

†

NOur er greint: Ad giordu Tveir, Gudhrædder Læresveinar, Herma JEsu hvad harma þeir. † Hver þa med odrum kveinar: Peir trwdu sijst, þvi sem var lijst, Pad Christur riseñ være, Daudanum fra, Grætner þvi ga, gladiast vijst þo þeim bære.

2. Pa Cleophas med sagdañ Sañ, Særeñ beggia opnade, JEsus sem liwfur Læknes-Mañ, leingur so þau ei skade, J Undernar, Jñhellte snar, allra fyrst beisku Vijne, og straffa ried, Avijtan med, Ord hañs fra eg þad sijne.

† 3. O þier Heimsker! Kvad HErrañ hier, J Hiarta Treger lijka, Ollu ad trwa, er Ord Guds tier. (Athugum Rædu slijka,) Og þeim sijdañ, seigia ried hañ: So hlaut Christur ad lijda, Og i Dijrd sijn, Endadre Pijn, Jñga med Vegsemd frijda. †

4. Heimskañ vijst kalla hvern hañ ma, sem hafn-

hafnar Gott ad stunda, og Trwnad fester ecke aa, Ord Guds nie vill þau grunda, Eñ Hollds Skynsemd, helldur med Fremd, Hættulaust fylgia bære, Uñ biartañ Dag, med Bernsku Lag, Blys sem hañ tendra fære.

5. Heimskur forsmaaer Hyggendeñ, Heimskur er Vantrwadur, sem Ordum Guds ei siñer señ, so hañ þeim treyste gladur, Orvænting i, opt fellur þvi, ecke vill DRottne trwa, og sier til hañs, Fører útañ Stans, af Hiarta gladur snwa.

6. Oll þijn Ord eru Ande og Lijf, O! JEsu miñ Frelsare, Ædsta Huggun og ædsta Hlijf, Ædst Traust, þo Sorgeñ vare, Eñ samt med þeim, Hreckviisañ Heim, hentar marg-opt ad vijta, Þienurum þijn, fraa þwngre Þijn, Þeir so hañ kuñe slijta.

7. Laat þier þvi syndug Saala miin, sijst þad forþocknast kuña, Guds Þiooni þo straffe Glæpe þijn, gior honum helldur uña, seln leider þig, aa Lijfsins Stig, Logmaals Ord þo hañ ræde, og Astar-fws, Eins sem JEsus, Under hreinsadar græde.

8. HErrañ þa vijtad hafde hardt, hier sijna Lærsveina, Aptur þaa hrellda huggar snart, † Hañ naade þañeñ greina: Hlaut Christur ei, hver kveður Nei? Hier lijda Þiinu stranga, Og þar epter, sem aadur tier, Jñ i Dijrd sijna gaanga †

9. Þu hlautst miñ Hiartans HErra kiær, hier lijda Þijsl og Dauda, Syndlaus, Heilagur, Hreiñ og skiær, Hverskins fañstu tii Nauda, so frelster Mañ,

Mañ, Fortapadañ, Faderen slijkt afriede, aadur
eñ vier, vorum skaper, af Willo þiñe þad skiede.

10. Miñ JEsu eingeñ þreyngde þier, þwngar
Kvaler ad lijda, Nema þijn Ast sem eilijf er, Og
Mañkyns Topun strijda, Viliugur þvi, Pig gaf-
stu i, Piauning og stærstu Pijnu, Asteñ þijn best,
Eymdeñ mijn vest, olle Kvalræde þijnu.

11. Mijn Saal, þess giættu sierhvert Siñ, so
og þad vel Hugfestu, Viliugur leid Lausnare þiñ,
Læging og Pijsler vestu, fyrer Synd þijn: Pessa
hañs Pijn, þier læt Uppvakning giera, Ad villug
þu, þiooner med Trw, þessum Lifwfasta HErra.

12. Medtak og viliug Christi Kross, Kross-þi-
aad ef skalltu vera, Pvi þad er eilijf Æra oss, Ept-
er JEsu hañ bera, So lijkiunst vier, J Heime hi-
er, Hrygdar Mynd vors Frelsara, Dijrdar-
Mynd hañs, Sijdar til Sañs, so mun og aa oss
vara.

13. Pessra Tijma Mootlæting mest, mier gier-
er Dijrd eilijfa: Pessa Tijd vil eg bera best, Bol
mitt og ei moot kijsa. Kom JEsu miñ, med Kross-
eñ þiñ, Koronu mun mier giefa, Pijn Naadeñ
blijd, þa þrijtur Strijd: Petta skal eg sijst efa.

† 14. Ritningar allar iña ried, aangrudum Lære-
Sveinum, HErrañ vor JEsus hijrt med Gied,
af hellstu Spaadooms Greinum: Pær sem um hñ,
hermdu med Sañ, Helgañ Mösen fyrst tigade,
Eiñeñ Spaameñ, alla i Señ, Utleggia best hañ
naade. †

15. Pig minn JEsu eg helst best, þijns Ords af Naadar Rædu, Hvar vid Saal mijn sig huggar mest, J hvers kins Sorg og Mædu: O! Sarons Bloom, Ordenn þijn froom, Alldengard þann eg sesge, Er gledur mig, þar finn eg þig, Pad giefst mier vijdar eige.

16. Sem eitt Gull Epleer JEsus, J Sylfur-Skaal Ritninga, Pad Huoss minn Ande elskar fws, Eins nær mig Sorger þvijnga: Lattu Ord þijn, Ond gledia mijn, O! minn Lausnarenn froome, J Lijfe og Deyd, J hvers kins Neyd, Einkum at Sijdsta Doome, Amen.

## 20. Psalmur.

### Af Bæn Lærisveinanna, ad Christur være hiaa þeim.

Ton, Nu hefst Nootten og hylur Dag.

†

LÆrisveinarner, Lausnarenn med, Loksins nat-lægiast Kauptuned, Pa var Dagurenn þrotenn nær. † Par af Saalenn mijn Huggun fær.

2. Loksens Pilagrijms Gaangur minn, Giører ad þrioota Eitthvert Sinn, Mijn Lymda Reysa Ending fær, umm siider hiaa þier DRottenn kiær.

3. J Emaus Himnesst eg kiemst þa, Eckert kann mig þar leingur þiaa, Eingenn Diøfull mig astrijda, J þvi Heimkynne Blessada.

4. Einger Fiandmenn þar angra mig, Eilijf Dyrd giefst mier fyrer þig, Frelsare minn og Hugar

Hægd, Himnesk Sæla med allskyns Nægd.

† 5. JEsus liet sem hañ lyste hier, Leingra gaanga, eñ Sveinarner, Pa Kauptwnenu komu ad. † Christeñ Madur Hugleidtu þad.

6. JEsus optlega syner sig, Sem hañ vilie forlaata þig, Krosseñ þegar þig þiaaer mest, Pijna Trw so hañ reyne best.

7. O! hvad marger Guds Astvine, aatt hafa slijkt ad reyna hier, Sem hafe Gud þeim horfed fraa, Og hyrdte ei framar neitt um̃ þaa.

8. Freisting slijk ef ad þiakar þier, Þu Christeñ Saala, Giættu hier, Hvad til Urræda hellst þu fær, Af HErrans Sveinum þetta lær.

† 9. Þeir neyddu frijdañ Frelsarañ, Fraa sier ei vijkia giorde hañ, A Dageñ lijdur meir og meir, Miog tekur Kvollda sogdu þeir. †

10. J Bænum vorum vijst med Sañ, Vier kuñum neyda Lausnarañ, Hañ so oss ecke hverfe fraa, Hier uppaa Dæmeñ fiña maa.

11. Soddañ Naudung af Syndugum, Sem skier i þeirra Bænunum, Er DRottne kiær aa allañ Sañ, Alldrei vid hana styggest hañ.

12. Alldrei misslijkar Astsemd þijn, O! miñ JEsu, þo Bæneñ mijn, neyde þig Hiartañs HErra kiær, Hiaa mier vera, og gaanga ei fiær.

13. Vijk ei burt JEsu miñ fraa mier, mig laattu faa ad hallda þier, Hyl þig ecke i Hiormum mijn, Hiaalpar so alldrei sakne eg þijn.

14. Eingeñ Tunga wtskijra kañ, Allra sijst jeg

Eiñ

Eiñ faavijs Mañ, Hvad stoora Naudsyn hofum vier, HErrañ bidia; Vert med ofs hier.

15. Af þvi nu Kvolldar æred mieg, J Heimenum a margañ Veg, J hverre Stiett þad syner sig, Soddañ maa Tijdum angra mig.

16. Andleger velltast Villu i, Vijst kañ eingeñ ad neita þvi, Og þo ad Ritning rædd sie hrein, Raung Verk giora þo stoorum Mein.

17. Kieñemeñ blindar Bokforg vest, Bolvud Agyrnd er þar vid fest, og Hræsnes Tal fyrer Hofd ingium, Hvar med er tortijnt Saalunum.

18. Streffunarleyse um Synda Sid, Soddañ Løstu opt festest vid, Hoogværd a þad ad heita blijd, Heimsens a Sijdstu Rockurs Tijd.

19. Giæt þijns Embættes Guds Ords Pioon, Gior alldrei neinum Saalar Tioon, Lærdoomur sie og Lijferne, sem Lioos tendrad i Kvolld-Rockre.

20 Hiaa Veralldlegum vænte eg med, Vera adsijged Kvolld-Rockred: Ef þu Madur villt ad þvi gaa, Eg verd þar lijted miñast a.

21. Heimsker og marger Haalf-blinder J Helga Valldstiett iñtroda sier, Daarar sitia i Doomunum, Dragast þvi Log a Eyrunum.

22. Mwiur og Gialld þo Maallaust sie, morgum snere fraa Riettvijse, Oriett leid eyi saa Aumie þvi, Eñ hiner Rijku geingu frii.

23 Athuged slijkt good Yfervolld, Æfeñar fyrr eñ lijdur Kvolld, Stunded, Guds Otta geyma best, Good Riettvijse so ridhalldest.

24. Hiwſkapar Stietteñ eiñeñ er, J hverre Kvølldа virdeſt mier, Egta-Hionaña Elſkañ bliјd, Opt vill koolna um̃ þeſſa Tijd.

25. Borneñ aan Aga uppalaſt, Jllra Forelldra nema Laſt, Lete, Piaofnad og þeſs Hattar, Pad ſo ſem ecke ſkade par.

26. Af Hiwnunum maa Svikeñ ſiaa, Sorglegt er ſlijku greina fraa, Ohlydne ſtoora, Ulſbwd med, Jllſkupar mørg og Drambſamt Sied.

27. A Kvølldeñ Sorleñ under gaar, O! þu Riettlætes Sooleñ klaar, Lys Heimenum i hverre Stiett, Hañ ſo ſtunde ad giøra Riett.

28. Kvølld þiñar Æfe kiemur hier, Chriſteñ Madur þeſs vænta ber, A Kvøllde hveriu, og hverja Tijd, Hygg þar ad jafnañ Saal mijn bliјd.

29. Kvølld mijns Lijfs hlijtur koma viјſt, Kañ þad fiærre ad vera ſijſt, J Dag mier Lijfſens auded er, A Morgun kañ ſkie, Eg deya ſer.

30. O! JEſu, JEſu, Jeg bid þig, JEſu forſlattu alldrei mig, J Lijfe og Dauda Ondu mijn, Obrygdul hugge Naalægd þijn, Amen.

## 21. Pſalmur.

### Um̃ þad, hverneñ Læreſveinarner þecktu Chriſtum i Gieſta-Herbergenu, og ſneru aptur til Jeruſalem.

Ton, JEſu Chriſte þig kalla eg aa.

†

LÆreſveinar, ſem aadur er, um̃gieted, HErrañ bаadu, hiaa ſier vera, þvi Hwm ad ſer, hver med

odrum

ødrum so tiadu: Og JEsus liet þad epter heim, J þeirra Bænum neyddur, og biijdast beiddur, Til Kauptwnsins so komu heim, Kostur var þar tilreiddur. †

2. Ovinande a allan Sañ, Er DRotteñ vor Frelsare, Syndugs Mañs Bæn þo sigrar hañ, so trwe eg laungum fare. Gull-Vidiur Heidner giørdu sier, God sijn hia sier ad binda, med Bernsku blinda, Almaatt DRotteñs i Heime hier, hygg þier ei so imynda.

3. J MySkunar Ydrum er eg þijn, Jnlæstur JEsu goode, Alldrei slepper þu Ondu mijn, J nockrum Sorgar Moode, Ast þijn forlætur alldrei mig, Eg þa giøre þig bidia, mig styrkia og stidia, Hia mier Bæn og Trw bindur þig, betur eñ sterk Gull-Vidia.

† 4. JEsus gieck iñ i opnad Hws, og vid Bord setteft nidur, Braudeð took og þad blessar fws, braut eins og hañs var Sidur, Læresveinum þad liet i Tie, Líwsfur med Kiærleiks Dadum, Pví bijtte badum, Hañ i þvi Auguñ opnade, a sijnum Pioonum tiadum. †

5. JEsus blessade Braudeð hier, braut þad so Læresveinum: Athuga þetta øllum ber, J Bordhallds riettum Greinum: Almeñ Maaltijd þo þetta var, Pad so Ritningeñ hreina, giorer øss greina, um Sacramentum ecke par, er hier talad, eg meina.

6. Allt þitt Upphellde þiggur þu, Þess giættu

Saal mijn kiæra, Af þijns Skapara Ast og Trw, Alla hañ giorer næra. Gleip ei sem Hundur giefed Braud, gior þijna Fædu blessa, Sem Holld skal hressa, Mettadur þa þu misser Naud, Miñstu Naad priisa þessa.

7. Alldineñ Svijneñ svelgia brædt, sem af Eikunum detta, Eñ uppa Trien ei eingañ Hætt, Auguñ giora ad rietta, Sa Ohackleate eineñ er, allt eins vid Gud Siñadur, Po þigge gladur, Saafur hañs, þijda Pock ei tier, Pad varast Christeñ Madur.

8. Maaltijd Sveinaña HErrañ hier, byrdte ei uñ ad þiaggia, Biood honum samt til Bords med þier, best skallt ad slijku hyggia, Pegar þu sedur svæangañ Mañ, Sem er hañs Limur riettur, J Sorger settur, sialfañ fæder þu Frelsarañ, Fær Laun þa hañ er mettur.

9. Pegar ad JEsus Brauded braut, brædlega opnast nædu, Sveinaña Augu, Angred þraut, einger Harmar meir þiadu, þeirra Hiortu, fyrst þecktu hañ, þa snerest Sorg i Glede, So ræda riede, fyr vid þær goodur Gud og Mañ, Glogt nu allt þetta skiede.

10. Adams og Evu Auguñ fyrst, J Synd þa falleñ voru, opnudust, so þau sæu tvist, sijna Blygdan mieg stooru, Klædleyse sitt og Lijteñ lioot, litu med Angist strijda, J Kvol og Kvijda: Einga sier hugdu Harma Boot, Horfeñ var Guds Mynd frijda.

11.

11. J Emaus urdu allra fyrst, Augu Læresveinana, Opnud, so ad þeir þecktu Christ, Þar med fagnande sana, ad nu uppriseñ hefde hañ, Heilagt Riettætes Klæde, og Blessan bæde, Afrekad, so ad aumur Mañ, Andlega ei nakeñ stæde.

† 12. Frá Sveina Augum HErrañ hvar, hvarf nær hañ þeckia riedu, Uñ þad þeir ræda Ordeñ klár, og sijn á millum tiedu: Brañ ecke ockar Hiarta heitt, Hañ þa Ritning wtlagde, og Sañleik sagde, Skriftena so vid skildum greidt, skijrt ad þvi sama Bragde. †

13. Eins sem af Gude Ord hañs er, Eins verkar þad Gudlega, sw Leidar Stiarna lyser hier, sem Lioos uñ diña Vega, af þessum Ellde uppkveikest, Js-kallt Mañaña Siñe, med Jl þar iñe, Pær Andans Glædur allra best, Andlegt byrta Heim-Kyñe.

14. Mitt Hiarta DRotteñ miøg ec kallt, Myrkur er þar ad fiña, Synda og Sorga, Sem allvallt, Sioon glepia Augna miña, Verme þad Hiartans HErra miñ, Heitur þijns Anda Blosse, Po Taar fram fosse: Latt þitt Ord mier til Lijffins iñ, lysa wr ollum Krosse

† 15. J Emaus Stove Einga Bid, Upplyster Sveinar hafa, JEsus þegar ad þa skilst vid, Peir giora strax aan Tafa, Til Jerusalem gaanga greidt, Guds Sonar Læresveina, Ad hitta hreina, þeirre Glede sem var þeim veitt, villdu þa ecke leina.

16. J Jerusalem iñkomner, Ellefu Læresveina,

Fundu bradt, Sem ad hermer hier, Hverier þa ødrum greina, Upprisu JEsu allañ Sañ, Og þad Petre byrtst hafde, Hvern Hrygdeñ vafde, Hiner segia, Peir þecktu hañ, Þegar vid Borded tafde. †

17. Lioosed þegar þad uppkveikt er, A Borded setiast skyllde, So ad þess Lioome lyse gior, Lyd þeim sem Hwsed fyllde: Upplystur Madur, upplys hañ, Upplysast Þorf sem hefur, Og Villañ vefur, Huggadur hugge hvern Aññañ, Hord sem ad Angist kiefur.

18. Ein Lijfleg Roos mä riett kallast, Riett-Christeñ sierhver Madur, Sem Ilmande Bloom hañ wtmälast, Adra ad gledia hradur, Hvenær sem Gud mier Huggun tier, Hañ giefe mier þad Siñe, J Mædu miñe, Ad eg og hugge Hrygga hier: Hañs alldrei Dyrdeñ liñe, Amen.

## 22. Psalmur.

### Um Tijmañ, ä hverium JEsus kom til Læresveinaña, Þa hañ byrtest þeim Fyrst i Jerusalem.

Ton, Sæler eru þeim sialfur Gud.

†

LÆresveinar, Sem sagt er frä, Sied og þeckt JEsum hofdu, Og um þad tala aller þa, J Hwsenu sem tofdu, Þad var Kvølld sijd, Proteñ Maaltijd; þa af Hrædslu vid Juda, Var Dyrum læst. † HErrañs Dyrd hædst, Hradt styrkte Sveina twda.

3. Christ-

2. Christur JEsus at Kvollden sijd, Kom opt til aumra Mañа, þegar þa hrellde Hormung strijd, Hvad med oss Guds Ord saña, Adam ried hañ, uñ Kvolld-Tijmañ, Og Evu fyrst Hugsvala, J Paradys, Af hveriu rijs, Oll Heill og Booteñ Kvala.

3. Kviñuñar Sæde Sagde Hañ, Sundur Skal Briioota og Troda, Hoggormsens Haus, so hrelldur Mañ, Helvijtes firrest Voda: Pad var nu skied, Pvi lysa ried, Pægre at Kvollds-Stunduñe, JEsus med Sañ, Er Sælañ vañ, Sigur, i Uppristuñe.

4. O! þu Helvijtske Hoggormur, Haus þiñ er Sundurmareñ, Piñ Styrkur allur Aleyddur, Allur þiñ Kraptur fareñ: Af Hreyste þiju, Huggast Saal mijn, HErra miñ laus vid Trega, Sigureñ þiñ, So verdur miñ, Sæll JESUS Eilijflega.

5. Dwfañ wtsend af Orkeñe, uñ Kvolld ried þangad færa, Afbroted Blad af Oliu-Trie, J siinum Muñe skiæra, Noe þa sañ, Med fullañ Sañ, Flooded upp þorna næde, Fagnade med, Gladde sitt Gied, Guds af milldu Hiaalpræde.

6. Ad Kvollde JEsus Hiarta hijr, Hier nalgast Læresveina, Yfer hvern Helgur Ande dyr, Astsemdar Dwfañ hreina, Kom i Skijru hañs, Christur til Sañs, Kiærum nu Sveinum færde, Oliu-Blad frijdt, Pa fieck þeim bytt, Fridar-Giof sem þa nærde.

7. Ad Morgne og um̃ Middeiged, min̄ JEſus Hiarta blijdur, Sig liooſt Uppriſeñ ſijna ried, So ad Kvoǽlde Gied-hijdur, Um̃ allañ Dag, Med Aſtar Hag, wt Fadmeñ ſiñ hañ breider, Og hvern eiñ þañ, Sem hylleſt hañ, J Himna Dyrd iñ leider.

8. Mier ſiñſt opt ſem ad Saaleñ mijn, Sorgfull a morgun Dege, Fra Morgne til Kvoǽlds þa mæder Pijn, Miñ Gud, ſiñe þig eige, O! hvad þad Strijd, Eg ſem þa lijd, Ondena ſaart vill þvynga, Ad ſiaa ei þig, Hrygger helſt mig, J Hrelling Mootlætinga.

9. Ei maa þig Saal mijn undra neitt, um̃ Stund þo ORotteñ bijde, Ad hefta þijna Harma greidt, J hørdu Mootgangs Strijde, Hvad opt a þig, Hañs Mildelig, Hroopar Aſtſemeñ beſta, Bioodande þier, Betra þig hier, Braatt og þvi ecke freſta.

10. Eñ þu dvelur med Ydran þijn, Andæpter JEſu valla, Forgiefens maa hañs Mildeñ ſijn, Margſiñum til þijn kalla, Fra eiñe Tijd, Eilſkañ hañs blijd, Til Añarar giører ad bijda, Eñ þu þrioosfaſt, Med Þverwd faſt, Þijns Guds Raudar Rauſt hlyda.

11. Þvi hef eg forþient þad med Sañ, Þu miñ Frelſareñ goode, Ad laater þu mig auman̄ Mañ, J mijnu Taara Floode, Hroopa a þig, Ad hugga mig, Og Hiaalpena laater bijda, Allt til Kvoǽldſins, Añars og hiñs, Ei ſkal mijn Saal þo kvijda.

12.

12. Pu kiemur viist þa Kvølldar mieg, Kvøllds Stund þyn er hin besta, Mine Yferboot ei skal eg, Allt til Kvøllds leingur fresta, Komande þu, Kiemur med Trw, Kom JEsu! Gior ei tefia, þa Hrygd miin hier, Sem hordust er, Og Hiartad mest Sorger vefia.

13 Kvølld miins Liifs þegar komed er, Kom þu miñ JEsu bliide, Og Hugsvala þa Aumum mier, J hordu Daudans Striide, Hvert Kvølld til þiin, Hugar Saal miin, Hvert Kvølld eg bid og sege, Vertu hia mier, Miñ HErra hier, Heidur þiñ þverre alldrege, Amen.

## 23. Psalmur.

### Um þad, ad JEsus kom ad luktum Dyrum til Læresveinañа.

Ton, Ovinañleg Borg er vor Gud.

†

AD læstre Hurd kom Lausnareñ, Liwfur med Krapte hreinum, Og i Midед stood i þad Siñ, Øllum jafn-nærre Sveinum, Heilsade þeim HErr añ, hier næst so mæla vañ, fyrst sem hañ feingu sied: FRJDur Sie Ydur Med. † Miñst skulud mæta Meinum.

2. Eingeñ Hindrun þig hamla kañ, HErra miñ JEsu sæte, Pu leidst hier iñ i læstañ Rañ, Med Liikama þiins Agiæte, Eingeñ opnade Dyr, Eins giegnum Steineñ fyr, gieckstu, sem lukte Grof, glørde hañ þier einga Tof, þad trwe eg Bol mitt bæte.

3. Hier þiæt eg med þrongbært Holld, Pad blijtur Saaleñ færa, Aumur um̃ siider eg verd Molld, Ormar Kroppenum tæra, Eñ i Upprisu mijn, Ond og Lijf fagurt skijn, Eckert kañ ama þa, Eilijfum Gude hiaa, sæ eg Forklaarun skiæra.

4. Eg þegar velkest Eymdum i, Angre og marg-skins Pijnu, Allsaaer lijtã epter þvi, ei siña Bole mijnu, Sem Hiortuñ sieu læst, Samaumkan lijt-el fæst, Odruvijs HErrañ hijr, A Himnum þu sem bijr, Hæattad er Hiarta þijnu.

5. Læresveinarner læstu Hws, Læst vard þo DRotteñ eige, Hiarta þijnu, þu huggar sws, hv-ern þañ sem mæder Trege, Alldrei bregst Elskañ þijn, eñ huxar þu til mijn, Myskunar Dyrnar mi-er, munt þu ei læsa hier, aa Noottu nie aa Dege.

6. Eg kañast vid, ad opt er læst, aptur Hiarta-nu mijnu, aa þad þo klapper, ecke fæst, Opne eg þad Bode þijnu, Lwfe;Lausnare miñ, og leide eg þig þar iñ: Hwsum og Hiortum med, Hardlæsa margur vied, Pa Lazarus laa i Pijnu.

7. Eg bid mier stioorne Ande þiñ, O! miñ Frel-sareñ blijde, sem Nabal eg ei nockurt Siñ, neite þurfanda Lyde, Hiaa mier ad hijsa hañ, hvern eg sie Voladañ, Hiartad og Hendurnar, honum sie op-nadar, Boot so aa Naudum bijde.

8. Hier epter skal eg HErra miñ, Hiartad op-na Villd þiñe, Eñ hreckvijs Diofull og Heimur-eñ, hverigur sær þar iñe: Pu gafst mier Hiartad þitt, Pier gief eg lijka mitt, Lijfsins Dyr laat ei mi-

er,

er, læstar þa hiedañ fer, so naae eg Himna Heim-Kyñe.

9. Þa JEsum sau Sveinarner, sem falleñ lar hañ eige, Helldur stood, Hvad nu herma ber, og heilog Ritning seiger: Synd vor fyr fellde hañ, Frægastañ Gud og Mañ, J dicwp Angistar Kof, J Daudañ, loks i Grof, a dimmum Pijsla Deige.

10. Nu er hañ aptur uppstadeñ, Ond mijn huggast vid þetta, Eg þo ad kuñe eitthvert Siñ, under Kross-Byrde detta, Og (hvad optlega skier) J Synd eg falle hier, jeg glediast jafnañ maa, JEsus steudur mier hiaa, Hañ mun mig vijst vidrietta.

11. Diofull og Heimur hier þo mig, hafe Samtok ad fella, J Pijsla-Hwseñ eilijflig, Elldar hvar sijfellt vella, Ovine þessa eg, alldrei skal hrædast mieg, Sæll JEsus Sigureñ lier, sem ad stendur hiaa mier, Hvad kañ mig þvi ad hrella.

12. O! miñ JEsu mig angrar mest, Ad þig fellde eg i Pijnu, med Syndum er eg adhafdest, Æ moot Logmaale þijnu, Eg þessa ydrast nu, Eg vil i riettre Trw, Packa og þioona þier, Þu miñ Gud hier epter, Af heilu Hiarta mijnu.

13. Eg aumur gled mig alltijd vid, Endurlausnareñ kiære, Ad Diofull og hañs Illsku Lid, Allmaattur þiñ hiñ skiære, fellde og Footum trad, frægur stoodst epter þad, Sigre hroosande hier, Heidur og Lofed þier, Haudur og Himnar fære, Amen.

## 24. Psalmur.

### Uñ þad, ad JEsus Stadnæmdest i Mided hiaa sijnum Læresveinum. Ton,

Ton, Eins og sitt Barn.

†

HErrañ JEsus, ad huggaa sws, Harmahde Læresveina, Um̃ luktar Dyr, J Astum kyr, sem inter fyr, Jñkom Grædareñ Meina.

2. Og i Mided, med Elsku Sid, Ollum jafnnærre Sveinum, JEsus stood þa, Pad Gudsvioll tiaa, Peir gløgt hañ siaa. † J Pela Kiærleiks hreinum.

3. Hvar sem til þijn, Sier Saaleñ mijn, Sigurvegareñ blijde, Pu ert i Mid, Pitt styrker Lid, aa hveria Hlid, hverfur þa allur Kvijde.

4. Ef Himnum aa, eg vil þig siaa, Ædstu Naad kañtu veita, Mid Persoonañ, ertu med Sañ, ejñ Gud og Mañ, J Gudpoome haaleita.

5. Par ertu miñ, mier hvert eitt Siñ, Medalgaangareñ beste, J Guds Augsyn, Arnaneñ þijn, Sem alldrei dvijn, Afplaanar mijna Leste.

6. A Midre Noott, Pijn Fæding sliott, Fiaarhyrdum byrtast naade, Midnættis Brest, Pa bætter best, Sant Brot mijn vest, Og Bol er Hiartad þiaade.

7. Ungur i Mid, Med Sooma Sid, Sastu hiaa Meisturunum, Frædande þaa, Pad Guds Ord tiaa, Pijn Vitskañ haa, Pekrest med Forundrunum.

8. Eins ertu eñ, Astgiofareñ, J Kyrkiu Hwse þijnu, Og fræder hier, Pañ oss framber, Ord þijn, og ver, Eilijfre Vijtes Pijnu.

9. J Mid varstu, Millde JEsu, Millum Tveggia Reifara, Klædlaus med Spie, J Kvolene, A Krossens Trie, Keyrdur af vondum Skara.

10. Oll Brot mijn þa, Eins Stoor og Smaa, Endurlausnaren beste, Bætter þu frij: Frelsunen ny, Fieckst mier af þvi, Follnum i Synd og Leste.

11. Nu varstu hier, Sem Texten tler, Tvistra a mille Sveina, Eingum of-fiær, Eins hverium nær, Elskan þijn skiær, Ei kunne sier þar leyna.

12. Petur med Sann, Syndga meir vann, Enn sierhver af Postulunum, Pa þig af-soor, þijn Milld en stoor, Ad þessu ei foor, Pu stoodst eins nærre honum.

13. Eins ertu mier, Minn JEsus hier, Mest þo eg Syndgad hafe, Nalægur vijst, Nær sem eg snijst, Naad þijn wtbrytst, A þvi er eingenn Vafe.

14. Hvar sem mier nær, HErrann minn kiær, Hefur þu Nærvist þijna, Sie þad i Mid, A Hægre Hlid, Eda Vinstre v:d, vijkur fra giorvoll Pijna.

15. Vera kann Tijd, Pa Harma Hriid, Hvelfest yfer Saal mijna, Ei sie mier hiaa, Einn sem vill þa, Astseme tiaa, Eda Hiaalp nockra syna.

16. Samt ertu þa, Mier Hrelldum hiaa, HErra minn JEsu blijde, J Eymd og Pijn, Med Astsemd þijn, sem alldrei dvijn, allur so hverfur Kvijde.

17. Vertu i MJd, minn Gud eg bid, Mijnu i-kromdu Hiarta, Mid-Plaatzed þad, þier lwte ad, Par haf Bwstad, Pa skal unn neitt ei kvarta.

18. O! JEsu skiær, Unnusten kiær, Athvarf i

Hættum

Hættum Nauda, Lijfs Eiken̄ mijn, Lidsemden̄ bijn,
Sem liooſaſt ſkijn, Lijkna oſs midt i Dauda, Am̃.

## 25. Psalmur.

## Um̃ Fridar Bodan JEsu Christi, Fyrer Læreſveinunum.

Ton, Hver ſem ad reiſer hæga Bygd.

†

HErran̄ vor JEſus hugga tied, Harmande Læreſveina, (Eins ſem eg heſe ædur tied, Aſt han̄s ſier kun̄e ei leyna) FRJDur Med Ydur, ſagde han̄ ſie. † J ſoddan̄ Kiærleiks Avarpe, byrteſt Guds Giæſkan̄ hreina.

2. Hier Lioos i Myrkrum hafa kveikt, helld eg Liooſſens Skapara: Hrygdan̄a Myrkren̄ hoſdu veikt, Han̄s Sveina blindan̄ Skara, J myrkvum Stad, Um̃ myrka Noott, meintu þeir Oſſookn koma ſlioott: Vorn hoſdu ei til Vara.

3. A myrkre Nætt þeir ſlædu frar, Frelſara ſijnum blijda, J Sorga Myrkrum epterar, æptu med Harma ſtrijda, Frid Samvitſkun̄ar fundu ſiijſt, Fridar-Bod var þeim eckert lijſt, Peir ſæatu i ſærum Kvijda.

4. Vid Gud Oſættta viſſu ſig, Vond þad Samvitſkan̄ tiæde, En̄ JEſu Aſten̄ in̄elig, Ei þetta ſtraffa næde, Fridlauſum FRJD nu færer han̄, FRidar-Hoſdingen̄ Gud og Man̄, Peſs opt eg gladur gæde.

5. Himnesk og Jardnesk Farsælld fæst, Fyrer þig JEsu bliide, FRidar Bod þitt hier hlioomar hædst, Hvert snerter alla Lyde, Sturlud Samvitskan huggast hier, HErran FRiden oss kunngiorer, J særu Sorgar Striide.

6. Pa Sturlan frek og FRiduren, Fara i Hviilu eina, Peirra Hioona-Sæng sama Sinn, Sanna Glede sær reyna, JEsu Bloods-Aarnan blessar þaug, Blood JEsu er þeim heilnæm Laug: Blood JEsu Booten Meina.

7. Miin Saal vid vorum hallden hætt, Hofdum ei Frid nie Glede: Eingen Manna fieck Mein þad bætt, Misgiord Adams þvi riede, Fride oss alla fyrrte hann hier, FRidlauser Menn þa urdum vier, Hver var sem Lidsemd liede.

8. FRidarens Kongur Christur kiær, Kom til vor FRid ad boda, Af hans Fyllingu feingum vær, FRid, Naad og Lausn af Voda, Vid Fodur sinn oss FRidhægde, FRidar-Hofdingen blessade, Oss kann þad æ ad stoda.

9. FRidlaus vard Guds Son fyrer oss, J FRide so vier nædum; odlast FRidarens eiliift Hnoss, Med ollum FRidar-Glædum, FRid vid vorn Gud, Sem FRidnum ried, FRid Samvitskunnar lijka med, Hier og a Himna Hædum.

10. Ei kanntu Gud nu uppkveikia, Ellds-Loga Grimdar þinnar, Og mier ann FRidar fortæra, Fyrer Stærd Vondsku minnar: Med Bloode og Vatne Blossa þann, Barned þitt JEsus slockva

vañ, w: Sære Sijdu siñar.

11. Pu Christeñ Madur þeinktu a, Pad er viist Omissande: Ef þu villt sijdar FRiden fa, J FRidar eilijfu Stande, FRid þañ sem JEsus fær er hier, Fordastu mest ad brioota af þier, O Frid ur ei so grande.

12. Hallt FRid vid Gud, Med Helgum Sid, Og hreiñe Ydran Daglega, Og þiñ Sam-Christ eñ eineñ vid, Alldrei mun neiñ þad trega. Hverier sem FRideñ hata hier, Her-Meñ Andskotans vit dest mier, Glotunar gaanga Vega.

13. Med soñum Gude samde eg Frid, Vid Syndena skal eg strijda, Og vid Dioful, og allt hañs Lid, Alldrei þo neinu kvijda: Gief þu mier JEsu Frelse og FRid, J Fride laat mig hier skil iast vid, Og FRid eilijfañ bijda, Amen.

## 26. Psalmur.

### Um̃ þad, ad JEsus synde sijnum Læresvei um sijnar Hendur, Fætur og Sijdu.

Ton, Tunga mijn af Hiarta hlioode.

†

ÞEgar JEsus Frideñ færde, FRJDþurfande Svelnunum, Og þeim Kiærleiks Kvediu tærde, Kvijda baaru i Huganum, Otta hofdu, Hiartad vofdu, Hormungar i Sorgunum.

2. Þeir hielldu med hræddu Glede, Ad hefdu Anda nockurn sied: † Trwar-Veikeñ viist þvi riede, Vissu þo, hañ hafde tied, Ad hañ villde, Viist

og

og skynde, Vera þeim uppriseñ med.

3. Opt miñ JEsu, Otteñ stangar, Opt vill Trweñ veikiast mijn, Opt fæ eg med Grate ad ganga, Gledeñ þrijtur, Hrygd ei dvijn, Ondu tvista, Og Nad: þyrsta, Epter Huggun langar þijn.

4. Pu komst hier, Miñ HErrañ hijre, Hendur, Sijdu og Fæturnar, Sagder skylldu Sveinar skijrer, Sia og skoda Opnadar. Under þijnar, Under mijnar, Allra best fra læknadar.

5. Sara-Or þijn Guds Son goode, Sem giordu Pijslar Verkfæreñ, Synder þu nu svipt-ur Moode, J Sigre frægum Upprisen, Hendur, Fætur, Miñ Gud mætur, Mier giorer þu syna eiñ.

6. Pa horfe eg a Hendur mijnar, Hier med Fætur alsærdar, Samvitskuñar, Swt ei dvijnar, Sareñ Bañvæn lijt eg þar, Er Syndeñ gierde: Von er verde, Vondskañ mier til Hegningar.

7. Pa horfe eg a Hendur þijnar, Hier med Fætur JEsu kiær, Samvitskuñar Swteñ dvijn-ar, Sierhvert Or þitt læknad fær, A Saal miñe, J hvert Siñe, Oteliande Saar fra bær.

8. J Anda og Trwñe æ eg skoda, O! miñ JE-su Hendur þijn, Pær mier alltijd Blessan boda, Og besta Styrk þa Kraptur dvijn Pær mig stydia, þa skal Ydia, Pier til Dyrdar Hondeñ mijn.

9. Fætur þijnar lijt eg lijka, Lijffsens Braut mi-er vijsa þær, Ef þijn Hialpeñ Elsku rijka, Ei mig leider JEsu kiær, Munde eg ganga, Leid ofs-lan-

ga, Sem liggur Himnarijke fiær.

10. Opt syner þu Guds Son goode, Giorla þijnar Hendurnar, A Voludum er mæta Moode, og meiga ei afla Lijfs-Biargar, Eg vil syna, Aum-kan mijna, A þeim sem þu værer þar.

11. Hendur, Fætur mijnar mæda, Margra Handa Veikendeñ, Naadeñ þiña Guddoms Giæ-da, Giore styrkia Breyskleik miñ, Þijn Hond leide, Þess eg beide, Þiaadañ mig i Himeneñ.

12. Medañ mig i hættum Heime, HErra lætur dvelia hier, Hægre Hond þijn good mig geyme, Giøre hin Vinstre skijla mier. A Effsta Dege, Eg þa sege, ÆEdsta Lofed siaalfum þier, Amen.

## 27. Psalmur.

## Um Samtal JEsu vid Læresveinana, Og hverneñ hañ neytte Matar med þeim.

Ton, Fader vor sem aa Himnum ert.

†

ÞEgar HErrañ (sem hefe eg tied) Hendur, Fætur og Sijdu med, Syndt hafde hræddum Sveinum sijn, Swt þeirra mest og Hrygdeñ dvijn, Eingeñ þo trwa Efflaust kañ, Af Fognude þad koma vañ.

2. Þa sagde JEsus aptur eñ: Øll so burt takest Vantrw señ, Med Hoogvært Gied og Hugar Spekt, Hafed þier nockud Matarlegt? Af steykt-um Fiske Stycke þa, Strax logdu Sveinar Bord ed aa.

3. Hier

3. Hier med og lijka Hunangs-Seim, Hvad hañ took aßiaande heim, og at. † Po þess ei þyrfte hier, Þvi Forklaarader Lijkamer, þurfa ei nockrar Fædu ad faa, Fognudur Himna mettar þaa.

4. Sañarleg Nautn þo þetta var, Þvi huneitt Sañleiks Vitne bar, ad Christur være uppriseñ, Upprisu þesse Vottureñ, Sañur hlaut þvi ad vera vijst, var Guds Umſioon i þvi bevijst.

5. Natturleg ecke Nautn er þad, Natt-Verd DRottens þa setiunst ad, og HErrans etum Hollded hier, Hans Blood forklaarad dreckum vier: Sañarleg Nautn er þetta þo, Pad oss vor JEsus so tilbioo.

6. Af Nautn þessare æ eg fiñ, Upprisu Krapt þiñ JEsu miñ, J mier siaalfum, og i þeim Styrk, Eg feta þo ad Braut sie myrk, Uñ Eydemorku Eymdaña, allt til Himneskra Fiall-Bygda.

† 7. Læresveinarner Fædu faa, Frelsaranum (sem greint er fraa) Fisk og Hunaang med hreinum Sid, Hañ took Blessadur þessu vid. † Og med Nautn siñe vitna vañ, Være fraa Daudum riseñ hañ.

8. Eg hef miñ JEsus eckert hier, ad Dijrdlegum eg bioode þier: Fisk bakadañ vid Eymda-Elld, Eg i Krosse Þolgiæde helld, Þañ Kost framber eg fyrer þig, forsmaa ecke hañ, edur mig.

9. Hunaangs Seim lijteñ hefe eg til, Hañ og fyrer þig bera vil, Veik Trw fyrer hañ merkiast maa, mitt Traust set eg þar jafnañ aa, Braakadañ Reyr ei broted fær, Blessud Giædskañ þijn JEsu kiær.

† 10. Pa HErrañ JEsus hafde snædt, Hard-
lega fieck vid Sveina rædt: Vantrw og Hiartans
Hardwd hañ, hiaa þeim allra mest straffa vañ, ad
hefdu sem Trwar tæper Meñ, Treyst ei þeim sau
hañ upprisen. †

11. Vantrw og Hardwd veit eg Tvær, vestu
Systur, alþecktar nær, Veik Trw aa eckert vid
þær skylldt, Po verde opt af Breyskleik fyllt, ha-
na aalijtur HErrañ hijr, hana um̃fadmar Raad
Guds dijr.

† 12. Eñ sagde JEsus Sveinum sijn, siaa, þetta
eru Ord-ñ mijn, aadur sem giorde eg ad tiaa, Yd-
ur nu medañ var eg hiaa, Allt hvad sem ritad af mi-
er siest, er skrifad, so þad fullkomnest.

13. J Mosis Logum er um̃ mig, Allvijda
Skristeñ merkelig, og i Spaamaña Bookum hert,
Bodan þeirra fær eingeñ skierdt, Psalmarner lijka
seigia af mier, Sierhvers Uppfylling koma her. †

14. Oll þaug Ord sem ad um̃ þig skraa, O miñ
JEsu! og seigia fraa, Pijnu þiñe og doprum De-
yd, draga burt mijna Hiartans Neyd, Eñ þo fag-
nar mest Ondeñ mijn, af Upprisu og Sigre þijn.

15. Pu uppfyllter miñ HErra hijr, hvad um̃
þig mællte Ritning skijr, og fullkomnader allt þad
eiñ, af þier hvad sagdest ÞRotteñ hreiñ, ecke vant-
ar nu aa þad neitt, er þvi fullkomeñ Lausn mier veitt.

† 16. Pegar þu skijrder þessu fraa, þijnum Post-
ulum: Raad þijn haa, Opnade Skilning þeirra
þar, Peir so ad helgar Ritningar, underskoodu, og
efast

efast sijst, Auk þessa fleckstu slijku lijst.

17. So hafe Christo sañ byriad, Seliast i Püsl og Daudans Bad, Og hañ Pridia Dag epter aa, Upp ad Rijsa þeim Daudu fraa, og boda laata all-stadar, J sijnu Nafne Kieñingar.

18. JEsus auglyser eñ framar, ad þvi hygge hañs Pienarar, Predikast eige ollum Lyd, Ydran og Synda Kvittun blijd. † Jonas i Breidra Bygda Stad, Borg Ninive fyr giørde þad.

19. Saa Guds Kieñemañ satt eg tel, siñe Pre-dikun hagar vel, J JEsu Nafne þa Ydrun hañ, og Synda Kvittun boda vañ, Saalum Mañaña, sem hañ er, Settur yfer ad stioorna hier.

20. J Logmaals Kieñing syner señ, sañra Guds Orda Pienareñ, fweñ Samvitsku Saareñ vest, So ad Mañeskiañ uppvekiest, med Ydran ad leita Lækningar, Lijknar bidia og Myskunar.

21. Undañ þa geingeñ Ydran er, Under Sam-vitsku lækna ber, Med Unda-Salve Ordsins Pi-oon, ei so ad lijde Saaleñ Tioon, Synda Kvittun er Salve þad, Saar Hiartans græder øll i Stad.

22. Logmaaled Synda Saareñ mijn, syner mier opt og verkar Pijn. O miñ JEsu! aumkadu þad, Ædste Lækner i Gilead, aa þiñe Tungu er Balsam best, Blessud Huggunar Ord þijn flest, AMEN.

## 28. Psalmur.
## Um Jñsetning þess H. Predikunar Embættes.

Ton, Heidrum vier Gud af Hug og Saal.

†

HOSK Fridarens i Añad Siñ, Itreka giørde JEsus miñ, Vid Lærefveina liwfa siin (lienteſt Glede eñ Sorgeñ dvijn) Og so Kieñemañs Embætted, Iñsette DRotteñ vor þar med. Um̃ þad hier epter er so tied.

2. Lijka sem Fader milldur miñ, mig hefur sendt, kvad Lausnareñ, So ydur alla sende eg, sañañ ad byrta Lijffins Veg: † Ad kieña voru þeir kallader, af Christo JEsu ædur fyr, Eñ þeſs ordner Overduger.

3. Þeir hofdu frijdañ Frelsarañ, forlæted, þegar pijndeſt hañ, og ysergæfu hañ aller þa, eñ JEsus þar ei minteſt æ, Uppreiſtar Brief þeim aptur hier, Ædſtur DRotteñ nu meddeiler: Þad æ mijn Hiartans Huggun er.

4. Æ! hvad opt flæde eg hier fræ, O miñ JEsu! þa hlioop eg æ, Gælaus þañ hætta Glæpa-Stig, Sem giørde Satan ad leida mig: Eñ eg hugga mig aptur vid, ad þu muner mier syna Grid, So sem Poſtulum lagder Lid.

5. Athuga, Saal mijn, Eingla Her, ei sette Gud ad kieña þier, Naalægd þeirra, hañ ſialfur sæ, Syndareñ munde ei ſtadeſt fæ, I Bodan Ords og Aflausnar, af Glæpa Mergd þa Hrædslu bar, Mañlegt Hiarta, Sem Von til var.

6. Synduga Meñ þvi setter þu, Sætaſte DRotteñ miñ JEsu, Og Fullmakt þijna þu gafſt

þeim,

þeim, Þitt Ord kiena um vijdan Heim: So sem Faderen sende þig, sender þa Raad þijn Milldelig ad fræda og hugga auman mig.

7. Þig sende Hiartans HErran min, hijngad, Eilijfur Fader þin, ad lijda hier fyrer Misgiørd mijn, Mestu Kvaler og Daudans Þijn, og Endurleysa alla þaa, a hverium Fordæmingen laa, So þeir Helvijte frelsest fraa.

8. A þenan Hatt þu sender siist, Sveina þijna, Og þad er vijst, Þu hlaustst Kvalana Kaleik ein, kvalen ad drecka JEsu hrein, Og Guds Vijn-Þrægu einsaman, ad troda fyrer Syndaran, So Postula, sem sierhvern Man.

9. Øll Løgmaals Bolvan a þier laa, Øll Guds Reide þig giørde slaa, Þu barst Heims Synder allar ein, ei so ad skyllde tapast nein, Andskote, og Daude einan þig, asookte JEsu, fyrer mig, bætte so Ast þijn inelig.

10. Allt þetta boda Þionar þijn, Þar til verda þeir en til mijn, sender, DRotten af sialfum þier, Sanlega Kiening þeirra er, O Liufe JEsu! Lijfs Ord þitt, Sem lijfgar Daudvona Hiartad mitt, So um Eilijfd er Ønd mijn kvitt.

11. Er DRotten hafde Ástsemd med, wtgiefed Sveinum Kalls-Briefed, Sitt Insigle þar sette vid, so talande: † Medtaked Þid, Heilagan Anda, og a þaa, under eins blies hans Tignen haa: † Ad þvi mijn Saal, en framar gaa.

12. J Upphafe þa Adam var, af Jordu skaptur,

ur, Ritningar, Jña Gud hafe utañ Bid, Jñ i Mañsins Naſer biaſed, Saaleñ Hollde þa samteingeſt, Sem Liiſed alldrei gietur miſt, So fieck Adam Liif allra fyrſt.

13. A Poſtulana, HErrañ hier, hveria i siñ Stad wtſender, blies, ſo þeir odleſt Andlegt Liif, Andans Gaafur, Hañs Vernd og Hliif, Andans Styrkleik i Andlegu, Embætte, þeim nu ſkipudu, Andleger Meñ þeir þa urdu.

14. Fridarens Bodar Bleſſader, af Bleſſudum Gude wtſender, Af Bornum Heimſins erud þrætt, Ovirdter hier æ margañ Hætt. Vered Polgooder Pioonar hañs, æ þeſſu ollu verdur Stañs, Pa þier hefieſt til Himna Rañs.

15. Ande þiñ JEſu eilijfe, Efle, Styrke og Vardveite, Andlegrar Stiettar alla Meñ, Af hverium bodaſt Kvittuneñ, Synda vorra, og Bleſſan bliid, Bleſſud Hugſvolun Fyrr og Siid, O Gud! hiaalpa þeim allañ Tiid, Amen.

## 29. Pſalmur.

### Um̃ þad Kleñemañlega Lykla-Valld.

Ton, Aller Guds Pioonar athuged.

†

MEd FRidarens Heilſan Frelſareñ, Fieck ſiijnum Læreſveinum, Himneſkt Lykla-Valld HErrañ miñ, Hverium lijka ſem Einum, Sem i Stad dyrra Svenna hañs, Setteſt um̃ Bygder Veralldar Rañs, Ad varna Andar Meinum.

2. Hver-

2. Hverium þier giörer sierhvert Siñ, Syndernar fyrergiefa, Sagde vor Frægur Frelsareñ, For: utnar skulu ann Efa, Pær allar þeim, um̃ Heimeñ hier, A Himnum lijka eins pad skier: Slijkt kañ Sorg mijna sefa.

3. Og hverium Synder eineñ þier, Apturhallded, Pær verda, Apturhalldnar, Peim HErrañ tier. † Hver kañ slijkt Valld ad skierda? DRotteñ vor JEsus dyr pad gaf, Drottnar Heimsins pad taka ei af, Hversu sem Vollð sijn herda.

4. Eg kiem fram̃ sekur opt og tijdt, Ei fiñ mier neitt til Boota, J Hiarta og Saalu hallðeñ lijtt, HErrañs Pioonum til Foota, Peirra Lykla-Valld leyser mig, Lausnareñ JEsu fyrer þig, Fæ eg so Nædar nioota.

5 Pegar mig mæder þwngur Kross, Pegar mig Sorger pijna, JEsu blessadur Benia-Foss, Blæder a Saalu mijna, Fram̃ af Muñe Hyrdara hañs: A Hiartañs Sorg þa verdur Stans, Og oll giörer Angist dvijna.

6. Syndeñ þa bindur Saalu mijn, Og særa Glæpa-Hlecker, Fly eg miñ Gud til Pioona þijn, Peirra Magt eingeñ hnecker, Bliwgur fram̃kryp eg fyrer þa, Frelsis Bodan þeir giora mier tiaa: Peirra Lausñ efa eg ecke.

7. Laungietner Syner ei faa Arf, Epter Forelldra sijna, Skilgietnum bryrla þvi ei þarf, Ad þeirra Erfd skule dvijna: Epter Postula erud þier, Til Embættesins Skilgietner, Pioonar Gudo: Pad maa syna. 8. Frels-

8. Frelsara sijns þa feta Spor, Fara þeir villt alldreige, J hañs Kieñing med Prek og Þor, Pa sem a raungum Vege, gaanga, i Lærdoom Leidrietta, Med Lijfs-Braude þa forsorga, Sañlega eg þad sege.

9. Ovyrd þvi alldrei aumur Mañ, Ædsta Guds Sendeboda, Hver þa forsmaaer, Forsmaar hañ, Faatt kañ slijkañ ad stoda: HErrañ Pioona sijn hefner ött, Sem honum sialfum þad være giört: Varastu soddañ Voda.

10. Naadar og Lijfsins Kieñing klaar, Christneñe bydst Daglega, Af Pioonum Guds, Pad stodugt staar, Stiller hun Andar Trega, Allra þeirra sem þiaast i Pijn. Pijns Ords Kraptur er Huggun mijn, O JEsu! Æfeñlega.

11. Bidiande Foolksens Bænar-Rauft, bera þeir til Himnaña, Pad sem var bunded, Laata laust, Sem Lausnarañs Ord hier saña, Peir græda solleñ Synda-Saar, So ad Glæpaña vondslegt Faar, Ei deyde Ander Maña.

12. Pier Guds Ords Pioon, Er þad og sagt, Pitt Lykla-Vallð ad brwka, Ecke med neiñe Ofur Magt, Pvi auttu Reikning ad lwka. Ydrande Saaler afleys þu, Eñ Pverbrotnum med Hoogværd sinw, Sla Priotska, Sær ei Siwka.

13. O JEsu! Sæte Astvin miñ, O JEsu! Lausnareñ blijde, wr Synda-Fiotrum Faanga þiñ, Fylltañ af Sorg og Strijde, Leys þu miñ Gud, Og liettu Pijn, Lausn mijns Kieñemañs er

sem

sem þijn, Lof sie þier Frelsaren frijde, Amen.

## 30. Psalmur.
## Um Fall Thomæ Postula.

Ton, JEsus Christur a Krosse var.

†

HEgar HErran vor Himnum fra, Heilagt Lyk-la-Walld giorde sa, Liwfustu Læresveinum, Thomas Ein var þeim ecke hia, Ond hans þvi fyllteft Meinum.

2. Pa Fyrst til þeirra heim kom han, Honum þeir greindu rietan San, Glader i Saal og Sine, Sogdu, Vier hofum sied HErran, Sem var hier med oss inne.

3. Til þeirra sagde Thomas þa, Trwa alldrei eg þessu-ma, Nema eg i hans Hondum, Fyrst meige Nagla-Foren sia, Er fieck han a Orinum þondum.

4. Og ad siaande eg þar in, Efa-frij late Fijngur min, Og Hendur i hans Sijdu, Leggia næ i sama Sin, Sijst trwe eg Bode þijdu. †

5. Sia og athuga Saal mijn kiær, Sancte Thomas var burt og fiær, Pa JEsus sig Sveinum synde, Trwar Missir þvi mestan fær, Er mædde hans Gied og pijnde.

6. Fra Guds Barna Sofnud gief þig sijst, Af Guds Orde Trwen kveikest vijst, Guds Ord hene vid helldur, J Kyrkiune fær Ljoos þad lyst, Lyd þeim i Blindne er felldur.

7. J

7. I Kyrkiunne Guds Ord kiendt og rædt, Kyrkiu Safnadar Hiartad mædt, Hresser, Huggar og Nærer, Andar-Sarenn þad oll sær grædt, Og nya Glede særer.

8. Thomas var eitt Sinn ecke vid, Pa Endurlausnarenn bodar Frid, Og byrtest sijnum Sveinum, Af þvi mætte hann utann Bid, Andar-Skada og Meinum.

9. Hvad meinar þu ad hende þa, Hina sem yduglega sinna, Kyrkiur og Kienning gooda? Po þeir hrellest, Ei Huggun sa, Af Hædstum Frelsara Piooda.

10. I Sofnudenum Son Guds er, Synduge Madur, vijst hia þier, Ef hanns Ordum villt sinna, Huggun, Blessan og Hialp þar tier, Hann mætt þar alltijd sinna.

11. Andlegur Himen heita mæ, HErrans Sofnudur Jordu æ, Sool Riettlætesins sæta, Lætur þar Geysla sijna sia, Sem Hiortun sturlud kiæta.

12. Ef þu villt Madur ecke þvi, Peim ytstu Myrkrum kveliast i, Lattu þier JEsum lysa, Med Orde sijnu, umm Eilijfd frij, Audnast þier hann þa prijsa.

13. Vantraust þo Stundum veike mig, veittu JEsu ad fyrer þig, Lioos Trwar lifne minnar, alltijd gief þu hun æse sig, I Ydkun Gudrækneinnar.

14. Fader Lioosanna lattu mier, Lysa alltijd i Verolld hier, Lioos þinna Lijffens Orda. Eg befala

mig

mig Einum hier, Illre Vantrw mier forda, Amen.

## 31. Psalmur.

### Um Vidriettung St. Thomæ, af Skodun Saara-Drana JEsu.

Ton, Lifande Gud þu lijt þar aa.

†

ATTA Dogum sem Ord Guds tiaa, Epter það HErran blijde, Læresveinana liet sig siaa Lwna af Harma-Strijde: Kom JEsus en til þeirra þar, Þegar Thomas og med þeim var, So han sæe og trude. †

2. JEsus saa Hædste Hyrder er, Han leitar Tijndra Sauda, A Herdum sijn þa heim særer, wr Haiska allskins Nauda. Eingen sær Hiord hans uned Mein, Ei ferst hans Saudar-Skiepna nein, Han Ein hiaalpar fraa Dauda.

† 3. Til Postulana HErran hier, J Hiarta og Ordum blijdur, Kom þa Hurden læst aptur er, Endurlausnaren þijdur: Oskar þeim Fridar nu aa Ny, Af Naadar-Avarpe gladdest þvi, Læresveinana Lydur.

4. JEsus til Thomam talar þa, Ad trwa siertu hradur, Med Fijngre taktu Orum aa, J Hondum mijnum gladur, Utriettu Hond og einen þijn, Jnlegg hana i Sijdu mijn, Vert Ecke Vantrwadur. †

5. HErran Jtrekar Ordin hier, Oll þau sem Thomas hafde, laated heyra af sialfum sier, Sæl hans

hañs þa Efeñ vafde, um̃ Upprisu DRottens Daudum fraa, er Dyggver Postular giørdu tiaa, Eñ hañ ad trwa tafde.

6. A mijnar Synder mintu mig, miñ JEsu hier i Lijfe, so miñest Hefnd þijn hrædelig, J hørdu Doomsins Kijse, ecke þeirra: Gleym Glæpum mijn, Giøre þa hylia Saareñ þijn, sem mier Syndugum hlijfe.

7. Alskiæru DRotteñs Auguñ siaa, Øll Verk og Panka Maña, Hvert þeirra Ord hañ heyrer aa, Heims um̃ giørvalla Raña, Þegar þu syndgar, sier hañ þad, Syrg þvi, og græt þiñ Misverknad, Og giør Yferboot saña.

8. Thomas hier odlast Hugar-Hægd, og Hiartans Glede næde, þa hañ i Trwar fagre Frægd, Frelsarans Benia gæde, Vantrwar Glæpur hvarf burt hañs, aa Hormum øllum giørdest Stans, fyrer Hrygd, Fognud þæde.

9. Eg sæ O JEsu! eiñeñ siaa, Ør þiña Handa og Foota, Trwar Hønd mijn þeim tekur aa, tel eg mier slijkt til Boota: Handa Saareñ sem þiaodu þig, J þijnar Hendur skrifa mig, Þvi sæ eg Naadar nioota.

10. Þa mijnar Fætur þreytast hier, Og þiaast aa Krossens Vege, Set eg strax fyrer Siooner mier, so ad eg styrkiast meige, Foota Øreñ og Under þijn: Øllum lina þau Naudum mijn, O! JEsu Eilstulege.

11. Synder þa hrella Hiartad mitt, og Heliar Þijnu

Pijnu boda, Hiarta og Siidu Saared þitt, Sæte JEsu eg skoda, Lioomande af þvi Elskañ Fijn, Er bætte fyrer Glæpe mijn, Og øllum varna Voda.

12. J þijna Siidu Ondeñ mijn, O! miñ JEsu skal flya, Seinast þa Holldsins Hiervist dvijn, Hana veit eg þar frija, Eingeñ heñe þar ama kañ, Eingeñ Hæske nie Logmaals Bañ, Eingeñ Angist ad lya.

13. Opt sie eg Synda Oreñ mijn, Yfast, Svijda og Blæda, Eñ eg veit JEsu Under þijn, Oll þaug Mijkia og Græda, Þvi skal eg leggia Saar vid Saar, Saarañа miñа skadlegt Faar, Siist kañ þa Hug miñ hræda.

14. A forklarudu Hollde hier, HErrañs vors Mildeñ skiæra, Saara-Oreñ sijn blessud ber, Briooſt mitt þaug Endurnæra, Hañ mun siñ Fødur Himnum æ, Til Hiaalpar mier eñ þaug laata siæ, Og med þeim Frid mier færa.

15. J Himna-Sælu Or þijn sier, O! JEsu miñ Frelsare, Einglaña þiña helgur Her, Hier med Utvalldra Skare, Sem Sigur-Teikn þijn uñ eilijf Ar, Ollu fegre eñ Sooleñ klaar. Þijn alltijd Vegsemd vare.

## 32. Psalmur.

## Uñ Trwarjaatning Thomæ Postula.

Ton, JEsus Guds Son Eingieten, etc.

†

ÞEgar Lausnaran Lyda, Lijfs vera Thomas saa, Vantrwar vond Astrijda, Veik strax i burtu þa, J Fognude Hiartans hijrum, Hroopar med Ordum skijrum, Hverium nu herme eg fraa.

2. Til JEsum Thomas sagde, Trwgoodur þetta Sin, Dreigen fraa dopru Bragde: DRotten Min og Gud Min. † Ord þesse eg vil grunda, J þeim, nær glögt þaug stunda, Lærdoom eg fagran fin.

3. Hier sie eg Thomas hafa, HErran vorn Gud og Man, Jaatad vera aan Vafa, (Vyst þad ei efast kan.) Han er saa Hædste HErra, Hans Valld kan alldrei þverra, A Himne og Heims um Ran.

4. Min DRotten, Jeg þig jaata, JEsu Lausnaren kiær: Ond mijn skal ei aflaata, Epter sem kraptad fær, Þier ad þioona og hlyda, Þin Kross Bera og Lyda, Og hyllast þig HErra kiær.

5. Þu ert med öllum Sane, Aller þess skylldu gaa, HErra, sem hverium Mane, Hæfer Lotning ad tiaa. Þu virdst mig ÞRAEL þin Kalla, Þessa Heims Vegsemd alla, Einskis þar agta eg hiaa.

6. Þu, allan þig, mier giefur, Þier gief eg aptur mig, Mijn Saal þig Ein umvefur, Ein skal hun gyrnast þig, Ein sin HErra þig hallde, Hlydne þier Einum giallde, Mijn Elska milldeleg.

7. Min Gud eg þig medkiene, Min JEsu hver-

ia Tid. Hormung po Hiartad spene, Huggar mig Raad bijn blijd: Pu ert Gud Giædsku goodur, Gud Trwr, Gud Polenmoodur, Gud sem þinn leyster Lyd.

8 Pu ert Gud, Pad eg Jata, Þinn Mattur alltijd stær, Pier ber i allan Maata, Æra og Vyrding klar, Dyrdkan, Bæn, Lotning Lyda, Lofad sie Nefn þitt blijda, Minn Gud um eilijf Ar.

† 9. Vid Thomam Son Guds sagde: Sannlega Trwder þu, Og þesse Ord tillagde, Af Pvi Mig Saastu Nu, Enn eg þa SÆLA sege, Er Siaa Kunna Mig Eige, Hafa Po Hreina Trw. †

10. Med Holldsins Augum ecke, Eg fæ JEsum ad Siaa, Hvad eingre Velferd hnecker, Hann fyrst eg Lijta maa, Med Trwar-Augum mijnum, J Mæðu og hverskins Pijnum, Soddann maa Sælu tiaa.

11. Eg mun þig eilijflega, O! Sæte JEsu Christ, Lited faa, laus vid Trega, J liwfre Himna-Vist, Med Lijkamans Siwen Lwomande, J Lijfsens Sælu Stande, Sem alldrei umbreitist.

† 12. Mørg Teikn nam Guds Son giera, Sem greiner Johannes, Ecke uppteiknud vera: † Enn mijn Saal, giætru þess, Ad hann sier allt þad rita, Er Mannesskiann þarf ad vita, So hlioote aa Himnum Sess.

† 13. Og ad JEsus Aast-Kiære, Eijn sie med fullann Sann, Christur Guds Sonur kiære, Komenn i Heimsens Rann, Ad þeir sem aa hann trwa, Aller, og

til hañs snwa, Hafe Liif fyrer hañ. †

14. Jeg Trwe JEsu goode, Jeg Trwe ad Nafned þitt, Sal mijn þvi sviptest Moode, af Syndum ollum kvitt, Eg skal þvi alldrei efa, Eiñ muntu Liif mier giefa, Lijfed þo liñe mitt, Amen.

## 33. Psalmur.

## Um̄ Opeñberan Christi vid Siooeñ Tiberias.

Ton, Christus er Kouta fyrer Hondum.

†

VJd Tiberias Sioo-Siijdu, sig byrte JEsus hiir, Upprisen eñ med Blijdu, Jñer so Ritning skiir, Læresveinar Sio samañ, sookt hofdu Fiske-Draatt, Petur var fyrer framañ, feingu eckert þa Naatt.

2. Ad Morgne i Fioruñe, Endurlausnareñ stood, af þvi þo klaart ei kuñe, Kieñast hañs Asynd riood. † Morgun Skuggeñ þeim meinar, ad mættu þeckia hañ, Po liwser Læresveinar, lite þar standa Mañ.

3. Eg er i Angist staddur, opt sem ad diwpum Sioo, af solltum Taarum saddur, Syndeñ mier slijkt tilbioo. Huggunar Afla eige, um̄ Noott þo leite eg tijdt, mæddum ad Mootgangs Veige, mier vill þad gaanga lijtt.

4. Og þo med allre Blijdu, Endurlausnareñ kiær, vid Sorga miña Sioo-Siijdu, sie, og stande ei fiær, Eg hañ þo ei glogt þecke, Angistar Skugg-

eñ

eñ þvi, velldur, sem Blindañ blecker, Bolenu þwngu i.

5. Eg þa af Eymda Hafe, Jñkiemst i Sælu Hofn, er þar ad eingeñ Vafe, Eñ þo hier væte Drofn, JEsus i Ast um skipter, Eg sie þa gladur hañ, Sioo-votum Bwning svipter, sierhvern Riett-trwadañ.

6. Ad Morgne utañ Rauda, Jsrael leidde Gud, Med Heill um Hafed Rauda, J heiteñ Lands Fognud: Ad Morgne a Effsta Deige, wr Hafs-Raud Veralldar, Eg kiemst, hvad efa eige, J Hofn Paradysar.

7. Þar mun Frelsareñ friidur, J Fioruñe standa nær, wr Brim-Garde Daudans bliidur, burt taka Raudar skiær, Þetta mitt Holld hrornada, Hier med Saal Or-þreytta: Þar sæ eg Huggun hrada, J Hoop Guds Utvalldra.

† 8. Hafe þier HErrañ sagde, Hiarta Born Fæ-du ei, Svorudu bradt ad Bragde: Brædur þar stadder, Nei. † O! hvad opt Aumer klaga, ei hafe Morgun-Verd, Og um allmarga Daga, Atviñañ g'orest skierd.

9. So hefur Sañ-Gudhrædda, sialfs Drottens Forsioon bliid, reyndt, og giort opt miog mædda, ad megnre Hwngurs Tijd. Abram, Jsaac goode, og Jacob reyndu slijkt, David þeim mætte Moode, mad oss og henda lijkt.

10. Alldrei Oþoleñmoodur, yfer þvi klaga skallt, Þo Gud þiñ Giæsku Goodur, giefe þier ei

þad allt, Hvad hellst til Holldsins Muna, hentast liitst siaalfum þier, nu ætt þvi alltijd ùna, ad hañ best fyrerser.

11. Hugadu a hverium Deige, hvad Naudsynlegast er, ad Saal þijn sedlast meige, J sætre Guds Rad hier: Otte hañs Afla þessa, Orkad med Riettu fær, Hañ kañ best Hiartad hressa, Hungurs Tijd þo sie nær.

12. Forsoma eiñeñ ecké, ad stunda Kallan þijn, Hyrdulaus Lete hnecker, HErrañs um̃ Sorg: so dvijn, Hiaa þier hañs Blessan blijda. Bænrækne ydka tijdt, So mun Guds Peled þijda, þier hiaalpa Barned mitt.

13. O miñ Gud! Eg skal lijda, allt þad sem villtu hier, Lættu mig Boled bijda, sem Blessudum liikar þier. A Lifande Mañá Lande, Lijssins Braud sedur mig, J Lijfe þvi lifande, Lofa eg alltijd þig. AMEN.

## 34. Psalmur.

### Um̃ siaalfst Kraptaverked, er JEsus giorde vid Siooeñ Tiberias.

Ton, Dagur i Austre ollu.

†

POstular sviñer svára, sem hermt er ædur fyr, Sijnum liwsa Lausnara, J Lynde hoogværer: Fisk nockurn feingum eige, Fer Skiped toomt til Lands: Siaalfur JEsus þa seiger, Sem hlioode Ordeñ hañs:

2. Kasted

2. Kasted wt, Born mijn blijdu, bradt nockud finned hier, Nete vid siaufs Skips Sijdu, sem Hægrameigen er: Peir giordu sem hann saade, sijst gatu dreiged þa, Fiska Mergd sliott ad Bragde, Er feingu Skiped aa. †

3. Ordsins Pienara alla, Andlega Fiskara, Klaarlega maa eg kalla, af Kienning Ritninga: Greidt Net til goodra Veida, Gudspialls Lærdoomur er, Hvern þeir um Heimenn breida, Poott hætt sie Fiske Ver.

4. Harma Noott hafa tijdum, hier DRottens Veide Menn, Hia Vondum Veralldar Lydum, Pvi veitest ei Abatenn: Peir vid Vinstre Hond verda, vijst aa þann Effsta Dag, næst ei, þvi Hiortun herda, med Hreckiafullt Sinneslag.

5. Pioonar Guds þo ei meiga, þreytast, nær veidest lijtt, aan Forsoomunar eiga. Ordsins Net leggia tijtt. Pa þeir til Hægre Handar, hafa þvi wtkastad, og hver einn Verk sitt vandar, verdur nockud Fiskad.

6. Urvallder veidast aller, Aller Riett-Trwader, þaa i Himneskar Haller, wr Harma Sioo Gud færer, J hverium hier aa Jordu, hanns Orded verka ried, Og þvi med Hiarta hordu, hofdu ei mootstaded.

7. Vid Hægre Hond Son Guds setur, Sijdasta Dege aa, Feyng þann, og mikels metur, mioog vel er Fiskad þa, Veide Menn verda glader, veidt er gott Fiska Kyn, Falleiger Fioru Stader, hvar fyrer er þeirra Vin. † 8.

† 8. Af Furdu Fiſke-Drætte, er feingu Poſtular, Af þvi med eingum Hætte, aattu hañs vænta þar, Læreſveiñ liwfur ſagde, Sem Lauſnareñ elſka vañ, Pa til Peturs, hver þagde, þad er ſialfur HErrañ.

9. So bradt ſem Petur heyrde, ad HErrañ være þar, Eiſkurijkur ei eyrde, Utbyrdes ſier kaſtar, Klædfaar, og kom ad Lande. † Kraptaverk ſeigiaſt maa, aa Sioonum greidt gaangande, giorde ei ſockva þa.

10. Faa-klæddur fer eg tijdum, aa Fund þiñ JEſu kiær, Helgunar Fatnad frijdum, flettur, og Alsber nær, Eñ þu mig aptur klæder, J Aſt Riettlæte þijn, Saar þegar Sorgeñ mæder, So hylſt oll Blygdan mijn.

† 11. Poſtular adrer prwder, Petre komu ſijdar, Med Skip, af Mæde lwder, miog laangtei þetta var, Tvø Hundrud Alner eige, Eñ nær þvi Ritning tier, og hermer hafe dreiged, Happ ſitt og Net med ſier.

12. Og er þeir aa Land ſtigu, aller ſeñ ſitu þar, Med Giede Gledeligu, Glædur, og Braud þar a, Eiñeñ Fiſk yferlagdañ, eñ JEſus vid þaa tier: Sæked af Fiſk þeim, ſagde hañ: Semnu ſtrax feingud hier.

13. Bod JEſu bleſſad ræker, bradt epter Bla hañs, Simon Petrus, og ſæker, ſitt Net, og droo til Lands, ſtoorer Fiſkar þad fylltu, Fanſt Talañ ecke rijr, HErra ſijns Skipun hylltu, Hundrad Fimtiju og Prijr. †

14. Po Fiskar sem hier seiger, So marger fyll-tu Net, En samt rifnar pad eige, undrast pad sijst eg giet, Almættes Hond þijn, HErra, hefur eñ verkad slijkt, Piñ Mattur ei kañ þverra, Pitt Vallder Krapta rijkt.

† 15. Til Læresveinaña sagde, Sonur Guds eñ, og tier: Med klaaru Kiærleiks Bragde, komed og snæded hier, Braud og Fisk gaf þeim Goodur. † Gled þig mijn Saala hier: JEsu þiñ blijdur Broodur, Bordhalld eñ veiter þier.

16. Litlu fyr Læresveinar, Lausnarañ hofdu sædt, aa steiktum Fisk, Fædur hreinar, þa fieck hañ hiaa þeim snædt, Sigurvegareñ sætur, Sadning þa borgar nu: Olaunad ecker lætur, Ast hañs og Mildeñ trw.

17. Komed, JEsus eñ kallar, Komed hijngad til mijn, Mañeskiur mæddar allar, Mioolk kauped og so Vijn, Komed, fyrer alls ecke, Ydur eg sedia vil, Peir Pyrstu þar med drecke, Pvi Svolun noog er til.

18. Trwudum ollum giefur, Andlegt Braud JEsus kiær, Hveria hañ kallad hefur, Hressing þa Saaleñ fær, Lijkamañ lijka sedur, Lijknar Hond eñ hañs blijd, Biorg Holldsins bestu medur, Blessud aa hvorre Tijd.

19. Mig og Utvallda alla, A þañ Sijdasta Dag, Miñ JEsu muntu kalla, J mestañ Dyrdar-Hag, Ur solltu Sorgar-Floode, Sioo-votañ mett-ar þa, Vid Bord þitt Guds Son goode, J Gled-Vist Himnum aa.

20. Þa mun eg þurfa ecke, Þar nockru spyria ad, Guds Son eg gladur þecke, Vid Guds Bord i þeim Stad, Mijns Guds Sioon mig þa sedur, Mier er sw Huggun vijs, Utvolldum ollum medur, J sællre Paradys, Amen.

## 35. Psalmur.

## Um̃ Samtal Christi vid Petur.

Thon, Ein̄ HErra eg best ætte, ꝛc.

†

POstular HErrans hyrer, Þa hofdu Fædu neytt, Skriften̄ en̄ framar skijrer, Skulum þess min̄ast greidt, Til Peturs Son Guds seger, Simon Elskar þu mig, Meir en̄ þesser? Hin̄ hneiger, Hier til Svor audmiwklig.

2. Ad eg þig elska giere, Eflaust HErra veitstu, Um̃ adra satt eg mig kiere, Ad þessu Sin̄e nu, Prisvar Jaa þar til tiade, Pad JEsum Elskade, En̄ Loksens angrast nade, Af Spurn so tijdt heyrdre.

3. Med Fyrstu Spurn Frelsaren̄ blijdur, Fyrnefndum Postula, Liwfur i Lynde bydur, Lomb sijn skule han̄ ala, Oa Fæda sijna Saude, St. Petre skipar, Al besta Lijffsens Braude, Baud JEsus so Prisvar. †

4 Afneita Prisvar adur, Aumlega Petur ried, Sijnum HErra, Samradur, Satans Villo, Hrædslu med, Hrestan̄ i Saal og Sin̄e, Son Guds spyr Prisvar nu, um̃ Elsku han̄s, so in̄e, Opinbert sijna Trw.

5. Hier med so hañ iñsetur, i Heilagt Embætte, Aptur, og ei þess gietur, Ad hañ fyr hrasade: Pa eg Synd mijna syrge, Siist verdur heñar miñst, Blood JEsu hana byrger, Brot koitt hiaa Gude ei fiñst.

6. Hveriu villt Saal mijn svara, Siertu nu spurd þar ad, Hvert þiñ Hiartans Lausnara, Hafer þu riett elskad? Pu munt ei þora ad jaata, Pad og lijklegast er, Pviad i margañ Maata, Maa siña Brest hiaa þier.

7. O JEsu! Elskañ blijda, Af Hiarta vil eg þig, Elska, og allt þad lijda, Er þu villt leggia aa mig, Elska af Hiarta hreinu, Af hreinum Stodugleik, Ecke med Orde Einu, Eñ þad ser tijdt aa Reik.

8. Eg veit allmarger kuña, Ad elska JEsum heitt, Peim vil eg þess vel uña, Pad er mier sialfsum leidt, Ad eg alldrei sem bære, Alldrei sem skylldugt er, Heita Ast honum fære, Hañ þad forlaate mier.

9. Hvad maa skylldara heita, Eñ hafa hañ Astkiærañ, Gott allt sem giorer veita, Giefa vill og þad kañ, Og er saa Ædste Goode? Elska þvi JEsum Christ, So muntu sviptast Moode, Saal mijn i Himna-Vist.

10. Oss fyrre Elskad hefur, Endurlausnareñ dijr, Af Elsku oss uñvefur, Eñ nu hañs Millden skijr, Ois hañ Elskar til Enda, Elskum þvi fwser hañ, Fraa Elsku hañs alldrei venda, aattu þu Christeñ Mañ.

11. Af Ásttil aumra Mañа, Elskugeñ vor JEsus, Fra Hædum Himna Rañа, Hijngad a Jordu fors, Kom og Holldenu klæddest, Kvaler, Forsmaan og Deyd, Hier þá hañ hiа oss mæddest, Af Hiartaňs Elsku leid.

12. Ef þu hañ ecke aptur, Elskar mijn Sál af Trw, Eins so sem er þiñ Kraptur, Eflaust tilbyrger þu, Hañs Ástar-Bruñ eilijfa, Elsku hañs færdu sijst, Af þvi hañ giorer ysa, Elskuleysed þitt vijst.

13. Ef þu vel ad þvi hyggur, Og villt þess riett giæta, Eiñeñ þier a þvi liggur, Ad elska þiñ Naunga, Hañ er Limur lifande, Lausnarans, Sála mijn: Hvad opt i Harma-Stande, Hañ lijta Auguñ þijn?

14. Hver sa sem elskar eige, Af Hiarta Naungañ, A riettum Elsku Veige, Ecke frañgeingur hañ, Einga Ást hefur helldur, Hañ til sijns Frelsara, Fra JEsu Kiærleik felldur, Fiñur Skadsemd brada.

15. Holldz Gyrnder alldrei attu, Elska, þu Christeñ Mañ, Nie vonda Heimsins Hattu, sem hryggia þiñ Lausnarañ: Ef ad þu alla Vega, umflyr slijkt Sál mijn kiær, Ást JEsu eilijflega, Og hier i Naad þu fær.

16. Lomb og Sauda Hiord sijna, Simoni JEsus baud, Ad fæda: Ei kañ dvijna, Elskañ hañs: Lijffens Braud, Hungrudum hverium giefur, Hyrder sa beste er, Lomb sijn veik ad sier vefur, Vanfæra Saude ber.

17. Ei lætur af ad kalla, Asten hans Millde hæ, fyrr en til Himna Halla, Han fær inleidda þar, Naust hans sem heyra og hlyda, Himnesk Fæda giefst þar. Þess giøre eg gladur bijda, Gud allrar Myskunar.

18. Hyrdarar aller heita, HErrans JEsu Þionar, Þeir eiga eins ad breyta, Og Petre boded var, Ad Fæda HErrans Hiørdu, En hana reita sijst, Med hollre Dygd hier a Jørdu, A Himnum er Kauped vijst.

19. Eg er sem aumur Saudur, O JESU! Hyrder min, Veikur, Hrumur, Halfs-Daudur, Hiaalpe mier Kraptur þin, Vyrdstu mier villtum greida, Veg þin, so gaange eg fws, Og um sijder Inleida, J Eilijft Sauda-Hws, Amen.

## 36. Psalmur.

### Um Bedan St. Peturs Pijslarvættes, Og Bifalning JEsu, ad Petur skule sier Eptersylgia.

Lon, Guds Son kallar komed til mijn.

†

TJL Peturs Son Guds sagde en, So hermer oss þad Ritningen, Sanlega eg þier sege, aduþ þig sialfur uppgyrdter, Og giekst hvert sem ad Lyndte þier, A unga Alldurs Dege.

2. En þa þu Elldest ei so skier, Eflaust þad fyrer sege eg þier, Ut muntu Arma breida, Annar þig gyrder, Og þangad, Ei sem þu villt, So JEsus kvad, Han mun þig hruman leida, 3. Petta

3. Petta Simoni sagde hañ, Og somu Ordum teikna vañ, Vijst þo Petur ei villde, Med hverium Deyd, Pa Hiervist hañs, Hefde og falivallt Lijfed Stans, DRotteñ hañ dyrka skyllde. †

4. Petur Attrædur vel þa var, Vid hañ frañ-komu Pijslernar, Sem JEsus fyrer-sagde, Med nidur heingdu Hofde hañ, Hiervisteñ þegar dvijna vañ, Krossfestur Lijf aflagde.

5. Gaalaus i Ungdooms Giaalijfe, Gyrdte eg mig morgu Raanglæte, Og vondum Verkum vafde, Og frañgieck þraatt þañ illa Veg, Eins sem þad siaalfur villde eg, Og hvers Hollds-Gyrndeñ krafde.

6. Alls þessa vil eg ydrast nu, Yferbæot giora i riettre Trw, Og med þijdu Packlæte, Miñast all-tijd aa Mijskun þijn, Miñ Gud sem ei i Heliar Pijn, Hrattst mier wr Heimsens Kiæte.

7. O goode JEsu umgyrd mig, Andmiwklega þess beide eg þig, Linda þijnum Lioomande, Riett-lætes Vellte þitt sie þad, Þvi mier Raanglaatum vefdu ad, J saaru Synda Stande.

8. Og leid mig þaangad þu sem villt, Þitt Raad skal jafnañ af mier hyllt, J Haaska hverskins Rauda, Lattu og DRotteñ Lokkens mig, Leidast hied-añ, So fare eg þia, Dyrkad med mijnum Dauda.

9. HErrañ Petre þa hafde tied, Hañs Pijslar-Vætte, Segia ried, Til hañs so eñ talande: † Fylg Þu Mier Epter, iñte hañ. † Athuge Bod þad Christeñ Mañ, Sierhver i sijnu Stande.

10.

10. Goodum Vegvijser Ohætt er, Epter ad fylgia, Hañ færer, Ey neiñ a villtum Vege: JESU eg eingañ jafnañ fiñ, JEsus er beste Leidtogeñ, A dymre Noott sem Dege.

11. Ordsens Pienarar eiga fyrst, Med allre Dygd og Hiartans Lyst, Fylgia sinum Frelsara, J hreiñre Kieñing hveria Tijd, Hyxande þar uñ fyrr og sijd. Umvondun eingum spara.

12. Peir sem ad Guds Ord heyra hier, af HErrans Pienurum, jafnañ ber, Kappkosta, Kieñinguñe, fylgia epter: Peir fylgia þa, Frelsaranum, sem Styrk mun lia, a Leid þo lyast kuñe.

13. J Lijfernenu lijka þu, Lijfernes Ferel þijns JEsu, feta Guds Barn froslega, Hoogværd, Trw, Eijsku, Hreinlijfe, Hiartgroona Myskun, Riettvijse, Ydkadu alla Vega.

14. Hlijdne, Polgiæde, Heilagleik, Hia þier lattu ei fara a Reik, livost stunda Lijtelæte, J ollu þessu utañ Fleck, undañ þier sialfur JEsus gieck, J Hædsta Himna Sæte.

15. Athuga Saal mijn eineñ hier, Andskoteñ lijka skipar þier, Fylg þu mier, so hañ seiger: Pad skalltu varast, þviad hañ, Peim ollum sem hañ rada kañ, J Fordæmingu fleiger.

16. Verolldeñ lijka vielar þig, vill ad þu skuler stunda sig, Og fylgia Ferel sijnum: O! mijn Saal fordast alltijd þad, Einum JEsu þig halltu ad, a Vegum ollum þijnum.

17. J giegnum Sorg og sialfañ Deyd, Sañlega

lega er Guds Barna Leid, Sem JEsu sijnum HErra, Epterfylgia a alla Lund, Eiſku hans rækia hveria Stund, Sorg þeirra seint vill þverra.

18. Fylgdu þo JEsu, hvert sem han, hier vill þig leida Christen Man, Ef til Lijfs eda Dauda: Han er Vegurenn vijsastur, villest sa honum fraa hverfur, a Braut eilijfra Nauda.

19. Hvert sem þu geingur greidan Stig, Eda gioreſt Færden Torvelldlig, a þijnum Eymda Veige, Æ medan JEsus er þier hia, Ecke kan þig ad ſkada þa, Hans Fylgd er Fallvollt eige.

20. En þo ad leide ecke mig, a Roosunum um Lijfſins Stig, Frelsarans Forſtoon blijda, helldur um þraungvan Þyrne-Veg, Þad allt ſkal Giarnan Lijda eg, Honum fylgia og hlijda.

21. Og ef honum ſo ſynaſt maa, ſie eg i Fylgd til Golgatha, Þad ſkal eg Giarnan giera, og Kroſs hans taka uppaa mig, Allfws ſo rekia hans Blood-Stig, Sem vill han laata vera.

22. Eingen Hormung, Og eingen Pijn, Æ medan varer Hiervist mijn, Eige Lijf, Dauden eige, ſkal ockar Hiortu ſkilia ad, Skiæraste JEsu veit mier þad, og leid mig a Lijfſins Veige, Amen.

## 38. Psalmur.

### Um Forvitne St. Peturs, ad epter grenſlast um Forlog Postulans Johannis.

Ton, Nattuyran oll og Edle Mans.

Þegar

†

HEgar Petre (sem aadur er, umgieted) JEsus
sagde: Fylg þu mier epter, og hann sier, ad þessu
sama Bragde, Lærefvein hinn, Sem Lausnarenn,
Hvorfur heitt elska riede, Hver ed og laa, hans Bri-
ooste aa, Helg Kvølldmaaltijd þa skiede.

2. Hann sem og spyria HErran vann, Hver er sa
þig mun sviikia? Liodst sem Petur nu lijtur hann,
laangt ecke burtu vijkia: Hvad skal nu þa, þesse sem
hiaa, þier geingur? Petur seiger, til JEsum þar,
Sem þvi gaf Svar, og þann Ord sijn hneiger:

3. Ef ad eg vil, hann einn fyrer sig, allt til þess eg
kiem, bijsse, Hvad kiemur Petur, þad vid þig?
Þitt Hiarta sig ei yfe, Fylg þu mier framt, svo
epter samt, fast umm Johannes eige. † Folgiæde
med, þitt styrktu Gied, þijnum aa Lijssins Veige.

4. Johannes Sælann seigia maa, sem ad aa JE-
su Briooste, Umm Kvølld Verds Tijmann einn þar
laa, Eingum svo mætte Þiooste: HErran vor hann,
heitt elska vann, honum unte Sootts-Daudum, Haa-
Olldrudum, J Heimenum, Holldsins leysast fraa
Naudum.

5. Þig hefur Saal mijn lijka lagt, Lausnarenn
JEsus blijde, aa sitt Briooft, Þad med Sanne sagt,
fastu i morgu Strijde, þa Huggun hans, hafde
ei Stans, Hiarta þijnu ad svala, Sem Hiartad
sitt, vid Hiartad þitt, hann lagde med Ast fala.

6. J sinne kiæru Kvølld-Maaltijd, kiemur minn
JEsu goode, til mijn, Hvar Ast hans einka blijd,

Øllum mig svipter Moode, Par a sitt Brioost,
Mig leggur lioost, Liif Giafare miñ sæte, Padañ
Saal mijn, sijgur til sijn, Svolun, Raad og Riett-
læte.

7. Petur Forvitẽ fregna vañ, Frelsara vorn
hiñ bliða, um̃ Johañes, hvert ei sem hañ, ætte
Krossfesting lijda: Pesse hvad skal? Pad var hañs
Tal, þeynkia (maa skie) so riede, Ad sig mest eiñ,
HErrañ vor hreiñ, af heitu elskade Giede.

8. Eñ DRottẽ segde Einum sier, Ad hañ
Krossfestast skylldi, Af þvi um̃ Johañs Utfarer,
Of-hnysẽ Petur villde, Forvitnast braatt, a hvada
Haatt, hañ munde Liif sitt enda: Soddañ Freist-
ing, Sem miog er kring, Sañ-Gudhrædda nam
henda.

9. Eingañ Heilagañ utañ Brest, J Heimen-
um maa fiña, ei hefur nockur Syndlaus siest, sijst
kañ þad Bol ad liña: Guds Astviner, sem Ord
hañs tier, Aumlega falled hafa, Hollds Veikleik-
eñ, vid hvern Christeñ, hefur so breitt, aan Vafa.

10. Hafe þeir Stoolpar hætt skolfed, Hvers
skal þa vænta meiga, Riwkande Hor og Reyr-
Straaed, med rasande Krapta deiga; Vier vora
þvi, Otta Guds i, eigum Saaluhiaalp verka, oss
rijma fraa, sem orka maa, Athugaleysed sterka.

11. Forvitne Peturs Frelsareñ, og Fysu hier
straffa naade, varastu Madur sierhvert Siñ, siaalfs
Guds þijns epter Raade, Grenslast, þvi þier, Of-
haatt þad er, Orañsakande Veiger, eru vijst hañs;

Hug-

Hugskote Mans, Hans Doomar Furdanleiger.

12. Liooſenu of=nær ef þu ſer, Eilliſfrar DRottens Speke, ad þig breñer, ei Oþætt er, og hañ þig burtu hreke: Þu ert Leyreñ, Pad vid Smid ſiñ, þrætta maa ei, nie ſeige, Þvi giorder þu, mig þañ eñ nu? Þier kañ ſliſkt leyfaſt eige.

13 Hvad ſem Gud lætur hlotnaſt þier, hygg ad þvi Saal miin bliida, ſiaalfur allra beſt ſier fyrer, So ſem Barn ſkalltu hliida, mis uñ ei þeim, ſem hier i Heim, hañ giefur Epterlæte, Laat þier hañs Raad, nægiaſt og Naad, Naum þo þier veiteſt Kiæte.

14. Þeim fegra Joſephs Kyrtle kañ, klædaſt hver Madur eige, Eñ aller Froomer eins og hañ, a þeim Siidaſta Deige, Guds Elſku naa, giefſt Vegſemd þa, Gud eiñ þar Makt til hefur, hier vid ſiñ Lyd, a hverre Tiid, hondla, ſem Villd hañs krefur.

† 15. Medal Brædrana Ord þad eñ, wtgieck, Og hver eiñ ſeiger: Þeſſe Læreſveiñ ſiptur ſeñ, Soott og Piin, deyr alldreige, Og JEſus vañ, Ecke uñ hañ, Ordum þeſſum ad tala: Læreſveinar, þo giorde þar, þvilijkt med ſier ad hiala. †

16. O hvad opt giorer Ordeñ þijn, Endurlaußnareñ beſte, afbaka epter Illſku ſijn, Omilldra Flockur veſte, Villu Lærdoom, med vondum Room, vekia og þraætt wtbreida, Einfallda Þiood, a Heliar Slood, Aſvega hañeñ leida.

17. Tilkomu Dagur DRotteñs er, Dauda=

Tijd Riett-Christeña, J JEsu deya Utvallder, Allar Sorger þa liña, Vier sofnum sætt, Saleñ er kiætt, J sialfs hañs Fadme blijdum, J giegnum Deyd, þa liggur Leid, Til Lijfs fra Heims Astrijdum, Amen.

## 38. Psalmur.

### Um̄ Opeñberan Christi a Fiallenu i Galilæa, Og hañs Skickan, ad Postularner utfære um̄ allañ Heimeñ.

Ton, Gud vor Fader vier þockum þier.

†

Læresveinarner Lausnarans, liooſt sem ad Skrifteñ greiner, Epter Bode og Ordum hañs, Eliefu Lyndes hreiner, J Galilæam a eitt Fiall, wigengu. † So ei snerte Fall, Þar voru þo ei einer.

2. Fim̄ Hundrud Brædra fylgdu med, Frelsarañ strax tilbadu, Er þeir hofdu hañ aller sied, Af Fognud glediast nadu, Eñ nockrer giordu efa þad, Ei hafde slijkt þo langañ Stad, Ad JEsu grañdt bo gadu.

3. Upprisеñ lata sig ad sia, Sonur Guds lofa rïede, Giæsku fws i Galilæa, Giorla nu þetta skiede: Alldreige bregdast Heiteñ hañs, Hñ er DRott eñ Gud Sañleikañs, Hier af æ giefst mier Glede.

4. Halærdra Mañа Meining er, Munde Fialled Heilaga, A hveriu byrtest HErrañ hier, Hvar til viss Rek þeir draga, A þvi Forklaran syndе sijn, Sonur Guds fyrr eñ leid hier Pijn, Og allañ vorn bætte Baga,

5. Vorg

5. Borg sem ad Fialle bygd er aa, Blessud Guds Christne heiter, þar fær þu Jesum Saal mijn siaa, Sem alla Glede veiter, Hann þig hresser, Hann þig Linfgar, Holld hans og Blood þig nærer þar, Pa Synda Pwnge-n þreyter

6. Af þessu Fialle eg mun faa, Epter Lijfed ad fara, A Zions Fiall uppstijga þa, Og minn Sæta Lausnara, Med Utvølldum þar øllum siaa, J Borg Guds siaalfum DRottne hiaa, Og skiærum Eingla Skara.

7. Af Sina Fialle Jsrael, wtgiefa DRotten nade, Løgmaaled, Sem ad Hrygd og Hel, Hverium sem Einum spaade, Af þvi þad kunne eingenn Mann, Uppfylla, nie þess flya Bann, Ok þess so alla þiade.

† 8. Af Tabor Fialle Frelsarenn, Flock Helgra Postulanna, Utsenda giorde umm Heimenn, Evangelium sanna, Ad Boda og Kienna allre Piood, J sem Løgmaalsens Banne stood, Og segia Kvittun Syndanna.

9. Allt Valld er giefed Einum mier, Endurlausnarenn tiade, A Himnum, Sem ad alldrei þver, Einenn aa Jardar Laude. † Ad soddann riett athugudu, Epter Manndoomsens Natturu, Pessa Magt JEsus þade.

10. Af þvi JEsu gafst Eilijft Valld, Astkiæra Broodur mijnum, Fyrer mig allt hann greider Giald, Gude og Fødur sijnum, Hann mig Voladann framfærer, Fyrst hann er so Nau-fkylldur mier,

Og svipter øllum Pijnum.

11. Eg er Riett dæmdur uppa hañ, Ett ockar kañ eg segia, Holld af hañs Hollde: Sw med Sañ, Soñ Skylldseme mun hneigia, Hiartad hañs til ad hiaalpa mier, Hañs Valld lætur ei slijta af sier, Ond mijn, Þa eg skal deya.

12. Af JEsu Vallde wtsender, Urdu hañs Læresveinar, Styrkter, Gladder og Hughraustter, Hvers vegna eingeñ kveinar, Fwser hañs Skipun fylgdu um̃ Heim, Fañst ei Tregdan hiaa nockrum þeim, Þo være ei Brauter beinar.

13. Ad Kieña og Skijra alla Þiood, Endurlausnareñ blijdur, Um̃ þa vijdu Veralldar Slood, Af Vallde og Myskun bydur, Helgum Postulum Heims um̃ Rañ, Hier af er lioosast Vilie hañ, Ad tapest eingeñ Lydur.

14. J miñe Skijrn eg ordeñ er, Oska-Barn Guds Lifanda, Arfur Himneskur hlotnast mier, Er huggar nu best miñ Anda, Glede, Fridur, Farsælld og Dyrd, Sem fæst ei af nockrum hier wtskijrd. Ersd sw skal eilijf standa.

† 15. Eg em med ydur, Eñ so tier Endurlausnareñ sæte, Allt til Veralldar Enda hier. O þa Fagnadar Kiæte! Sem hier nu odlast Saaleñ mijn, Sæll JEsu miñ af Nælægd þijn: O Himnestt Epterlæte!

16. Eg vil Loforded þetta þitt, Þijdaste JEsu vesia, Med Trwar Hond um̃ Hiartad mitt, Hormung so alla kesia. Þu ert miñ Styrkur, Hiaalp

og

og Hlijf, Huggun, Frelse: J Eilijft Lijf, Hiedan munta mig hefia.

17. O min sæte Emanuel! O JEsu Gud og Madur! Vertu hia mier, So vegnar vel, Eg verd þa Syrgiande Gladur, Hia mier vertu i hverre Neyd, Hia mier vertu i Lijfe og Deyd, HErran min Hiart-Lofadur, Amen.

## 39. Psalmur.

### Um Underbwning JEsu Christi til hans Uppstigningar.

Ton, Halt oss Gud vid þitt hreina Ord.

†

EPter sijna Upprisu hier, Oss sem Ritningen þad seger, J Fiorutiju Daga dyr, Dvalde vor JEsus Millde-skijr.

2. A þeim Dogum vor DRotten ried, Daasemdum og Kienningum med, sijnum Postulum safna i Eitt. † Sem vid Hiord sær ein Hyrder breytt.

3. Vors Sæta JEsu Sveinarner, Sorgar-Stunder Fiorutijger, Epter han hofdu Andadan, J Grofene þa liggia van.

4. J Fiorutijger Daga dyr, DRotten vor JEsus Giæsku-hijr, Aptur nam gledia alla þa, A hverium tijdt þeir feingu han sia.

5. Epter Sorgena giefur Gud, Glede, Hugsvolun og Fognud, Epter vort Stundlegt Erfide, Eilijfa Hvijlld og Rooseme.

† 6. Ur Jerusalem wtleidde, Allra Sijdast vor

Lausnare, Læresveina sem Lettrū tioa, Liwfur allt til Bethania. †

7. Bethania sem auglioost er, Angistar Heim- kyñe þyder, Par nærre laa nu Lausnarañs, Leid, Er hañ stie til Himna-Rañs.

8. Mijn Saal þijn alltijd liggur Leid, Lijffens medañ þu hleypur Skeid, Um Sorgar Vegu all- marga, Upp i Dyrdar Sal Himnaña.

† 9. A Oliu-Fialled Elskufws, Uppstijgur DRo tteñ vor JEsus, Af hveriu hañ til Himna ser. † Huggun bestu þad giefur mier.

10. A þessu Fialle hafde hañ, Hallded sterkasta Bardagañ, Vid Daudañ fyrr og Diøfuls Ma- gt, Og dalsamlega þa underlagt.

11. Oss hvad hañ fieck þa afrekad, J þessum nu hañ byrter Stad, Sem er Himna-For Heime- fraa, Hverium er Nafn hañs trwa aa.

12. A Fialle þessu Frelsareñ, Fyrr hafde Tijd- um Natt-Stad siñ, Og sijnum Bænum wthellt þar, aadur eñ leid hañ Pijsternar.

13. Hefur Sañlega HErrañ þa, Himna For sijna miñst þar aa, Og þvi fw sare uppbyriad, Allar Pijsler i þessum Stad.

14. Af þvi Dyrdiegur Upp nu stie, Endurlaus- nareñ Blessade, Med Sigur-Hroosan i Himna Dyrd, Hver alldrei verda kañ wtskijrd.

15. Aadleg Himna-For Eftaust er, Ad bidia Gud a Jordu hier, Pvi þa er Hiartad Himnum a, HErranum JEsu sioalfum hiaa.

16.

16. Sæ þad giører, Vijst hefur han, Himna-
rijke æ allan Saa, J sijnu Hiarta, Hvar ed sws,
Herberge tekur sier JEsus.

17. Bænen hefur i Himenen, Hiartad, Sem
fadmar O Rotten sin, J hans Skaut sig inleggur
þar, Ødlast so Traust hans Myskunar.

† 18. Fyrr en HErran til Himna foor, Hans
nam en byrtast Elskan stoor, vid Postwlana, hver-
ia han, Med Hiartans Astsemd kvedia van.

19. Med lyptum Hondum Himnum ad, HErr
an vor JEsus giørde þad, Og Blessade þa alla
sen, Eilijfur Dyrdar Kongurenn. †

20. Af JEsu Hondum Blessan best, Byteft
og jafnan wtdeilest, Øllum Trwudum: Ein þeim
han, Abrahams Blessan veita kan.

21. Af Blessudum Sarum Handa hans,
Hijngad æ Jord til Syndugs Mans, Þeim Lijf-
sins Brunnum framflioota, Fegurstu Straumar
Blessana.

22. J Lijfe og Dauda eru hier, O JEsu! þijn-
ar Hendur mier, Blessan, Huggun og Hiælp-
ræde, A Himnum þær eg gladur sie.

23. J Lijfe og Dauda eg bid þig, J þijnum
Hondum geymdu mig, Þa eg dey HErra, Hond-
en þijn, J Himna Vist take Sælu nijn, Amen.

## 40. Psalmur.

### Um Siælfa Uppstigninguna, og Sess JEsu, Til Guds Hægre Handar.

Ton, Med Hymna Lag.

†

EPter þad JESUS hafde hradt, Heilaga Læresveina kvadt, vid þaa skilde, og var þad Sin̄, Med Vegsemd hædstu uppnumen̄.

2. Þeim Asiaaendum eitt Sky han̄, fraa Augum þeirra taka van̄, J Himenin̄ so upp þa foor, Endurlausnaren̄ JEsus vor.

3. Til Hægre Handar Himnum aa, Hædsta GUDS situr. † Vegsemd þa, af Adam komen̄ eingen̄ Man̄, aadur nie sijdan̄ hlioota van̄.

4. Athuga Saal mijn aattu hier, Endurlausnaren̄ stijgen̄ er, upp til Himnan̄a af Jordu, epter Man̄doomsins Naatturu.

5. Epter Guddoomsins Edle han̄, Upphefd neina ei hlioota van̄, Han̄ var GUD hædstur Himnum aa, Hefd kun̄e einga meire ad faa.

6. O! hvad gledur mig Auman̄ þad, ad i Himnesk̄an Dijrdar Stad, Holld mitt i Christo hafed er, Hvers eg maa lijka vænta mier.

7. Hofud mitt JEsus, HErran̄ min̄, J Himna Dijrd er uppstijgen̄, Mier han̄s Lim einen̄ hlotnast aa, Hofde mijnu þar vera hiaa.

8. Upp ad Himnenum i Skye, Auglioos lega vor DRotten̄ stie, Valld og Dijrd JEsu vottast hier, Vagn han̄s til Himens Skyed er.

9. Eg þegar lypte Augum mijn, J Skyen̄, DRotten̄ min̄ til þijn, Jafnan̄ giore eg ad þeynkia þa, Þig mune eg gladur lijta faa,

10. Aptur koma a Efsta Dag, J Skyunum med Dijrdar Hag, hafande Virding Volldyga, og Veglega Samfylgd Englaña.

11. Ad eg verde þa Vidbweñ, veite mier helgur Ande þiñ, Og med þier sialfum Sigre ad naa, Sætaste JEsu Himnum a.

12. Nidur af Himnum hijngad kom, HErrañ JEsus i Fatækdoom, og i Pioons Mynd hier um̃gieckst hañ, a Jordu medañ dvelia vañ.

13. Eñ til Himens hañ upp stijgur, aptur sem HErra Dijrdlegur. Soddañ Vijte vid Born sijn hier, Blessadur DRottenn eñ giorer.

14. Af Pioonum giorer Herra hañ, af Hrygdsarfullum, Gladværañ, af Kross-þioskudum Eymda frij, Ast hañs og Naad so skickar þvi.

15. J skapadañ Himen ecke er, a hverium livomar Stiarna Her, Endurlausnareñ uppstijgeñ Oss sem lioost kieñer Ritningeñ.

16. J Eilijfañ Himen, Eilijft Hws, Jñgieck Frelsareñ vor JEsus, J þa Tialldbwd, Hver eige er, af Hondum bygd, Sem Skrifteñ tier.

17. Þesse Himen er Hefd og Dijrd, Hver alldrei verdur noog wtskijrd, Utvalldra Stadur Eilijfur, Eilijf Glede og Fegnudur.

18. Adam lokade aptur fyrst, Aumlega þa hañ syndgadest, Himnenum fyrer ollum oss Eilijft so mistum Dyrdar-Hnoss.

19 Sa Añar Adam af Himne, J siñe Dyrd nær þangad stie, Upplauk Himnenum ollum oss:

Eilijft

Eilijft so hrepptum Dyrdar-Hnoss.

20. J þa Sæluñar Sælu-Vist, Señ leid mig HErra JEsu Christ, J Voneñe er eg hjaa þier, A Himnum medañ þad ei skier.

21. Þar lifa aller Utvalder, Einglum Heilögum samlijker, J Dyrdeñe sem alldrei dvijn, Eingeñ snerter þa Hrygd nie Pijn.

22. Ei hefur nockurt Auga sied, Ei nockurs Hiarta fullskiled, Hvad stoora Glede Himnum aa, Hjaa Gude Utvalder þar faa.

23. Eñ skalltu Saal mijn athuga, Um̃ JEsum Christ þiñ Frelsara, Ad til Guds Hægre Handar hañ, A Himnum situr, Þo sem Mañ.

24. Gud er eiñ Ande og til Sañs, Ei hefur Holld nie Lime Mañs, Almættes Stioorn hañs Eilijf er, Ædsta Guds Hönd, Sem Skrifteñ tier.

25. J þeirre Stioorn ad Eilijfu, Epter Mañslegre Naatturu, Rædur JEsus, hvers eingum añ, Allstadar Nærverande Mañ.

26. J Himeñs og Jardar hverium Stad, Og Helvijte eins giorer þad, Epter Mañdoomsins Magt, sem er, Med deilld honum, þar ei af ber.

27 Gled þig nu Saal mijn, Gled þig hier, Guds Sonur sem þiñ Brooder er, A Himne og Jordu hañ stioornar, Hañ er og med þier Allstadar.

28. Oteliande Guds Eingla Her, Efalaust hefur fylgst med þier, Þegar þig hoofst i Himeneñ, Med hædstre Vegsemd JEsu miñ.

29. Nær eg helld mijna Himna-Ferd, Hiedañ

þa

þa burt kalladur verd, Ædstur mijns JEsu Eingla Her, Ei mun þa verda langt fraa mier.

30. Mijna Önd þeir medtaka þa, Mædst sem ad hefur Jordu aa, J Abrahams Skaut þeir bera blijdt, Hvar bwed er Sælu Plaatzed friidt.

31. O Sæte JEsu! Jüleid mig, Um þad af Hiarta beide eg þig, Pa Endast Stundleg Tymden mijn, J Ævarande Dyrd til þijn.

32. Heidur, Speke, Walld, Wegsemd, Dyrd, Witska, Styrkur og Lofgiörd skijrd, Sie þier O! JESU CHRJSTE klaar, Kongur Dyrdar um Eilijf Ar, A M E N.

## EJNN PSALMUR
### Ut af
## Upprisu Historiunne /
### Ordtur af
## Saal. Sr. Hallgrijme Peturssyne.

Ton, Giæskurijkaste Grædare minn.

HJartad fagnar og Hugur minn, HErran JEsus er Upprisenn, Kvol þo aa Krosse ætte, Aarla Sunnudags er þad skied, adur enn Soolenn lijsa ried, af Guds Dyrdar Almætte, Pydur, Friidur Engill kiemur, Kraptenn fremur, Klaart eg greine, af Grofenne vellter þeim stoora Steine.

2. Jardskialfte mestur skiede þar, Skiærasta Lioomaa Engill bar, Wardmenn þa soddann saau, Otta mykluny

myklum yfer þa sloo, Afl og Styrkleika fraa þeim̃ Droo, Lijka sem dauder laau, Pegar, Vegar, Lioosed skapta, Lijfsens Krapta Loksens feingu, Heim i Borgena Hryggver geingu.

3. Hofud-Prestana hittu señ, Hermdu oll þesse Tijdendeñ, Hiner þeim hietu Saafum. Seged ad Læresveinarner, Sooktu Lijkamañ burt med sier, Pegar vier þreytter svaafum, Hrader, Glader, Giallded þiggia, Par ad hyggia, Sijdañ sogdu, Lijka sem Judar þeim Raadeñ logdu.

4. Adur eñ Dagureñ uppran klaar, wtgeingu af Stadnum Kviñur Priaar, Maria Magdalena, Mooder Jacobs hins miña var, Med þeim lijka Salome þar, Pær hugdust Christo þiena, Hryggvar, Dyggvar, Lausnarans villdu, ad liwfre Skylldu, Lijked smyria, Hvor ried adra þa hlioott ad spyria.

5. Hver mun burt vellta hordum Stein? Hind rar sa ofs aa marga Grein, Pegar sem litu þaangad, Opeñ stood Grof, Eñ Eingell var, Alhvijtu klæddur Lijne þar, Hrædsla ried Hiartad fanga, Hlioodar, Moodar, Hryggvar Kviñur, Sagde sviñur, Syrged eige, Uppriseñ Jesum eg ydur seige.

6. Kviñurnar gladar geingu heim, Grædareñ JEsus mætte þeim, Seigiande: Vered Sælar, Pær fiellu sijdañ fram̃ til Sañs, A Fætur kystu Lausnarans, Hañ ried hlijrlega ad mæla: Eg bid, Ad þid, Mijnum blijdum, Brædrum þiidum, Braatt þad iñed, J Galilæa þier fyrst mig fiñed.

7. Magda-

7. Magdalena a medan ser, Miog fliott þangad sem Petur er, og Johanes med honum, Sagde Lijkaman sælastan, sia hverge eg nie fiña kañ, Burt tekeñ vær hañ vonum, Bæder, Piaader, Undrast þetta, Er þad frietta, og an Tafar, Ut þangad geingu nu øll til Grafar.

8. Fyrstur Johañes framkom þar, Fornam ad Grofeñ opeñ var, Petur þa greitt Iñgeingur, saa þar logd Lijn Klædeñ miwk, Lijka og JEsu Sveita-Dwk, Forundran af þvi feingu, at skiott, og fliott, Aptur snwa, og þvi trwa, Øllu ad soñu, Burt mune Lijked bored af Moñum.

9. Standande Maria wte stood, Iñ i Grofena horfde Fliood, Einglum Tveim gaf ad Giætur, Vard hun nu hrædd, og vidleit þa, Vaktarañ Gardsins hugdest sia, Hañ spyr strax hvad hun grætur, Hun kvad, hellst þad, Miñ HErra þijdur, Hiartans blijdur, hier fiñst eige, Efned Sorgar eg þad seige.

10. Hafer þu bored hañ burt med þier, Bid eg ad HErra seiger mier, So ad hañ þangad sæke, Madureñ svarar: Maria, Meistare sagde hun aptur þa, Ei leyfde a sier tæke, Øll Hrygd, og Stygd, snijst i Glede, skiott þad skiede, Er Christum kiende, heim til Postula hana sende.

11. Hun kom strax og heim kuñgiorde, Christur af Dauda riseñ sie, Adburde alla sagde, hinar Konurnar hermdu med, Hefdu þær lijka JEsum sied. Lijfs og i lijwfu Bragde, Petta, Rietta, Vi-

kn

ku hielldu, Hug siñ hrelldu, HErrans Svemar, Sioon Hverfingar þad søgdu einar.

12. Til Emaus geingu einer Tveir, Um̃ HErrans Pijnu tala þeir, Pad skiede a þessum Deige, Eñ so til bar sem seige eg fraa, siaalfur JEsus naalægdest þaa, Po ad hañ þeckti eige, Hañ spyr, Hugkyr, Hvada Hialed, Hrygdar Taled, hafed Brædur? Cleophas ansar med kløckre Rødu:

13. Ertu eñ so Okiendur Mañ, J Jerusalem ad Giørning þañ, Sem er fyrer skom̃u skiedur, Veistu ecke? Eñ hañ spyr ad, honum Cleophas sagde þad, JEsus sem oss var medur, Hædstur, Ædstur, Af Spaadooms Ordum, og Glæsku Giørdum, Fyrer Gude og Moñum, A Krosse deyddur, Pad siaalfer soñum.

14. Eñ nu i Morgun aarla vijst, aadur eñ fieck af Deige lijst, Kviñur fraa oss wtgeingu, Lifande søgdust lijta hañ, Lijklegt þad eingum virdast kañ, Felmtur þvi aller feingu, Heimska, Gleymska, kvad þaa bæda, Kongur Daada, kiende sijdañ, Christur so hefde hloted ad lijda.

15. Alla Ritning wtleggia ried, Opnade þeirra Hugskot med, Skriftena gløgt so skilia, Kauptuned aller naalgast nu, Nær þvi endud var Leideñ sw, Gaanga liest leingra vilia, Beiddu, Neyddu, Christ ad bijda, Kvaadu Lijda a Kvølldeð næsta, Jñ med þeim geingur Milldeñ hædsta.

16. Settest til Bords og Brauded þar, Blessade sem hañs Sidur var, Og sijdañ ad þeim riette,

Bæder

Bæder i Señ hañ þecktu þa, Þeirra Sioonum hvarf burtu fraa, Harme wr Huga lietta, Hrader, Glader, Postulum hinum, HErrans Vinum, hier fraa segdu, Eingañ Trwnad þeir aa þad logdu.

17. A somu Stundu þad so til bar, Siaalfur JEsus var komeñ þar, Og midt i Mided stendur, Þeim Oskar Fridar þessu næst, Þa var Dyrunum aptur læst, Siaa liet aa siinar Hendur, Eñ þeir, Þvi meir, Urdu fegner, Ottaslegner, Og þvi trwa, Græt riede ollum i Glede snwa.

18. Ecke var Thomas þa med þeim, Eñ þegar seirna hañ kom heim, Þeir sogdu allt hid Saña, Alldrei trwe eg hañ ansa ried, Utañ ad Nagla Foreñ sied, Faae med Fijngre kaña, Lidu, Bidu, Atta Dagar, Dyrdar hagar, DRotteñ sætur, Ad luktum Dyrum kom milldur mætur.

19. Hiaa þeim stood HErrañ hijr i Mid, Hier næst Thomam so Rædde vid, Og vill hañ verde Gladur, J Nagla Foreñ laat Fijngur þiñ, Fliootr legg mier Hond i Siidu iñ, Vertecke Vantrwadur, DRottiñ, Gud miñ, Sagde Dyggur, Trwar tryggur, Tvijbureñ frijdur, Aptur JEsus þa ansar blijdur.

20. Sañlega Thoma trwder þu, Tilsynd miñ þessu olle nu, Og eg eñ framar sege, Sæll er sa hver mig sier ei hier, Samt þo af Hiarta treyster mier, Huggun so hliioota meige, Fleire, Meire, Jard teikn hrein, Fyrer siinum Sveinum, Siidar giorde, Oll þo ad greind hier ecke verde.

21. Vid Genezareth Vatned brätt, Voru þeir þa ad Fiske-drätt, Eñ sig Opeñberade, Petur adspurdur Prisvar þar, Þvi jatade sem Vonlegt var, Ad hañ JEsum elskade, Bydur, Pijdur, Lijfsins Braude, Sijna Saude, Simon fæþde, Um hañs Dauda og Utfor ræþde.

22. Fioruttiju Daga DRottteñ ried, Oveliast hier Læresveinum med, Epter Uppriſu dijra, Til Himna upp sijdañ hiedañ stie, Hiaa Hond Fodurs Almaattugre, Situr vor Hialpeñ hijra, Amen, Amen, Allar Tijder, Lofe Lijder, Lausnarañ Gooda, Honum skal jafnañ Heidureñ biooda,

AMEN.

# A Vppstigningar Hatijd HErrans Christi.

## Lof-Saungur,

Med Lag, Christur reis upp fraa Daudum.

CHristur til Himna uppfoor, Sitiande hatt yfer Eingla Koor, og giefur oss Giafer aa alla Lund, Honum sie Heidur aa hverre Stund, Kyrieleis.

2. JEsus uppstijgande, oss af Himnum sende, Heilagañ Anda Huggarañ, Af Hiarta skulum prijsa hañ, Kyrieleis.

3. Hiaa Guds Hende Hægre, hatt situr vor Lausnare, Og Fridar oss vid Fodur siñ, Frelsar og

og verndar allt Mannkyn, Kyrieleis.

4. Ef han ei uppfære, ei kiæme sa Huggare, HErran JEsus af Heime gieck, Heilags Anda Giof sijnum fieck, Kyrieleis.

## Barna Lof-Saungur aa Upp-stigningar Dag.

I Dag er Christur Uppstijgen, Alleluja, J Dijrd sijns Fodurs Jngeingen, Alleluja.

2. Hver med Kvøl sine sarustu, Alleluja, Synder þvoðe af Verølldu, Alleluja.

3. Mestu veitte oss Aumum Ast, Alleluja, Ei maatte nein þvilijk faast, Alleluja.

4. Þvi rijker hnu sa Sigrare, Alleluja, Samjafn Fodur i Almætte, Alleluja.

5. Og wtvegar oss Aumum Lyd, Alleluja, Af sijnum Fodur Raad og Frid, Alleluja.

6. Þier Men wt af Galilea, Alleluja, Þvi vilied upp i Himenen siaa, Alleluja.

7. Sem han stie upp fraa Heime hier, Alleluja, Hijngad aptur komande er, Alleluja.

8. Af þessum mesta Sigre sie, Alleluja, Sjnnged Lof, Gude i Christnene, Alleluja.

9. Heilagre Þrenning hædsta Dijrd, Alleluja, Af Hiarta seigium og Þackargiørd, Alleluja.

## Annar Psalmur,

Med sijnum Ton.

NU er aa Himne og Jord, Haatijd Fagnadar full, Sijnge þvi sana Lofgiord, Syne Guds

Christneñ oll, Drotteñ med Dijrd siñe, Dyr Himna opnade, Ofs aumre Pióod, af sætre Naːd.

2. Eingeñ Tunga i Heimi, um̃ þañ Fognud og Tign fær, Diktad sem a Deige þeim, Dijrdlegast byrtur var, Riettlætes saña Sool, Son Guds a Himna Stool, Med Einglá Her, Uppstijgeñ er.

3. Hañ hefur vissañ Veg, vijsad ollum upp til sijn, Al Trw̃ñe mun liggia miog, Madur vel giættu þijn, Alla Guds Naad og Gooz, giefur riett Trw̃añ ofs, Vatn, Ande, Blood, votta þad Piood.

4. JEsu vier bidium þig, Ad i þessum Eymdar Dal, Fylgd þijn, og Naad Fodurleg, forde ofs Vijtes Kvol, Pitt Lam med Packargiord, þiggia lat ofs hier a Jord, Gief ofs Gyrnd þa, þier verda hiaa.

5. Eins sem fyrre fra Jord, foorst þu uppa Himna hædst, Med Valld og mestu Dijrd, munt þadañ aptur siaast, a Doomsins Deige þeim, sem Einglar sogdu Heim, Tign og Ast þijn, Ofs forde Pijn.

6. Eiñ Gud, Po Preñe med, Pig af Hiarta lofum vier, Ad ofs hefur Auma sied, af Millde tookst ad þier, Vid hreina Trw ofs hallt, So hliootum vier þetta allt, Vert þu vor Hlijf, veit Eilijft Lijf.

## Ein Andleg Vijsa, um̃ Christi Uppstigning,

Vid Ton, J Dag þa Hatijd holldum vier, etc.

EG trwe a Gud Eilijfañ, og hañs Son JEsum Christum, Ad frelsad hefur fyrer hañ, Foolk sitt af

af ollum Lostum, Trwe eg ad han til Himna stie, bliijfe og til sijn inleide, Oß sem nu a han treystum, Alleluja, Alleluja.

2. Eg trwe, vid Guds Hægre Hond, han sitie jafn i Vallde, Sundurbrijtur oll Satans Bond, ad sine Christne hallde, Fra Eymd Heimsins og allre Pijn, Oß leid i Himna upp til þijn, JEsus med þine Millde, Alleluja, Alleluja.

3. Eg trwe, Eins sem uppstie han, aptur kome og dæme, Hvol sw leinge ei dragast kan, Dulen þo Stund sie Heime, Teiknen þaug oll sem skylldu skie, skilium og siaum endud sie, Po flester þessum gleyme, Alleluja, Alleluja.

4. Allt helldur þetta Heimur Spie, Hæler sier miog i Maale, Ad sijna Glæpe audvirde, An so Veralldar Taale, Pan Hefndar Dag ei hyxa vill, Hormung eilijf sie þwng og ill, Ydran Ogylld i Baale, Alleluja, Alleluja.

5. Uppstigning JEsu er i Dag, Alment um Heimen vijda, Marger ydka þo anad Lag, Una Syndum og hlijda, Brwdkaups Klæde ei a þeim er, Eflaust: Hvad i Dag swngum vier, munu þeir minast sijdar, Alleluja, Alleluja.

6. O Gud! Laat þu vor Ord og Lund, Eins i Sanleika hlioода, So hyxum opt þa Sijdustu Stund, Siaum vid Andar Voda, Sem Skijed adur upptook Christ, Oß flytie in i Himna Vist, Gud giefe oß han Gooda, Alleluja, Alleluja.

## Lof-Saungur wt af Uppstigning-ar Historiuñe.

Ma siungia sem, Christnum siunge nu sætlegt Lof.

FErtugasta Dag Paaskum fraa, Frelsareñ stie til Himna þa, Sijnum Lyd safnar aa eitt Fiall, Uppfylld var Stiett og Verk hañs øll.

2. Hañ sagde: Nu er endad allt, hvad i Ritning um̃ mig er mællt, Spaamañaña og Moysi, Margt kiende þeim þar skrifad i.

3. So hiaut ad skie um̃ sialfañ Christ, saarañ Dauda ad þylde fyrst, Pridia Dag rise Daudum fraa, Dijrd sijna iñ ad gaanga þa.

4. Bæde aa Himne og aa Jord, er mier giefed allt Valld og Dijrd, Ande miñ kieñer ydur þad, Af þvi vitned i hverium Stad.

5. Gaanged nu wt og Prediked, Øllum Heims Þioddum Gudspialled, Skijred so verde Syndeñ kvitt, So skal uppbyggiast Rijked mitt.

6. Hver Trw og Skijrn i Heime nær, Himneska Sælu sijdañ fær. Hver Trwñe vill ecke taka vid, Tapast og siñur alldrei Frid.

7. Allt þad sem hafed heyrt af mier, Heilagre Christne kieñed þier, Eg æfeñlega med ydur er, epter Giof miñe bijde þier.

8. Hendur sijnar þa hoof hañ breitt, hiedañ foor upp i Himna hætt, Postular litu Lopted i, leidde hañ þeim fraa Siodnum Sky.

9. Hvijtklædda Meñ þeir hittu Twø, hiaa sier standa er mælltu so: Galverskir Meñ þvi undrest opt,

opt Yfer herfande hautt i Lopt?

10 JEsus sem upp fraa ydur stie, er aa Hægra Vea Tigneñe, Eins sem hañ stie til Himna hier, Hingad komande aptur er.

11. Nu situr hañ i siñe Makt, Syne Guds allt er under lagt, Hañs Rijkes Stioorn er Orded sitt, Af Gafum hañs pad verdur prijdt.

12. HErrañ opnade Himna Dyr, J Hæd stiigande ollum fyr, Med sier Faangadañ færde Lyd, Fridar Stioorn helldur allañ Tijd.

13. Aptur kiemur aa Effsta Doom, Aller vakña vid Luudurs Hlioom, Blessudum Lombum bijdur Frid, Bolvan eilijfa hreppa Kid.

14. Med Hug og Hiarta Christe kiær, Kom̃u þiñar opt væntum vær, Leys oss JEsu og leid til þijn, Fraa Lijfs og Andar Eymd og Pijn.



# Aññar Partur

þessarar Psalma-Bookar, Jñehalldande LofSaungva aa Hvijtasuñu um̃ H. Anda Utsending, Embætte og Astgiafer; A Trinitatis Hatijd, Jons Messu, etc. Item Psalma wt af Fim̃ Hofud-Portum Catechismi.

# Umm þañ Heilaga Anda

## Psalmar og Lof-Saungvar.

Hymn. Veni Creator Spiritus.

D. Marth. Luth.

KOm Skapare Heilage Ande, i Hug og Hiarta Trwadra nu, Hinneskre Naad uppfyllande, Hiortuñ þau sem ad skapader þu.

2. Eiñ Huggare sem alldrei bræst, Ertu og Guds Fodurs Giafa hædst, Lifande Bruñur Elld ur Ast Andleg Smurning allrar Naadar stæst.

3. Lof þirt i vorum Hug uppkveik, Ast seind þijn ætijd sie i oß rijk, Eydande Holldsens Ostyrkleik, Ast veite oß ollum Giafañ slijk.

4 Siöfolld er oß þijn Astgiof kiend, Eiñ Fijngur ert þu a Guds Hægre Hend, Kroptug Lofun af Christo send, Kieñande Tungumaal um̃ oll Lond.

5. Rek fra oß Satans Svik og Raad, Send þu oß nu þiñ Blessada Frid, Leide oß so þijn eilijf Naad, Ad allañ Voda vel skiliunst vid.

6. Siaalfañ Fodur og Son hañs nu, So þeckium: Veit oß Vitsmune, Og beggia þeirra Ande þu, Ætijd gief ad vor Trw stodug sie.

7. Soñum Fodur og Syne mest, Sie Lof, Dyrd, Heidur, Vellde traust, Og Helgum Anda sem huggar best, Hvad um̃ Allder verde Endalaust.

Nu bidium vier Heilagañ Anda,

Odruvijs wtlagdur.

D. Marth.

## D. Marth. Luth.

HEilagan̄ Anda ackøllum nu, Og bidium han̄ hellst um̄ rietta Trw, Ad vernde oss og geyme, Um̄ Æfe vora, Og wr aumum Heime, J Fride laute fara, Kyrieleis.

2. Pu Helgasta Lioos, Upplioome oss hier, Ad alleina JEsum þeckium vier, Hiaa þeim Lausnara vorum, Laat oss blijfa, Sem fylger oss ad forum, J Fodur-Land eilijfa, Kyrieleis.

3. Pu sæta Ast, Send oss þijna Naad, So uppkveikest i oss Kiærleiks Daad, Ad af Hiarta hreinu, Hvor odrum un̄e, J Samlynde Einu, Og Frid blijfa kun̄e, Kyrieleis.

4. Pu hædsta Huggun, J allre Neyd, Hiaalpa oss so ei hrædunst Smaan nie Deyd, Og Trw alldrei breste, J vorum Huga, Nær Ovinur veste, Vill oss yferbuga, Kyrieleis.

## Ein̄ Bænar Psalmur til Heilags Anda.

## D. Marth. Luth.

KOm HErra Gud Heilage Ande, Med hædstre Naad uppfyllande, Pin̄a Trwadra Hiortu, Hug og Gied, Heita Astsemd þeim kveiktu med, HErra Gud fyrer þitt Lioosed skiært, J Trw rietta sieckst saman̄ fært, Ein̄ Lyd af ollum Heims Tungum, Ad þier Gude til Lofs syngium, Alleluja, Alleluja.

2. Blessada Lioos og besta Saad, Byrtast laat oss þijn Lijfsens Naad, Kien̄ þu oss riett ad þeckia

Gud vorn, Þess Fodurs oss ad jaata Born, HErra Gud vernde oss Villu fraa So Vitsku adra ei gyrnunst aa, Eñ trwa riett aa Guds Son, af Hiarta ollu til hañs hafa Von, Alleluja, Alleluja.

3. Heilage Elldur Huggareñ sæte, Hiaalpeñ þijn jafnañ ad oss giæte, Fram̃ ad hallda Þioonustu þiñe, Þrauter eingvar ad oss line, HErra Gud fyrer þiñ hærsta Maatt, Hollds Veikleika vorn styrk þu braatt, Riddaralega svo reynder hier, Rijke þitt sijdar feingium vier, Alleluja, Alleluja.

Hymn. Beata nobis Gaudia.

Um̃liðed færde oss Ared hier, Aptur þañ Fognud sem mestur er, Þa Huggunar Ande med Helgre Grein, HErrans Postula yfer skein.

2. Logande Elldur lioomar þa, Lijking Tungna beim byrtest aa, Ad Ordfære þeim auked sie, Og so Kiærleikur breñande.

3. Toludu allra Tungna Hliood, Took þad ad undrast Heideñ Þiood, Oldruckna sumer ætla þa, Sem Ande Heilagur bygde hiaa.

4. Fram̃kom þetta Fyrerheit þar, Fraa Paaskunum þa lideñ var, Heilagra Daga Tala riett, Sem Logmaal hefur til Lausnar sett.

5. Audmiwkleganа aller hier, Eilijfe Gud þig bidium vier, Himneska Giof Heilags Anda, I Hiortu vor þu virdest senda.

6. Hiortu Trwadra helgud nu, Himneskre Gaafu sadder þu, Vorum Syndum oss frelsa fraa, Frid þiñ lauttu oss halldast hiaa.

7. Hædst

gott i Heime, og Jordu, ad stode jafnt vid þig, eg gledst af Elsku þine, Ei sine eg um allt anad hitt, en þo Holldad og Lijfed mitt, til fulls tijnest og line.

12. Sane Gud ert mitt Saalar Traust, Sæla og Langgiæd eiga, hverier sem vid þig hallda laust, Heill og Naad missa meiga, Hverier sem fra þier Hooraſt nu, Hefnd og Kvol grima veiter þu, hier og þar æfenlega.

13. En þad mitt Hiarta hyllest Gud, helld mier Glede eilijfa, en mijna Von i allre Neyd, a honum læt eg blijfa, Ad Dijrd Guds, Lof og Dasemder, Daglega ollum byrte hier, medan mig lætur lifa.

Fodur Syne og Anda sie, ædst Dijrd, etc.

## 7. Psalmur.

Ton, Være nu Gud oss ecke hia.

AF Þier DRotten er oll mijn Von, af Ovinum mig leyser, Ad griype ei mijna Ond sem Lion, ef eingen mig vid reyser, HErra min hafe eg so breitt, med Hondum mijnum giort Orett, stygt han, mig Fridar sijser.

2. Og hafe eg min Mootstodu Man, moodgad an fullra Saka, Saal mijna þa offæke han, svo hana kune taka, Til Jardar nidur trode han Lijf, Tign mine veite eingva Hlijf, Þar til i Dupt kan þiaka.

3. HErra rijs nu og upphef þig, yfer Ovina Bræde, aptur i Stiett þa inset mig, J hverre baudst eg stæde, So til mijn Foolked safne sier, Sokum þess ad vinest mier, aptur koma i Hæder.

4. Doomare

4. Doomare allra DRottenn er, dæm þu umm mitt Riettlæte, Afkiesd Gudlausra endast hier, O- sekur Lidsemd mæte, Hiortun og Nijrun þecker þu, Þvi siert minn Skiolldur HErra nu, sem Prwdsinn- adra giæter.

5. Riettur Doomare DRottenn er, Daglega Ogn þvi giefur, Vilie nu Menn ei sicæ ad sier, sijnu Sverde rykt hefur, Boga sinn spent og bwed hann, Banvæn Skeyte ei vanta kann, Handvijs þa Hefndenn kiemur.

6. Giæt þess hvernenn sem Gudlaus Mann, grimm Raad hefur i Sinne, stoora Olucku stofna kann, Stad þo þad eingvann vinne, Opnade Grofeg od- rum bioo, J hana siælfur fellur þo, Svikræde sijn ad sinne.

7. Olucka sem hann odrum bijr, æ hanns Hofud mun detta, Ofann æ Hvirfel honum snijr, Hefnd sinna Jllsku Þretta, HErranns Riettlæte hroosa eg, Hanns Nafn lofa æ allann Veg, og þacka honum þetta.

Fodur Syne og Anda sie, ædst Dijrd, etc.

## 8. Psalmur.

Med sama Lag.

DAsamlegt Nafn þitt DRottenn er, Dijrdlege umm Verolld vijda, J Himne Menn ad þacke þi- er, þu tilbioost Lofgiord frijda, Fyrer Barna Munn sem sinnga Briooft, so þad Ovinum verde lioost, Mood og Hefnd mætt ei lijda.

2. Hvenær sem eg þijn Handa-Verk, Himna

og Tungled skoda, Og hañ skapader Stiernum Styrk, stoora Undran mier boda, Hvad er Madur ad miñest hañs? Mikels þu virder Soneñ Mañs, Veglega villt hañ sida.

3. Fra Augsioon Guds og Eingla Hyrd, Uñ litla Stund hañ lætur, siidañ Kryner med Sæmd og Dijrd, sa Heidur er ægiætur, Hañ hefur þu eiñ Herra sett, Hver øll þijn Verk ad eignast riett, Allt lietst under hañs Fætur.

4. Saude, Naut og allt añad Fied, og Dijr sem veida kuñe, Fugla Loptsins og Fiska med, sem fara æ Siaafar Gruñe, Dæsamlegt Nafn þitt O Rotteñ er, Dyrd þijn uñ allañ Heimeñ hier, ei verdur sogd med Muñe.

## 27. Psalmur.

Ton, Natturañ øll og Edle Mañs.

O! Gud þu ert mijn Adstod fliot, Upplijsing og Lijfs Kiæte, Allra Mañrauna einka Boot, Offsooknum þo eg mæte, Syrgia skal ei, nie siña þvi, slijkt kañ mig alldrei hrella, Ovinirner, sem mygia mier, munu sig þar med fella.

2. Herlid þo rijse moote mier, mun ei þar kuña ad granda, Hoop mitt, Trw Von og Traust a þier, Tæallaust skal jafnañ standa, Eins Hlutar Gud þig giarnañ bid, eg gyrnest hañ alla Vega, J Hwse Christs, Þar Hlijfd er viss, Hvijld fæe eg æfeñlega.

3. Hañs Musteris so mætte eg, med Hiartans Glede vitia, Komeñ æ sañañ Vitsku Veg, vid hañs

hañs Pioonustu sitia, Under Vængium hañs, er viist til sañs, Vernd mijn þa Reideñ kiemur, Biarge vill ai, mier Bwstad sai, burt frai Sorgum mig nemur.

4. Hañ mun sañlega hefia mig, af Hond Ovina miña, Offur besta, Bæn audmiwklig, Boot Harma kañ mier viña, Akalled mitt, mun Eyrad þitt, Efalaust vel medtaka, Pijns Andlitis til, eg vitia vil, Vondt kañ mig þa ei saka.

5. Fridar Asiaan ei frai mier snw, Faaraadum Præle þijnum, J Bræde mier ecke burt hrittu, Biorg mijn er hiai þier einum, Forlaat mig ei, Miñ Fader ertu, fyrr mig ei Hende þiñe, Foreldrarner, sooru frai mier, fieckstu Hiaalp Æfe miñe.

6. Vijsa mier Fader Veg þiñ a, vijk miñe Ferd til Greida, Ovinum mijnum frels mig frai, fullvel kañtu þeim eyda, Von mijn er sw, traust Boon og Trw, ad tiaaer mier Goodvilld saña, Eg mun vijst, jai, JEsu Dijrdlsiai, a Jord Lifande Maña, Am.

## 117 Psalmur.

Ton, Blijde Gud Børnum þijnum ei gleym.

LOfed Gud, Lofed og hver sem kañ, giorvoll Piood, Jai giarnañ heidred hañ, Aller Meñ um allañ Heim, Ætiid hañ prijse, Dijrd Allsheriar DRottne þeim, Dag hvern auglyse, Af þvi hañs, Ædst Myskunseme, Kyne Mañs, kuñ er i Heime, Sañleikans, so Trygd ei gleime, fost og traust i Ast ai oss, Eilijfleg, eilijfleg, eilijfleg Vist, er Haleluja, Eilijfleg, eilijfleg, eilijflea Vist, er Haleluja.

## 148. Psalmur.

Ton, Oll Christneñ gief ad Gaum.

PJer Himnar hefied Dijrd, ad hun sie DRottne skijrd, Lofed hañ i Uppħædum, hrooſed hañs Makt og Giædum, Her hañs og Einglar aller, Æ lofe hañ giorvaller.

2. Seig þu Lof Sooleñ skiær, sierhver Stiarnañ fræbær, Lofed skal lijsa og greina, Lofe hñ Tungled hreina, Himnar yfer og under, allar lofe hañ Stunder.

3. Veglegt þar Vatna-Safn, Vijdfræge DRotteñs Nafn, fræbær Fegurdar Smidur, fullgiort er hvad hañ bijdur, Hañs Skickun Takmork hallda, hañ rædur um Allder Allda.

4. Hañ lofe Haudred blijdt, Hvaler og Diwped vijdt, Elldur, Hagl og Snioor hvijtur, Ude, Stormur sem þijtur, Hverier Guds Bodord heyred, og hañs Skipan so giored.

5. Hælsar og hæu Fioll, heidre þier DRotteñ oll, Eykurnar ecke sijdur, og allskins Cedrus Vidur, Fuglar, Skoog-Dijr, Fienadur, Fiolde sem um Jord skrijdur.

6. Herrar um allañ Heim, Hereñ allur med þeim, Þier Hershofdingiar aller, Og so Doomendur snialler, Yngesmeñ, Meyar allar, Ungborn og gamler Kallar.

7. Allt þetta skylldugt skal, med skijrt Lofgiordar Tal, Hañs Nafne Heidur greida, HErrañs Lof vijdt wtbreida, Allt yfer Himna alla, og Jordena giorvalla.

8. Sijns

8. Sijns Lyds upphefur Horn, Hiartaũs Frelsara vorn, O þier Israels Syner, Aller haũs Pioonar hiner, Syngded Lof aller samaũ, Sætt Alleluia, Amen.



# Fiorde Part-

UR PESSarar PSALma BOOKar, Hefur iñe ad hallda Fimtiju Hugvekiu Psalma, Sem ordt hefur Saaluge Sr. Sigurdur Jons-Son.

## Fyrste Psalmur
## Uũ rietta Pecking Syndareñar.

Ton, Hallt oss Gud vid þitt hreina Ord.

O Gud Heilage HErra miñ, Hefe eg aumur Prælleñ þiñ, Synda Eitur so iñ drucked, Eins og Jord Vatne tekur vid.

2. Viist er mijn Synd wr Maata miog, Morg Ung, Gomul og Svijvirdeleg, Eñ þijn Reide sax Elldur er, Ogudlegum sem fortærer.

3. Riettlæted allt sem orkad gat, Er sem Bloodsiwkrar Kviñu Fat, O! hvad Raanglæted illt og frekt, Er þa fyrer þier svijvirdelegt.

4. Liooſed medaũ i Myrkre er, Mikla Byrtu þad giefur af sier, Eñ þegar Sooleñ a þad skyn,

Alla misser þad Geysla siin.

5. Eins er þad margt i Athofn Mañs, ad Alite Hæðsta Doomarañs, Ofullkomed og einskis vert, Er vier þo meintum heilagt giort.

6. Hvar mun eg aumur Frelse faa? Po flyia villde eg i Himeneñ haa, Pa er þar fyrer utañ Ef, Er eg so Tijdum stygdañ hef.

7. A Jordu er hvergé Hæle hier, HErrañs Sklepnur þær myia mier, Med þvi eg hefe moodgad hañ, Miñ og þeirra Gud Skaparañ.

8. Alsokun Heims er hørd og stoor, Himeñ, Lopt, Jord, Vatn, Elldur, Sioor, Einglar Samvitska, Satan señ, Og sialfur Gud klagar vonda Meñ.

9. Hver maa vid slijku reisa Rond, Riettlæted staar aa adra Hønd, Pegar allt þetta amar ad, Ecke er synt uñ Grida Stad.

10. Glæpugum þeim sem girnast Raad, Giefur Salomon heilnæmt Raad, J Biargskorum sig fele flioott, Flyia vil eg nu þangad skioott

11. Biarged þad sem hañ seiger hier, Sialfur JEsus vor DRotteñ er, Skorurnar eru Under hañs, J þeim er Hæled Syndugs Mañs.

12. Lijfsens Uppspretta er þar Ein, Øll koñ su græda Daudleg Mein, Svala Dryck fiñur Þyrst ur þar, Þvotta Laug hiñ sem Obreiñ var.

13. Par vil eg koma þiaadur Þræll, Par vil eg felast JEsu sæll, Medañ Guds Reide fram hiaa fer, Fiy eg til þijn þu tak vid mier.

14. Ecke þarf eg ad Ottast þar, Aklogun Guds

og Skiepnuñar, Saa er fraa allre Anaud frij, Und-
um Motteñs sem hvijlest i.

15. HErra JEsu miñ Hlijfdar Mwr, Hiaalpa
mier ollum Vanda wr, Tak mig i þijna opnu Und,
Og añastu mig i Dauda Stund.

## 2. Psalmur.

### Uñ Idkan Idranareñar af HErrañs Pijnu.

Ton, O! mijn Saala uppvakna nu.

SJaadu og Hugleid Saala mijn, Saara og
Beyska JEsu Pijn, Siaadu hañs Mædu meg
na. Kvalaña Stærd og Ofraun af, Ondena upp
aa Krosse gaf, Pad leid hañ þiña vegna.

2. Siaadu hier þiña Synda Stærd, Siaa þu
hvad miked kosta vard, Saar þijn og Siwkdoom
græda, Gud lijdur sialfur griña Pijn, Gud wt-
heller hier Lijfe sijn, Gud kvelur margskins Mæda.

3. O! hvad Banvænlegt er þad Saar, Par
ekkert añad til Grædslu staar, Eñ Barskierañs
Blood wr Edum, O! þa kynia Stærd Kraank-
leikañs, Kostade Dauda Læknarañs, Guds þo aa
Himna Hædum.

4. Pu Christeñ Saala siaadu hier, Syndeñe
svo Gud reidur er, Po hañs Son Saatta bæde,
Fodur siñ kiærañ fyrer oss; Fallna i Synd og
Daudañs Bloss, Guds þo ei rienar Reide.

5. Hañ took þa aa sig Horund Mañs, Helgan-
de so Natturu hañs, Ad Synda Eitre eyde, Hañ

þa samteingde Hollded vid, Heilagasta sitt Riett-læted, Guds þo ei rienar Reide.

6. Allt þangad til hañ a sier bar, Illgierd og Synder Veralldar, Kvaleñ a Krosse deyde, Hañ liet wt pressa Lijf og Blood, Ad leysa og græda Heimsens Piood, Guds þa rienade Reide.

7. Haad, Slog, Saar, Brytl, Og Heliar Neyd, Hrakning og Smaner JEsus leid, Blessadur i Bondum þreyde, Fadereñ leit þa saaru Swt, Saal og Lijf hañs þa blædde wt, Guds þa rienade Reide.

8. Hañ sem Heilagur hijngad kom, Hlaut ad lijda so strangañ Doom, Særdur med soddañ Hætte, Sa sem kiemur med Synd i Heim, Sijdañ lifer og deyr i þeim, Titrande ydrast ætte.

9. Hrædast og skialfa Skiepnu ber, Skapara siñ þvi hefur hier, Krossfest og kvaled bæde, Prælleñ ma þetta Ottast Eitt, Ad hañ hefur siñ HErra deydt, Syndugur Helgañ hriade.

10. Christus lijdande Kvol og Deyd, Kallar til vor i siñe Neyd, Laatum oss honum hlijda, Synd og Mañeskia sia þu mig, Sañlega hlijt eg fyrer þig, Soddañ Saklaus ad lijda.

11. Sæter mig Eitt og svijdur mest, Sie eg og veit ad Piooden flest, Mijna Pijn acktar eige, Oþacklæted sem Almeñt skier, Allre Kvol þyngra fellur mier, A mijnum Andlaats Dege.

12. Heyrdu nu soddañ Saala mijn, Siertu þackiat i JEsu Pijn, Med Ast og Ydran heyta,

Syndaña

Syndaña Verkum ſiadu vid, Sær þu ei framar O Rotteñ Gud, Nie hañ til Reide reita.

13. Myſkunar Fader Myſkun þijn, Myſkune oſs fyrer JEſu Pijn, Og helge vor Hiortu krameñ, JEſu þijn Bæn og Benia Foſs, Boot og Lijfgun ſie ollum oſs, Amen, O! JEſu, Amen.

## 3. Pſalmur.
## Um̃ Avert Sañrar Jdranar.

Ton, Sæ Frials vid Løgmaal fæddur er.

SYnduge Madur ſiaa ad þier, Saal þijn ſo hoolpeñ verde, Eiliift Lijf byriar hver ſaa hier, Hreina Jdran ſem giørde.

2. Hvar ſu hin hreina Jdran er, Er þar og Kvittun Synda, Eñ ſu Kvittun hun aflar ſier, Elſku Guds til Mañkynda.

3. Hvar Guds Aſt er og Hylle hañs, Hañs Sonur er þar medur, J honum Boot aa Misgiørd Mañs, Mañs Samvitſku þad gledur.

4. Hvar Samvitſkañ er Glød og Good, Guds Ande byr þar iñe, Og Heilog Preñing ſem hialpar Piood, Med hollre Lijfgiof ſiñe.

5. Pvi ſaa þeir aller eiliift Lijf, Sem Yferboot Synda viña, Eñ Andar Tioon og Eymda Kijf, Jdrunarlauſer fiña.

6. O Rotteñ þar uppaa doo aa Kroſs, ad deyia Synden mætte, Laatum þvi ecke liſa i oſs, Leſte med vondum Hætte.

7. Saalar Dauden Andlegur er, Jllgiørd og

Syndeñ Maña, Undañ drogum þvi ecke vier, Idrunar Verked saña.

8. Aumur er sa sem ecke kañ, Illgiordum Boot aa viña, Siaalfañ Gud fraa sier fæler hañ, Med Fyiking Eingla siña.

9. Syndeñ stygger Guds Anda wt, af Mustere vors Hiarta, Eins og Byflugur flyia Braut, Ef siña Reykeñ svarta.

10. So sem Gud framar ollum er, eiñ Hlutur sa hiñ beste, Eins er og viist i siaalfre sier, Syndeñ vor hiñ sa veste.

11. Nu þo Synder sem viñum vær, viist stoorar heita meige, Ef Idrun breidest wt yfer þær, Augu Guds siaa þær eige.

12. Med þvi þu safnar Synda Fañs, Siifellt og marga Vega, Idrunar Taar þijns iñra Mañs, af þvoe þær Daglega.

13. Gief mier HErra i Hiartad mitt, hreinañ Idrunar Anda, So ad mijn Saal af Syndum kvitt, Synge þier Lof aan Enda.

## 4. Psalmur.

### Uñ þad Sæta JESU Nafn.

Ton, JEsus Christus aa Krosse var.

O! JEsu Nafn þitt Ilmsætt er, alla Mykun og Frelse lier, Þvi bid eg þig miñ JEsus, Vægdu og lijkna veykum mier, og vertu mier JEsu JEsus.

2. O! Hiartañs Unun iñelig, Elsku þiñe bijsaafa mig, Girnd mijn og Glede JEsus, Fyrer

mier

mier ecke feldu þig, Fyrst þu ert JEsu JEsus.

3. Myskunar Tijmeñ medañ er, Myskuna þu og lijkna mier, Myskunar Mergdeñ JEsus, Myskunar Tijmeñ þegar þver, Pa vert þu mier JEsu JEsus.

4. Orijme verdur ecke neitt, J þo Myskunar Fanged breitt, mig taker millde JEsus, Saala mijn er af Syndum þreitt, Siert ockur JEsu JEsus.

5. Øll Saalar Fæda ofþurr er, utañ med bladdest þad Vidsmior, sem ertu sæte JEsus, Soddañ Krydd miñe Saalu ber, Siert þeñe JEsu JEsus.

6. Synda Eitur eg soged hef, Satan hlydande Vondsku Ref, J þiñe Augsyn JEsus, Trwe eg þo fyrer utañ Ef, Ad ertu mier JEsu JEsus.

7. Uppruna Synd sem erfda eg, aklagar mig og þreynger miog, J þiñe augsyn JEsus, Po hun sie stoor og svijvirdeleg, Samt ertu mier JEsu JEsus.

8. Fæding og Gietnad fleckar Synd, Fordæmañleg er Skiepnu Kynd, J þiñe Augsyn JEsus, þo Saurgun fylge soddañ Mynd, Samt ertu mier JEsu JEsus.

9. Satan oss jafnañ sviked fær, Synder Daglega giorum vær, J þiñe Augsyn JEsus, Svijvirdelegar þoott sieu þær, Samt ertu mier JEsu JEsus.

10. Po ad eg Sooma svipte mig, Samt kañ

eg ecke ad sneida þig, Mikelle Mykun JEsus, eptir þvi hun er Æfeñleg, Oss ertu JEsu JEsus.

11. So sem mier harla hæge var þad, ad hrapa i Synd og Kvala Stad, Fraa þier Frelsareñ JEsus, Veit eg so hægt þier viñur ad, Vera mier JEsu JEsus.

12. J Lijfe Dend og Doomsens Hrijd, Daglega og uñ allañ Tijd, Vertu mier veykum JEsus, Fyrer þiñ Dauda Faar og Strijd, Frida mig JEsu JEsus.

13. Miñstu ei so aa Synder mijn, ad siaalfur gleymer þu Mykun þijn, Heilage HErra JEsus, Saalar Lijfgun og Sadning sijn, Siertu mier JEsu JEsus.

14. Ad Lifa og Deyia Lausnare miñ, Lijka koma fyrer Doomeñ þiñ, Pore eg þvi miñ JEsus, J þijnu Nafne eg Frelse fiñ, fyrst þu ert JEsu JEsus.

13. O! JESU fyrer þiñ Unda Foss, Alla Kvalning og Deyd aa Kross, Og Naadar Nafn þitt JESUS, Añast þu Lijfs og Lidna oss, Lof sie þier JESU JESUS.

## 5. Psalmur.
## Um̃ Trwareñar Jdkun.

Ton, Sæll ertu sem þiñ Gud.

DRotteñ eg Aumur er, J Huxun miñe, Opt giore eg Oriett þier, Og Pijnu þiñe.

2. Græt eg þad Goodverk mijn, Glæp bæta eige, So sem Synda Boot þijn, sijst nægiast mege.

3. Læst

3. Læst eg so leggia a, Lappañ Goodverka, For pienan þijna þa, Þrautar noog sterka.

4. Hver sem sig heilagañ, Hier funded giæte, hvad þyrfte ad hyra hañ, um HErrañs Riettlæte.

5. Under Naad erum nu, Ecke Logmaale, Siaaum til soddañ Trw, Synden ei briaale.

6. Haatt upp i Himneñ, Heilage Fader, syndgad hef eg Sonur þiñ, Svijvirdelegt þad er.

7. Aumur eg ecke maa, Arfe þiñ heita, Virdstu mier þrioosskum þa, Þræls Nafn ad veita.

8. Oflug er Synden su, Sem mig vill pijna, Laat hana Loksens nu, Lijsenu tijna.

9. Holldsens ill Yfferaad, um sijder liñe, Og misse Afl og Daad, Anden so viñe.

10. Eg hefe Heimskur Mañ, Hyllst Satans Ede, Uñ mier ad Ovin þañ, Eg sigra næde.

11. Otta vijst under bioo, Ogn Dauda Kijfsens, Ills Ender er hañ þo, og Jñgangur Lijssins.

12. Nær Lijsed wte er, Oll Meineñ þverra, Þa mun eg þocknast þier, Þu goode HErra.

13. Oll Synden er þa kvitt, J Himna Sæte, Eiñ Gud þvi ertu mitt, Einka Riettlæte.

14. Daudañ ei Ottast nu, nie Eymdar Kijfed, Hædstur ert HErra þu, Heill mijn og Lijsed.

15. Saal mijn af Syndum kvitt, sia mun þijn Mæte, boden i Brwdkaup þitt, Brwdgumeñ sæte.

16. Þa reyne eg þad og siñ ad þu ert mier bæde, Blijdaste Brwdgumeñ, Og Brullaups Klæde.

17. Eg hefe Jkiædst þier, A Skijrnar Dege,

Sar Skrwde skyler mier, Skadar Synd eige.

18. J Kiærum Skrwda heim, Skal eg fram̃ gaanga, Pa DRotten̄ dæmer Heim, a Deige straunga.

19. Dyrdar Skart skal oss þar, Skijnande giera, Hvert oss til Eilijfdar, Audnast ad bera.

20. J sañа Sælu Dyrd, Señ leid oss HErra, Su Lofgiörd sie hier skijrd, Sem ei maa þverra, AMEN.

## 6. Psalmur.

## Um̃ Huggun þess Jdrande i Christi Pijnu.

Ton, Konung David sem kieñde.

ALLur Syndugs Mañs Soome, Sañlega fool-geñ er, J þvi Frelsareñ froome, Ad forsmaadur vardstu hier, Og þiaadur þwngre Pijn, Daude þiñ er Lijf Lyda, Lækning og Huggun frijda, Hoop mitt og Huggun miin.

2. Pu eiñ Gud, Allra Lyda, Eg gat þig mood-gad vijst, Eñ þig aptur ad þijda, Orka kuñe eg sijst, Eñ fyrer Christi Kross, Er oss nu ordeñ Fridur, Af þvi þig sialfañ vidur, Sætter þu seka oss.

3. Siaa nu þa Særing megna, Sonur þiñ lijda hlaut, Fyrergief þad þess vegna, Prælleñ illur sem braut, DRotteñ Myskuna mier, Synd miin er Sande fleire, Samt er þijn Naadeñ meire, Pvi-ad hun eilijf er.

4. Ef ad eg ecke jaata, Jllverk og Synda Prar, Pa kañ i eingvañ Maata, Aflausn þeirra ad faa, Eñ

Eñ ef Auglyse þær, Saar svyvirdelega ſtarta, Særande kramed Hiarta, Eñ Samvitſkañ Felmtur fær.

5. Halltu þvi ecke iñe, Aſt þiñe Fader kiær, nie Nad i Nandsyn miñe, Naakvæmd allre mier tær, Miñſtu Myſkunar þiju, reidſtu mier aumum eige, af þvi þu hefur ſleiged, Son þiñ fyrer Synder mijn.

6. Hver munu Aums Urræde, a Reiknings-ſkapar Tijd, Pa ſeñ adſækia bæde, Synden og Riettlæted, ſitt ſtaar a hveria Hlid, under Andſkotans Hreidur, uppe Doomareñ reidur, Eñ Samvitſkañ ſvipt er Frid.

7. Verolld er oll i Loga, umhverſis Mañeñ þa, Hverneñ maa hræddur voga, J HErrañs Augſyn fram gaa? Ei helldur faleſt fær, Hvad er þa hellſt til Naada, hver vill þa Saalu naada, Hvar mun þa Hvijldeñ vær?

8. Hver er ſa eiñ ſem heiter, Eingell hiñs mikla Raads? Aumum Vidtoku veiter, Verndareñ Lyds og Lands, JEſus þad eflauſt er, mille hañs Hiaalpar Handa, hræddur mun eg þa ſtanda, hañs Fulltijng hlijfer mier.

9. Saal mijn þijn good Trw glædeſt, gled þig og fagna nu, uppaa þañ er þu hrædeſt. Ofvijdeñ vona þu, vert ecke orvænteñ, fraa þeim ſem fyrre flwder, flijdu nu a þeſs Naader, Hañ reyneſt þier hollur Vin.

10. Miñ Gud eg maa þad jaata, mikel er Syndeñ mijn, þo er i allañ Maata, eñ meire Naadeñ þijn,

Ol

Oll mijn Von i þier staar, Gief þu eg glatest eige, Gief ad þig lofa meige, hier og um eillijf Ar, Amen.

## 7. Psalmur.
## Um Avoxt Christi Pijnu.

Ton, Fader vor sem a Himnum ert.

PA HErrans JEsu harda Pijn, Hugleide eg med Krapte sijn, eykst þa mijn Trw og eflest best, um þad-Tvent sem mig vardar mest, Ast Guds til mijn, og annad hitt, Afbroten oll eg fæ vel kvitt.

2. Pegar minn HErra hieck a Kross, hneigde sinn Munn ad kyssa oss, Arma wtbreidde bæda senn, baudst til ad fadma alla Menn, Hann lauk upp sijnum Hondum Tveim, ad hiaalpa og audga oss med þeim.

3. Hann liet þvi opna Sijdu sijn, so þadan streymde Lijf-Giof mijn, Og ad hans heita Hiartans Pel, hægra sie oss ad skoda vel, Hans Saar eru af Ofraun blaa, Ast velldur þvi þaug sioomar aa.

4. Laatum oss i hans opnu Und, Inngaanga þvi med gladre Lund, skodum hans heita Hiartans Ast, Hver oss Syndugum alldrei brast, i hans Saarum er Naadar Nægd, noog Endurlausn og allskyns Hægd.

5. Af Fimm Lijkamans Limum hans, lagade Blood til Syndarans, Hondum, Footum og Sijdu senn, so þad lijfgade alla Menn, og þad Signada Saara Flood, Synder þvæge af allre Piood.

6. Hann var hraken med þvungre Praa, Praasamlega

samlega hañ Judar slaa, slaa þeir Gadda i Hollded hañs, Hañs Blood wtkreiste Syndeñ Mañs, Mañs Hendur Gude uñu a, A honum margskyns Kvelling laa.

7. Hañ strijdde Daudañ hardañ vid, Hañ so oss veitte Andlaats Frid, Hañ var Sakfelldur hier a Jord, Hañs Born so yrde saklaus giord, Hañ liet sig slaa med Heipt og Foss, Hañ so Aklogun fyrrte oss.

8. Hañ stunde haatt med Harma-Kvein, Hañ so oss bætte eilijft Mein, Hañ bar a sijnum Herdum Kross, Hañ so Pijngd allre liette af oss, Hañ var deyddur og hrakeñ señ, Hañ so lijfgade alla Meñ.

9. So sem þa Vijnber Of-þijngd af, alla Vega siñ Log wtgaf, Eins pressadest vors HErra Holld, hrunde hañs Dreire nidur a Folld, undañ Pijngd alls Heims Illgiordar, og Reide Guds, Sem JEsus bar.

10. Soddañ Gagn fær þu Saala mijn, af Saarum JEsu og beysku Pijn, Handskrift sem oss var moote mest, med sier hefur a Krosseñ fest, Hañs Blood hana af þvode þar, J Pijng-Hwse Guds sem ritud var.

11. Vertu þvi gladur mædde Mañ, Mañs Hiaalp alla JEsus vañ, Ef stoor eru þijn Synda Saar, Saar hañs eru þier Lækning klaar, Hañs Blood þad edla Uñsal er, Sem alla Græding veiter þier.

12. Andlaat þitt JEsu og þijn Pijn, allra Meina sie Booten mijn, J Lijfe og Dauda Aihvarf allt, Æfenlega mier vid þig halt, Nu heilog Prenꝛng hijr og blijd, halldest þitt Lof um allan Tijd, Am.

## 8. Psalmur.

### Umm Fullvissu vorrar Saaluhiaalpar.

Ton. Lifande DRotten lijkna mier.

GLed þig mijn Saal og giæt þu ad, Gude Skaparapijnum, mundu hañs Naad og miñst a þad, þa myndade hañ þig i Leynum, ædur þegar varst eingeñ þu, Umhyggiu bar hañ þijna, eigeñ Mynd hañs ert ordeñ nu, ei kañ hañ þier þvi tijna, Hañ añast alla sijna.

2. Nu þo ad vijsu syndug siert, so Guds Mynd hafer tapad, Hañ sem af eingvu gat þig giort, gietur þig Endurskapad, Sa sem þig skoop aan Synda Flecks, Saurgun þijna kañ bæta, og Jllsku Root sem i þier vex, alla i burtu ræta, Ad þvi skallt giorla giæta.

3. Hiaa Gude erum lijkt sem Leyr, Leyrpotta Smids i Hende, um Æfe fiñast eingver þeir, sem eru sijn Verk hatande, skyllde hañ þar til skapa þa, Skiepnu Kynd sijna Mañeñ, Handaverk baug ad hata og slaa, og hrekia i Diofla Rañeñ, Saal mijn ei þeynktu þañeñ.

4. Vijst er Skopun og Mynden Mañs, miked Guds Astar Merke, Eñ gior vottast þo Elskañ hañs, af Endurlausnar Verke, Alldrei gyrnest þu

Glotun

Glotun mijn, Goode Hyrdereñ Sauda, fyrst ad þu þolder þwunga Pijn, þig gafst i Pijst og Dauda, Til Lijfs og Lausnar Plooda.

5. Sai oss Frid-keypte Fodureñ vid, Fullnadar dijru Verde, añast oss nu og leggur Lid, Lijf vort so eingeñ skierde, Petta Tilflugt ei verdur vallt, velldur þvi þad eg seige, Sw Naadar Giæskañ gnæfer allt, Gud fyrer Prælen deye, Seal mijn þvi efast eige.

6. Vier erum Gud þijn Oska Born, og Arfar ad Himna Vistum, So elskar þu nu sierhvern vorn, sem DRotteñ JEsum Christum, Naad og Uppfylling eilijfs Lijfs, oss giefst i Syne þijnum, Uppspretta Goods og Ending Kijfs, Uppgiof ꝏ Synd og Pijnum, gledst eg i Gude mijnum.

7. Hverneñ kañ sa ad hata mig, Helsor mijna sem bætte, og gaf i Daudañ sialfañ sig, so ad eg lifa mætte, þo Oviner aller mæie mier, mijna Sæl forklagande, JEsus mitt Hoop og Hæle er, Helgun og Lausn fra Grande, Trw mijn þvi stodug stande.

8. Lof sie þier Fader fyrr og sijd, fyrer þiñ Soneñ kiæra, Og þier JEsu sem leyster Lyd, lijka sie Dijrd og Æra, svo Helaum Anda sama Veg, sañæ Vegsemd skal giallda, Pu Eining Preñing Odaudleg, uñ mier þiñ Prijs margfallda, hier og uñi Allder Allda.

## 9. Psalmur.

## Uñ þad, ad vier skulum elska Gud mest.

Ton, Dreckum af Bruñe Naadar.

RJJs upp riett Christeñ Saala, Naadholl ad læra, Stundlega Hlute haala, ei haf þu kiærá, Eñ þañ ypparsta Gooda, elska og stunda skallt, hvers Nægdar Giæskañ frooda, gott mebindur allt.

2. Uppsprettañ alls hiñs Gooda, er hiar DRottne, honum att Ast ad biooda, so alldrei þrotne, Skapada Skiepnu neina, skallt ecke elska þu, þvi eingvañ Astar Beina, aptur þier giélldur su.

3. Peim ættu ollu ad tæra, Astar Geinge, Er þig hafde þa kiæra, er þu varst eingeñ, Pa hañ til Reide reitter, Rasande tijdt og þraatt, Syndsamlega so breytter, Samt elskade hañ þig daatt.

4. Hiartans Ununar Ardur, um iñstu Reita, og Andar Aldengardur, mau Elskañ heita, hun wtelokar Heimeñ, af Hiarta Mañsins best, Satan og Synda Keimeñ, Sigrar og græder flest.

5. Hun læser Diofla Dijke, og Dauder eykur, Hædsta Himna-Rijke, hun upplijkur, Ast er Utvalldra Merke, ecke til Hialpar sein, wt af Elskuñar Verke, auglyst Trweñ hrein.

6. Ef Saaleñ elskar eige, þañ ædsta Gooda, dauda ad søñu feige, og Soomasnauda, Yndes Hægd eingva hefur, og eingeñ Rooleaheit, Ugglaust i Syndum sefur, sitt Hialpar Raad ei veit.

7. Gude þvi ættu ad uña af ollu Hiarta, eingvar Ydiur kuña, Ædra ad skarta, ef þu uppbyriar eige, ad elska DRotteñ hier, upp fraa þeim efsta Dege, ecke veitest þad þier.

8. Sviptu mig Synda Galla, miñ sæte Herra, og

og bañada Elsku alla, laat i mier þverra, Gief ad þi-
erenum une, og elske Hiartaklaar, So ad eg sijdar
kuñe, ad sia þig uñ eilyf Ar, Amen.

## 10. Psalmur.

### Uñ vora Fridþæging.

Ton, Mitt Hiarta hvar til hryggest þu.

O! hvad mikel er Mystkun su, Miñ JEsu sem
oss veitter þu, Sialfdoom vorn sialfur barst,
Fyrer Heimsens Synder særdur varst, Sveid þier
Un en Hiartad þitt skarst.

2. O! þaug Vilkior og Bote best, Ad barstu
Riettlætur Straffed mest, Ræniglætur fañ þo
Frid, Heilagur tookst þu Hegning vid, Hiñ Synd-
uge fieck þa Grid.

3. Þu tookst a þig hid Vesta vort, Var þad
Syndeñ sem hofdum giort, Þitt Besta þu gafst
oss, Þad var Lijfed og Lausnar Hnoss, Leidstu
sialfur Daudañ a Kross.

4. Og nu med þvi þijn Elskañ mest, A sig took
þad, Sem vort var Vest, Bestu Eign bloodum
nu, Lijkame vor og Saal er su, Soddañ Hnoss er
girnest þu.

5. Hefder þu ecke HErra trwr, Hialpad
Ræniglætum Dauda wr, Og keypt hañ Kvolum
fraa, Þijna Riettlæta furdu faa, Funded munder
hafa þa.

6. Fadereñ hefur Hefnst a þier, Hverskyns
Synda sem giordum vier, Þvi siest oss Prælum
Vægd, Þad er þier Saal mijn Siñes Hægd, Ad

Synd er kvitt, Eñ Reide Guds lægd.

7. Hverneñ kañtu þa HErra kiær, ad hefnast a oss fyrer Synder þær, Sem ad þu sialfur barst? Sæleñ þijn af Sorgum skarst, Ad Synd fyrer oss þa giordur varst.

8. Eingeñ hefur nu Afl nie Valld, a oss ad leggia Hefndar Gialld, Utañ einaste hañ, Fyrer vor Brot sem borga vañ, Og hweñ er ad Frid-kaupa Mañ.

9. Gied þig mijn Sál vid Sañleik hañs, Er Syndugs vill ecke Dauda Mañs, Ad eilijfu seiger hañ Satt, J þeirre Trw þu stodug statt, Sterka Trygd hañ vid þig batt.

10. J Guds Meraskal Myskun er, Myklu þyngre þa vigtum vier, Helldur eñ alls Heims Synd, Stertu alldrei so Sál mijn blind, Ad soddañ Huggun taper i Vind.

11. Mundu ad Synd er Mañsens Verk, Eñ Myskun Guds þo stendur sterk, Er þeirra Olijk Dæd, Jllgiord Stundleg, Eñ eilijf Nád, Og O-seigiañlegt DRotteñs Nád.

12. Fly eg nu aumur argur Præll, under Nád þijna Gud miñ sæll, Syndu þvi Myskun mier, Þig skal Lofa og Packa þier, Pad a medañ Eilijfdeñ er, AMEN.

## II. Psalmur.

## Uiñ Fridar Boot fyrer vorar Synder.

Ton, Hver sem ad reyser hæga Bygd.

Millde

Mi Jlde JEsu eg mineſt nu, Myſkunar Bod þitt klæra, Syndugum giorder ſiælfur þu, Sodd an Ordum ad tæra. Aller ſem þiaeſt Pyngſla Pijn, Og þreytter erud, Komed til mijn, Ydur ſkal Endurnæra.

2. Þar til giore eg ſo ſvara þier, Sanleikſens dyrſte Munur, Syndana Þronge þreynger ad mier, Þier er min Breſtur kunur, Andvarpa eg i Eymdum mijn, Og vil þvi giarnan koma til þijn, Lifande Lijffens Brunur.

3. Þrongar eru ſem æred Bly, Ofmargar mijn ar Synder, Erfida eg og þiaeſt þvi, Þeſſare Byrde under, Glæpafullan eg Alldur el, En vil þo giarnan deyia vel, HErra mier Huggun ſender.

4. Kom þu min JEſu, Kom til mijn, Kom þu med Aſiaan hijrre, Þviad eins kan eg ad koma til þijn, Ad komer þu til mijn fyrre, Kom þu og ſvala mæddum mier, Margskyns Synda eg Oked ber, Endurnær mig Nægd nyrre.

5. Hialpe mier beſt þijn Heilog Ond, Hialpe mier beſt þin Daude, Og Lijkame þin ſem leid hier Bond, Laugadur Pijſlar Bloode, Saar þijn, Under og Arnan trw, Og allt þad fyrer mig þolder þu, Hialpe mier HErra goode.

6. Daude þin kan oſs Frelſes Hlif, Frid, Lijfsgun og Riettlæte, Meir mun þa þitt Lifanda Lijf, Liena oſs allskyns Mæte, Hvar þijn Mining i Hiarta var, Herbergiar þu og Lifer þar, Tign er þad ſoddan Sæte.

7. Gled þig nu Saal mijn, Gled þig nu, Gled þig i DRottne þijnum, Er Obeden veitte Ast og Trw, Ovina Flocke siinum, Vina Grætbeidne vill hañ þa, Veita giarnañ og Myskun tiaa, Hægd er þad Huga mijnum.

8. Þegar þu Hiartans HErra miñ, Hiedañ glorer mig kalla, Leid þu mig þa til Lijfsens iñ, A lioomande Dyrdar Palla, So ad mier hlotnest Heiller þær, Ad heyra þig, Siaa og vera þier nær, Og losa uñ Eilijfd alla, Amen.

## 12. Psalmur.

### Uñ Art og Eigeñlegleik sañrar Trwår.

Ton, O Fader miñ, Eg Prællen þiñ.

UPP, upp, mijn Saal, Er þier nu maal, ad yfervega Trw þijna, Krapt mikel er, Christo þvi ber, Kiærar Packer ad syna, Edla Hlut hañ, Jñ gaf þier hañ, Attu þvi so ad greina, Lof sie Gud þier, Þu lienter mier, Lijfed og Trwna hreina.

2. Af Trw þad skier, ad verdum vier, Vel iñplantader Christe, Eins og Vijntrie, Viss Meistare, Vid græder iausa Kviste, Af DRottne maa, Lijfs Frioofgun faa, Frægre eñ nockra Gimsteina, Lof sie Gud þier, Þu lienter mier, Lijfed og Trwna hreina.

3. Olle Trw sterk, Abels Foorn-Verk, Allvel þocknadest Gude, DRottne jo sætt, Þyker miog mætt, Muñ-Offur þess sem trwde, Er þad Bæn ein, Oflug og hrein, Orkande Bootum Meina,

Lof

Lof sie Gud þier, Pu lienter mier, Lijfed og Trwna hreina.

4. Enochs Trw vañ, Ad sa Guds Mañ, Upp var numeñ i Hæder, Hun so Girnd Mañs, Til Himna Rañs, Heimsens fra Glise leider, Eilijft Lijf þvi, Og Jbwd Christi, Oss giesst hier nu ad reyna, Lof sie Gud þier, Pu lienter mier, Lijfed og Trwna hreina.

5. Soñ Trw þad vañ, Sara gat Mañ, Sijnum i Alldurdoome, So gietur Christ, Sierhver Saal vijst, Sem er prydd Skijrleiks Bloome, Eñ þetta hier, Andlega skier, Ofigan vid Trwar Beina, Lof sie Gud þier, Pu lienter mier, Lijfed og Trwna hreina.

6. Af Trw þad kom, Ad Abraham, Jsaach foorna kuñe, Sialfs Vilie Mañs, Er Salar hañs, Son sai hun heitast uñe, Andlega i Trw, Honum Offra þu, Elsku sijn þier ei neina, Lof sie Gud þier, Pu lienter mier, Lijfed og Trwna hreina.

7. Olle Trw good, Jsraels Piood, Yfergieck Hafed Rauda, So komunst vier, Hættulaust hier, Heims yfer Siooeñ Nauda, Rahab Frid fañ, Frelsast so Mañ, fyrer Trwna alleina, Lof sie Gud þier, Pu lienter mier, Lijfed og Trwna hreina.

8. Hrein Trw þad er, Pa Hiartad hier, HErrañ medteked gietur, Med Arnan hañs, Og er til Sañs, J honum Trausted setur, Fullvijs uñ þad, Hun fiñe Raad, Fyrer Grædarañ Meina, Lof sie Gud þier, þu lienter mier, Lijfed og Trwna hreina.

9. Uppreñur su, Hin oflga Trw, Af Andlegu Guds Ords Sæde, Eins er og Twn, Andeñ og hun, Eitt eru þesse bæde, Ord Guds er Far, Sem Andañ feriar, Jñ i Hiartad Leid beina, Lof sie Gud þier, Pu lienter mier, Lijfed og Trwna hreina.

10. Opt nefnd Trw hier. Andlegt Lioos er, upp lioomande Mañs Hiarta, Geysla þa ber, Sem giefa af sier, Goodverka Skyned biarta, Hvar þad fataſt, Hana þar braſt, Hente þad Bernſku Meina, Lof sie Gud þier, þu lienter mier, Lijfed og Trwna hreina.

11. O! Mñ JEsu, Mier iñgief þu, Andlegt Lioos Trwareñar; Lyse þad mier, So lære eg giör, Leid Sæluhiaalpar miñar, So eilijft Lijf, Epter Heims Kijf, Eg mætte faa ad reyña, Lof sie Gud þier, Pu lienter mier, Lijfed og Trwna hreina, AMEN.

## 13. Psalmur.

### Uñ Andlegañ Hiwſkap Christi og Saalareñar.

Ton, Eins og sitt Barn.

Bw þig Sæl mijn, Bidlar til þijn, Bleſſadur Gud aan Efa, Eg vil þig mier, Eg vil þig mier, JEsus ſo tier, Jafnañ og æ Trwlofa.

2. Gled þig nu þvi, Gude þeim i, Er giefur þier Brullaups Klæde, Og glooande Skart, Glooande Skart, Girnelegt margt, Gull-Hrijng og allskins Giæde.

3. Flijttu

3. Flijttu þier þa, Fegurd hans sia, Fagnande tak vid honum, Brwdgume þinn, Brwdgume þinn, Med Bloomleik sinn, ber laangt af Manna Sonum.

4. Hann skyn sem Sool, Pa Heimsens Hiool, Heitast upp liooma kunne, Daafrijdur Sveinn, Daafrijdur Sveinn, Dyrd kryndur einn, Drijpur Naad af hans Munne.

5. Athuga þu, þinn Aumleik nu, Og hans, Haatignar Prijde, So veistu gior, So veistu gior, hver Saemd þad er, sier took hann þig fyrer Brwde.

6. Pu varst nakinn, Pvi var ei Kyn, Pyrder ei inn ad koma, J Kongsens Sal, J Kongsens Sal, Nie koma aa Tal, Vid Christum þinn Brwdguma.

7. Synda Lorfum, Sijdur þorfum, Siaalfur hann þig wr faerde, Silke-Fat nijtt, Silke-Fat nijtt, Med Sooma prydt, Sijdann til Eignar taerde.

8. Gyllene Armbond, Gaf þier aa Hond, Guds-Vef og Brwdkaups Klaede, Og Eyrna Skart, Og Eyrna Skart, Enn allt Oþarft, Af þvode sijnu Bloode.

9. Allt hvad hans er, Otygenn þier, Aum Brwdur giefur hann þetta, Hunaang Vidsmior, Hunaang Vidsmior, Pa Hwngur skier, Holld sitt og Blood til Rietta.

10. Ecke neitt slijkt, Eda þvilijkt, Orkar þu honum ad veita, helltst maa þo daast, helltst maa þo daast, ad Hiartans Ast, Sem hefur hann til þijn heita.

10 O! hvad Saal su, Sijdar og nu, Sael og Blessud maa heita, Soddann Teingd naer, Soddann Teingd

Teingd nær, Ad Son Guds kiær, Sier vill til
Eckta jaata.

12. Trweñ at hañ, Traustast hun kañ, Teingd
er slijkar ad festa, Allt hañs Gotz er, Allt hañs Gotz
er, Eigeñlegt þier, Vera og Tianeñ mesta.

13. O! þu Saal mijn, Uñusta þijn, astwdlega
tak moote, Halltu vel Trw, Halltu vel Trw, Hoor
ast ei þu, Hañs Vingan so ei þrioote.

14. Pier JEsus kiær, Pad þockum vær, Pu i
Teingd oss ert komeñ, Leid þu oss iñ, Leid þu oss iñ,
Lijfgiafare miñ, J Lambsens Brwdkaup, Amen.

## 14. Psalmur.
## Uñ Christi Daasamlega Mañdooms Tekning.

Ton, Ofañ af Himnum hjer kom eg.

Latum oss nu mijn Liwfust Born, Litla Stund
hepta Huga vorn, Pessu Stundlegu Starfe
fraa, Stunda og þeinkia Andlegt aa.

2. Hiartañs Augun þa hefium fyrst, Hiedañ
og uppaa JEsum Christ, Athugande hver Ast hañs
var, Og Leyndardoom hañs Fædingar.

3. Hañ stie nidur i Holldted vort, hañ so oss fein-
ge Guds Born giort, Heilog Fæding og Hollds-
gan hañs, Hreinsar og bæter Saurgun Mañs.

4. J Tijd Fridsama Augusti, Oss villde JE-
sus Fædast þvi, So ad hañ feinge sett til Sañs,
Saatt og Frid mille Guds og Mañs.

5. Hañ Fæddest þvi af hreiñe Mey, Hañ synde
þad hañ kyñe ei, Andlega ad fædast utañ þar, O-
saurgad

saurgad Mañsens Hiartad var.

6. Otigner saa þañ Fognud fyrst, Fæding Christi þeim bodadest, Þvi honum best þeir þocknast hier, Sem þykiast i Hiortum Daalitler

7. Einglar boda fyrst Fognud þañ, Fiaarhirdsurum, Þvi siaalfur hañ, Ecalnaña Hirder sañur er, Sem beiner Veg þeim villtur fer.

8. Med Fiaarhirdurum forum af Stad, Fædd um JEsu nu leitum ad, J Bethlehem (þad Braud Hws er) Barned i Reifum sinum vier.

9. J Jotu liggur Sveiñen saa, Sofnud Guds Barna þyda maa, Heilog Ritning er riett til Sañs, Reifarner þessa Guds og Mañs.

10. Mikel og stoor er Mystkun su, Mier Aumum veitter JEsus þu, Pa ecke komst eg upp til þijn, Ofañ stiest þu hijngad til mijn.

11. O! hvad furdañlegt er þad Raad, Sem uppaa sañ þyn Vijsdooms Raad, ad Myskun er nu aasatt vid, Allra straangasta Riettlæted.

12. Hreinse nu best mitt Hiartans Hws, Heilog þijn Fæding miñ JEsus, gack sijdan iñ til Gystingar, Gud-velkomeñ ad hvijlast þar.

13. Aller samsynge Eingla Hyrd, J Upphædum sie Gude Dijrd, A Jordu Fridur eiñeñ sie, og Moñunum goodur Vilie, Amen.

## 15. Psalmur.

### Uñ Avoxt Christi Mañdooms.

Ton. Til þijn Heilage HErra Gud.

Eg

ES boda ydur Eingell tier, æreñ Fognud til Handa, Saal mijn þu hefur Huggun hier Hrædslu laat þier ei granda, Faanande tak vid Fæding hañs, sem forbetrad hefur Raaded Mañs, Lijfgad og leyst wr Vanda.

2. Oss er skrifad ad Olíu Kvist, J Orkena Owfañ bære, audsynande so Foolke fyrst, Flooded nu þurda fære, Eins hefur JEsus fært oss Frid, af Fodursins Hende Saatt og Grid, Eñ Reide hañs ruñeñ være.

3. Oss hefur JEsus elskad heitt, ad eilijfu samteingiande, Guddooms og Mañdooms Art i eitt, Osliitanlegu Bande, Hverneñ mun, þvi hañs Mysktin þa, Mañeñ gieta sier slited fraa, Holld sitt og Blood hatande.

4. Pañ Leyndardoom um̃ Holldgan hañs, hver mun wtskijra kuña, Losleg Haatign vid Læging Mañs, liet sig samteingiast nuña, Hvad er Dijrdlegra helldur eñ hañ, Hvad er slæmra eñ Tijndur Mañ? Po vill Gud þessum uña.

5. Ogrijpañlegur Gud var þad, giorde Mañ Skiepnañ reita, Po bar hun sig i eingvu ad, epter Saattum ad leita, þa klæddest heñar Hollde hañ, Heimeñ sætte vid sig sialfañ, Frid og Vægd fws ad veita.

6. O! hvad sw Skulld var ofur stoor, aattum vier Gude ad greida? JEsus Blessadur Brooder vor, J Borgun liet sig deyda, fyrer oss greidde fulla Boot, feigens Hende took hiñ aa moot, greidur til Lijfs ad leida.

7. HErr-

7. HErrañ skoop Mañsins Hold og Bein, helld eg þad Dæsemd saña, Po gnæfer þesse Giæskañ ein, hañ gaf sig til Lausnar Maña, J Adam er Meinleysed mist, meira giefst nu fyrer JEsum Christ, Riettlæte og Hell Himnaña.

8. Saal mijn af Allwd þacka þu, Pijnum DRottne Skapara, Lausnara vorum lijka nu, til Lijfsens vill hañ þig spara, Gude sie Lof i allre Att, Einum og Preñum swnged hætt, Amen þar eg til svara, Amen.

## 16. Psalmur.

## Uñ Andlega Endurnæring Gudhræddra.

Ton, Giæskurijkaste Græðare miñ.

EJtt Giestabod miog miked þo, Milldur og rijkur Gud til bioo, Hwngrader hellst þess neyta, Syndaña Angur sem Mañ skier, Saalar Hwngur þad Andlegt er, Sadning maa hrein Trw heita, Maña, Piood þa, Eingla Braud, þad eydde Naud, æ Eydesiollum, Sætara bijdst nu Svongum ollum.

2. Kræseleg Maaltijd kallast maa, Kriddud Fæda er Borde aa, Hwngrud Born heyred þetta, Ylmande Riette eted nu, Aflausn Synda og Naad Guds trw, Svanga maa soddañ metta, JEsus, Fridfws, Booteñ Kijfs, er Brauded Lijfsins, best ad neyta, af Drake fuller ei uñ þad skeyta.

3. Peir Meñ sem hofdu fest sier Fliood, Forsmaadu þetta Giestabod, og villdu ecke koma, skijr-

lijfar

lijfar Mevar þærdu þad, þvi sig hofdu ei samlagad, Satans illum Osooma, siaa þu, Saal nu, HErra þijnum Hlijdne sijn, eñ hoorast eige, svo iñleide hañ þig og Eckta meige.

4. JEsus Christus Andlegur er, Eliseus sem vitnum vier, alhægt sie allt ad viña, Sælleikans Vidsinior Himneskt hañ, hella i toomu Kiereñ kañ, hvar þau maa faa og fiña, Eins skier, oss hier, Ast aa Christ, þar iñhellist, J allra Siñe, sem Elsk-añ til Heimsins bijr eingeñ iñe.

5. Synduger Meñ i Sodoma, sagda Maaltijd ei gyrntust aa, Eñ þo Loth opt þeim byde, Himneskur Elldur epter þad, uppbrende Foolk og dreckte Stad, Eingeñ Von var aa Fride, Eins maa, eñ siaa, DRotteñs Reide, eilijf eyder, allra Geinge, Sem Brwdkaup hañs Forsmaa, eñ bodner leinge.

6. Ogagn stoormiked er þad Pirood, ef forsmaa þetta Giestabod, vijst er saa Vesæll Lydur, Eilijft Hwngur og Ovilld strijd, yfer þaa kiemur fyrr og sijd, Alldrei þeim eptar bijdur, miog blind, Mañkynd, Sw maa heita, sem vill neita, soddañ Vistum, og hirder ei þiggia HErrañ Christum.

7. Gud hefur Maata añañ eñ, J sitt Heimbod ad kalla Meñ, Jñra þad oss vidvijkur, Hugskots Dyrnar þa hañ aaknijr, Heilogum Pañka til vor snijr, Sæll er þa sa upplijkur, Hier maa, hver siaa, Ef Huxun good, J Hyggiu stood, med helga Parta, DRotteñ þa klappar aa Dyr þess Hiarta.

8. Athuga soddañ gumur Mañ, upplaatu strax

þa

þa kallar hañ, aadur eñ aa burt viikur, Añars situr hañ eirneñ fyrr, er þu klappar aa Naadar Dyr, og þeim ecke upplijkur, Ef þier, ad ber, Goodañ Vilia, Guds ad skiller, Giæskumillde, Og Neista hañs Astar sem næraſt ſkyllde.

9. Astar Neisteñ er Ande hañs, er alaſt ſkal ſo i Briooſte Mañs, ad breñande Bloſſe verde, wtſlocktu Madur alldrei hañ, ecke brioot helldur Guds þijns Rañ, ſo rycke ei Neide-Sverde, Hiartad, er þitt þad, Hañs Muſtere, Hvert oss bære, hreint ad vanda, Og Herbergia ſijdañ hañ helga Anda.

10. Siaa þu til med mier ſañe Gud, ſo eg kuñe þitt Gieſtabod, giarnañ med Þockum þiggia, Hiarta mitt er nu oped þier, Ætijd velkomeñ ſiertu mier, ei vil þig aa burt ſtyggia, Saal mijn, ſie þijn, Brwdur trw, ſem hweñ ert þu, til Brwdkaups kalla, Laat hana ſiaa þig um Eilijfd alla, Amen.

## 17. Pſalmur.

## Uñ Avoxt Skijrnareñar.

Ton, JEſus Chriſtus aa Kroſſe var.

Hygg þu ad Saal mijn hvad þad er; J heilagre Skijrn Gud veiter þier, eru þad Andleg Giæde, Saurgun ſem fyrer Fæding ber, faagar og helgar bæde.

2. Skijrneñ þvi ollu orka kañ, aptur ad nyu fædeſt Mañ vijſt fyrer Vatn og Anda, Oſka Barn Drottens er þa hañ, Arfe til Gooz og Landa.

3. Ande Guds fordum olle þvi, ad Lijfs Hræring kom Vötneñ i, So skieður i Skijrneñe, Hañ giörer hun sie hrein og ny, helgud af Nærvist siñe.

4. Aller þeir Christo Iklædast, I Skijrneñe sem Trw ei brast, þvegner i þessu Floode, Hverra Skrwde so hvijtfægast, I Heilogu Lambsins Bloode.

5. A Jerusalems Vollum var, Vatns Dijke allskins Lækningar, þa Eingeli Guds þad hrærde, Þessa Skijrn vora þad tæknar, þvi oss Synda Boot færde.

6. Foornaña Blood var þveiged þa, I þessu Dijke Bethesda, So þvæst Christi Bloods Kraptur, ellñeñ ofañ i vorn Vatns-Sæ, vel hreiner sædunst aptur.

7. Heilagur Ande ofañ fer, I Vatns-Sæeñ þa skijrunst vier, sialfur þar samañ hrærer, Bloodeð Christi vid Vatneð hier, vorre Saurgun fortærer.

8. Pharao með siñ Hrausta Her; I Hafenu Rauda dreckte sier, I vorre Skijrn so skieður, Adam Gamle deyr eineñ hier, Öllum Synda Hoop meður.

9. Sw Laug er Gler-Sioor þesse þa, Pañ Johañes i Anda sæ, giegnum Skijrn skijna kuña, Niettlætes Geyslar HErrañs hæ, I Hiörtun og Sæler Maña.

10. Ezechiels þad Vitrun var, Vatn af Musterre framflaut þar, gaf Lijf og Græðing saña, kañ so

so Skijrnar Flood Christneñar, Kømed hreinsa Syndaña.

11. J Skijrneñe eru aller Meñ, af Andlegu Meine grædder señ, er þvi vel adgiætande, ad vær ei Syndgum aptur eñ, so añad verra hende.

12. Christi Riettlæte klædunst vier, sem kostulegaste Skrwdeñ er, Þvi ber oss vel ad vanda, ad vær hañ kvolum ecke hier, med Oklarendum Synda.

13. Endurfæding vor orka kañ, ad Krossfestest sa Gamle Mañ, eñ nijr upp aptur stande, J Meinleyse uppalest hañ, Æfeñlega blijfande.

14. Sierhver Madur, sem mællt er hier, Mustere Heilags Anda er, Þvi skyllde hañ vel vanda, Veglegañ Sess i siælfum sier, soddañ Gieste til Handa.

15. Vier høfum vijst i Vatnsins Sæ, vorum Gude Trwlofast þa, og svarest allar Stunder, Lætum oss ecke sijdañ siæ, Satans Merkiunum under.

16. Send þu oss Drottenñ saña Dæd, so vier heholldum Skijrnar Ræd, eñ alldrei af oss briootum, Hier med prijsum þitt Hiælpar Ræd, Hvers æfeñlega niootum, Amen.

## 18. Psalmur.

### Um Christi Lijkama og Bloods Hiælpsamlega Medtekning.

Ton, Giæsku Guds vier prijsum.

HVer sem ad Holld mitt etur, hver sem dreckur mitt Blood, JEsus soddañ framsetur, sw lifer ætijd Piood, O! hvad gott Giestabod? O! hvad hollt Andar Fæde? O! hvad Lijfkroptug Giæde? O! hvad sætt Eingla Braud?

2. Nu maa neyta og drecka, Naadar Braud giefst oss hier, so meigum siaa og smacka, hvad sætur DRottenn er, O! hvad hollt Himna Braud, eilijft Lijf i sier hefur, eilijft Lijf Pioodum giefur, eilijft Lijf ollum baud.

3. Lifanda Lijfs af Bruñe, lootum oss drecka señ, Guds Hwss Gnægd hun kuñe, giora vel druckna Meñ, Kome þvi Pyrster hier, kauped fyrer alls ecke, ete Svaanger og drecki, biodast nu bestu Kior.

4. So ertu Saal miin lijka, sañlega bodeñ nu, fyrer Sadning so rijka, svong og þurftug ert þu, Fagnande flijttu þier, fyrst þiñar Forþienustu, Sie og Gull eckert veitstu, Giefens þa þigg þu hier.

5. Vor er ad vijsu eige, Verdskulldan nockru nijt, Spaamadur þvi so seiger: Silfur þeir vega wt, fæst þo ei fyrer þad Braud, Erfide opt sem reyna, ei viñur Sadning neina, Samt er þo Saaleñ snaud.

6. Alldrei Samvitsku sedur, sialfs Forþienan hier, Goodverkum maa ei medur, Myskun Guds kaupa sier, siaa þu þa Saala mijn, þeirrar Fædu þu neyter, þier sem JEsus nu veiter, Giefens fyrer Giæsku sijn.

7. O! þa Daasemd dijrmæta, DRotteñ Gud verkar hier, hañs saarum Holld ad eta, hañs Blood nu

nu dreckum vier, hañ eiñ allt orkad fær, hañs Dijrd um̃ Heimeñ greidest, hañs Lof svo vijdt wtbreidest Ei..s og Eilijfdeñ nær, Amen.

## 19. Psalmur.

### Uñ Darsamlega Skickan DRottenlegrar Kvolld-Maaltijdar.

Ton, O! JEsu Elsku hreiñ.

JChristi Kvolld-Maaltijd, Kræsing veitest oss blijd, Naadar Fiehirdslañ frijd, faatækum opnast Lyd.

2 Himna Braud ei þad er, ad nu medtokum vier, helldur med sialfum sier, sedur oss DRotteñ hier.

3. Gud hafde ei ædra neitt, oss so þad feinge veitt, helldur eñ sitt Hollded eitt, hvers vier nu saaum neytt.

4. Oss Molldar Madka hañ, med þessu næra vañ, hverneñ þa hata kañ, Holld sitt þad med oss fañ?

5. Utdrijfur Andleg Mein, Oll þesse Fædañ hrein, Lijfkroptug Lækning ein, linande Daudans Grein.

6. Pad Braud er best til sañs, Balsam Odaudleikans, Grædt fær og Hollded hañs, hverskins Stoorglæpe Mañs.

7. Hvar veit nu nockur Mañ, neiñ Hlut svo Banvænañ, ad giete ei grædda hañ, Guds Daude sem allt vañ?

8. Hvar kañtu Sál mijn sia, Satans Skeyte so hnia, Ad Nadar Skiolld orke a, Oss sem JEsus nam sa?

9. Hvar hellst at Heimsens Piood, Hættelegt, Mein svo stood, Ad JESU Blessad Blood, Boot sie ei härla good?

10. Heilagast Holld bad er, Hvert nu medtokum vier, Lytur þvi Himna Hér, Og Hatigna Einglarner.

11. Liodmar nu Lijfs Trie mætt, Lauf-Blod þess sa allt Grædt, Og aflagad Endurbætt, Allt Ramt giørande Sætt.

12. Fagne nu allt hvad er, er skylldt Gud losum vier, Vier gierum Packer hier, Pier sem oss Myskun tier, Amen.

## 20. Psalmur.

### Um þad, Hverneñ Madur skal sig tilreida, ádur eñ hañ geingur til þess Háverduga Alltaris Sacramentis.

Ton, JEsus Christus ad Jordan kom.

HVer sem ad HErrañs Holld og Blood, Hyggur sier ad medtaka, Leyndardoom Guds þad þecke Piood, Þvi skal sig best Ransaka, So sem Postuleñ Paulus tier, uñ Proofan Christi Sauda, Afelle svo ei ete sier, Edur i Lijfs Stad Dauda, Sem aflar Sálu Nauda.

2. Þesse Proofun hun Andleg er, uñ hana sellur Reda, Molld og Aska er Madur hver, Madka og

og Orma-Fæda, Af Jordūne uppreñur Mañ, Af Jordūne hier nærest, Ad Jordu verdur aptur hañ, J Jordūne fortærest, wr Jordu aptur færest

3. Hvad er Mañskiepnañ añad eñ, Andstyggelegt Blood-Sæde? Til Omaks fædast aller Meñ, Odum falla Lijfs Giæde, Hiervistar Stunder hefur faar, Hiervistar Rauner margar, Hiervisteñ þegar heutast staar, Hiervistum Daudeñ fargar, Hiervistar Bloom ei biargar.

4. J Fædingu veit eingeñ Hvad, uñ hañs Hage þa skiedur, A Dauda Stundu eins er þad, Ef eñ dregst Sorgum medur, Oll Skepnd Skiepnañ eckert er, Er þo Madureñ miña, J Auglite sijns HErra hier, Hier vegna Synda siña, Er þær þo ecke viña.

5. Kvølldmaaltijd Guds nu sioaum señ, Sijna med Lyndardooma, Sacramentum þad merke Meñ, Meddeiling Christs Lijkama, Lijfsens Uppsprettu Lind þad er, Lijf og Raad sem oss giefur, Lijfkroptug þesse Lækning hier, Lijfsens Grand allt af skiefur, Lijf eilijft i sier hefur.

6. Þetta vors HErra Holld og Blood, Hvert oss til Rautnar kiore, Helgar og giører Heimsens Piood, Heilags Anda Mustere, Læknande Andleg Lemstrar Saar, Læknande Synd banvæna, Lækning þesse og Lijfgun klaar, Læknar Guds Born alleina, Riett-Trwader þad reyna.

7. Fagne nu Christi Brwdur blijd, Brwdgumañs

gumañs Roddu hlyde, J Brwdkaup Lambsens bodeñ friid, Brwdkaups Klæde sig skriide, Brwdkaups Klæded þad besta Hnoss, Brwdgumañs er Riettlæte, Brwdkaups Skrwda þeirri bw þu oss, Brwdgumeñ JEsu sæte, Og leid oss i Lijffsens Mæte, Amen.

## 21. Psalmur.
## Uñ Christi Uppstigning.

Ton, Oll Christneñ gief ad Gaum.

SJaa þig mijn Saal uñ kriing, Siaa nu Christs Uppstigning, Siaa nu hvert Gagn hun giefur, Guds Rijke opnad hefur, DRottens Lof Lijdur magne, Lijffsens Jñgaungu fagne.

2. Lijfs voru luktar Dyr, Luckt var Paradys fyr, Eñ Christi Uppfor kuñe, Opna þañ Veg Saaluñe, DRotteñs Lof Lydur magne, Lijffsens Jñgaungu fagne.

3. Ofañ stie hijngad hañ, Hier svo Riettlætte Mañ, Eins lijka upp nam stiiga, Oss ad giora Dyrdlega, DRotteñs Lof Lydur magne, L. J. f.

4. Sem Brwdur bliid i Lund, Brwdgumans girnest Fund, Saal mijn laat þig so lainga, J Lamb sens Brwdkaup iñgainga, DRotteñs Lof.

5. Af Fialle Oliveti, Uppstie vor DRotteñ þvi, Frid og Saatt framberande, Fognud Samvitskym sende, DRotteñs Lof Lydur magne, L. J. f.

6. Med honum maattu þa, Mijn Saal a Fialled gaa, Goodum med Girndar Hootum, gior þad, eñ ecke Footum, DRotteñs Lof Lydur m. L. J. f.

7. Fiall

7. Fiall merker Himeneñ hær, Hañ skalltu girnast æ, Sliettlended Heimsens Hrecke, Hverium þu fylger ecke, DRottens Lof Lydur m. L. J. f.

8. Bethania eitt er, Angistar Hwsed hier, Siegnum bad Leid þijn liggur, Lijfsens til ferdast hyggur, DRottens Lof Lydur m. L. J. f.

9. Hver Sæl sem hyggst ad fæ, Til Himeñs med Christo nær Godverkum giarnañ safne, Gudhrædd, eñ Vondu hafne, DRottens L. L. m. L. J. f.

10. Guds Barna Himnesk Høll, Heilog og blessud øll, Saurugt kañ sijdst ad lijda, Synd mæ þar wte bijda, DRottens Lof L. m. L. J. f.

11. Hañ sem gott hyggst ad fæ, Hañ sem Gud gyrnest siæ, Hañ skal sier hier fyrst haga, Hañs i Augsyn Gudlega, DRottens Lof L. m. L. J. f.

12. DROTTeñ gief Dugnad þu, DROTTens Bod rækium nu, DROTTens i Dyrdar-Prijde, DROTTeñ oss alla leide, DROTTens Lof Lydur magne, Lof DROTTens alldrei þagne, AMEN.

## 22. Psalmur.

## Um þañ Heilaga Anda.

Ton, Nu hefst Nopttcñ og hylur Dag.

ÞA vor HErra til Himna stie, Heilagañ Anda ofañ sende, Yfer Postula allra fyrst, A Hvijtasuñu i hægum Gust.

2. Bæn og Eindrægne blifni, Bænar Andeñ kom yfer þa þvi, Samband Elskuñar siælfur hañ,

Samanbatt Trwne Gud og Mañ.

3. J Reide-Ellde ofañ foor, ædur fordum Gud Skapare vor, J Ástar Loga Ande hañs, Ofañ stie nú til Syndugs Mañs.

4. So sem ad JEsus Son Guds var, Sendur Heime til Frelsunar, Eins kom Heilagur Ande nu, Oss ad heiga i riettre Trw.

5. Saal verkar Lijfed Lijkamañs, Limaña Afl og Hræring hañs, Allt eins Heilagur Ande kañ, Andlega ad hræra og Lijfga Mañ.

6. Salómons Hws vid Fyrstu Foorn, Fyllte Guds Dyrd i ytstu Horn, Vid Bænoffur Hws Hiarta þiins, Heilags Anda Dyrd fyller eins.

7. Sæ Helgum Anda yfer byr, Athøfn siñe til besta snyr, Øllum vill giarnañ gagnast hañ, Guds vors i þvi Sporgaungu Mañ.

8. Helgum Anda sie hæatt Lof tied, Hædstum Fødur og Syne med, Fyrer Ástgiafer allar señ, Amen af Hiarta synge Meñ, A M E N.

## 23. Psalmur.

## Uñ Vegseind Heilagrar Christni.

Ton, A Eirn Gud vil eg trwa.

GEim ad i tæku Toome, Trwud Saala med Packargiørd, ad Gud þiñ Fader froome, Fieck þier Hæle hiaa siñe Hiørd, Pad er hañs Christneñ klæra, Christi Uñustañ trw, Eingeñ Afelles Bæra, Orkar þier dreckia nu, J Ørk Guds Barna ertu, Jñleidd og geymd i Hlie, Uñ heñe og allteins vertu,

9. Sitt Gootʒ med Okre eingvum liær, ei er Fieploogur honum kiær, fordast hañ jafnañ Flærd og Raup, Falſka Voru og Viela Kaup.

10. Leid er honum Slægd Lymſkulig, lætur ei Mrotu blinda ſig, So ad i Doome Oſekañ, Ogylde fyrer nockurn Mañ.

11. Hver ſo lifer og hegdar ſier, og HErra JEſu treyſter hier, Huggun aa Jordu hañ mun faa, og Himneſka Sælu Gude hiaa.

## Ein Andleg Viiſa, um̄ Chriſtelegt Lijferne, Og Andlegañ Piilagrijmſkap.

Ton, JEſus Chriſtus aa Kroſſe var.

HVer hiaalpaſt vill i Heimſins Kvol, hañ rijſe upp og veníeſt vel, ad gaanga aa Guds Veige, hafe Trwna og þar med Þol, þijdeſt Veroldu eige.

2. Þañ Veg ſem gaanga verdur Mañ, Bode og Mæda er um̄ hañ, hafed þad opt i Huga, farſæll þar ecke fiñaſt kañ, fullur af Eymd og Trega.

3. Hollded ſkielfur og ſkygneſt braatt, ſkiædur Ovin ſem kome braatt, ſa þvi ſañlega naae, Ef Lauf med Þyt af Eikum datt, ætlar ſig nidur ſlaae.

4. Þa Hollded nu til Gruña gaar, Grim̄ur Daude þvi moote ſtaar, Ondeñ er friaals aa Gaange, Einſtijgur verdur oſs þa klaar, um̄ hvern vier villtunſt leinge.

5. Nu kiemſt Farandeñ uppaa Foot, Frelſareñ tekur honum i moot, vijſar aa Veigeñ beſta, ei maa hañ ſkada Ogneñ ſlioot, Anda hañs vill ſtadfeſta.

6. Ognarlegt Strijd uppbyriaſt þa, aafram̄ leingra

leingra ef sækiest ꝏ, Ovine hitter illa, Holld og Blood vill sier viikia frꝏ, verda sig lꝏta stilla.

7. Ef Hofdingeñ ei bliifde Piin, og Hialp veitte Riddara siin, Audsiiñ være þa Vodeñ, Hañ kallar hꝏtt: Komed til miin, Kiorner til Arfs af Gude.

8. Miñ Kross alldrei afleggia mꝏtt, Eg giøre vid þig Trygd og Sꝏtt, Par frꝏ lꝏt þig ei giña, Hallt fram, ꝏ Bak ei horfa mꝏtt, Heill skalltu siidar fiña.

9. Vegur og Dyr eg eine er, Eingeñ nꝏer ad sie hiꝏ mier, ef Fader hañ ei leider. Ei fiñst sw Stiborn nie Styrkur hier, ad standest miina Reide.

10. Fadereñ hefur sitt Fylge giort, Fridar Ord hañs er kieñt og heyrt, Hiartad þar med ad hræra, Himna hefur þu opnad Port, hrein Ord siin lætur læra.

11. Miñstu ad hallda miinum Veg, miwklega þier þar kieñe eg, tilbioo þier Braut med fyrsta, Velferd þiin skal ei verda treg, vilier þu ꝏ mig treysta.

12. Heims Sælu, Glys og Gootzed allt, gyrnast hverke nie elska skallt, ꝏttu þad allt forlꝏta, þitt Liif og Holld i Pꝏning hallt, Pad heiter sig ad hata.

13. Giæt þiin sem best og gaumgiæf eitt, ad Gꝏng þiñ ville ecke neitt, ei misser Eingla Klæde, Ovinum er þad ecke leidt, ꝏ sækia þꝏ med Bræde.

14. Halt þiinum Muñe, og fylg þu Frid, fordast

aſt oll Svik og vondañ Sid, Guds Ord ſkallt heyra giarna, Gior ſo, þa veiter Gud þier Lid, Grimd hañs ſkallt vel þier varna.

15. Sem þu kiemur i ſijduſtu Tijd, ſo byriar ſro alvarleg Neyd, og vitiar þijn med Vallde, hail og tæp er ſro erfid Leid, um̃krijngd med Vatne og Ellde.

16. Hrygd og Skiælfte þa hrella Ond, Holld reyneſt meſt a þeirre Stund, Helviite mun ſig ſyna, Miñſtu oflugre er Guds Hond, allt ſlijkt kañ vel ad lina.

17. Strax er Andeñ vilingur vel, Vid Gud ſkilur þa eingeñ Kvol, Ei Sverd nie Neyd æ Jordu, Ver þiñ Kroſs þar til kiemur Hel, Kiorgripur þier ſvo verdur.

18. Hier epter kiemur Eilijf Tijd, J þeirre er hverke Ar nie Sijd, Su er Sælañ Eilijfa, Hvad þa HErra hietſt þijnum Lyd, Pad muñtu Eflauſt giefa.

19. Eilijfe Gud vier þockum þier, Þijna Myſkun og Millde hier, Oſs ſyner ollum ſamañ, Gief oſs Fognud og Frid med þier, Fyrer JEſum Chriſtum Amen.

## Eiñ Jdranar Pſalmur.

Mæ ſyngia ſem, Konung David ſem kiende.

EG Aumur mig æklaga, Um̃ Brot og fleſta Synd, Sem mijna Saalu naga, Saaraſt æ alla Lund, Pvi fleire kañ eg bær, Eñ Sand æ Siœfar Gruñe, Særdre Ondu miñe, Klyf ſo þung Kvaler ſær.

2. Fra

2. Fra mier er allur Fridur, Eg fyllest Ecka og Mood, Æ dregst eg diwpara nidur, J Dauda og Vijtes Glood, Hvarf mier oll Hiaalp og Raad, Utan Ondu so saara, Af Syndum giore klaara, Og græde þijn Gudleg Naad.

3. Hugur, Hiartad og Sinne, Hiaa mier faa eingva Dvøl, Eg skielf i Ondu minne, Sockenn i Synda Kvøl, Miog Mattlaus orden er, Hugraun og Harmar mijner, Hiaa mier eru audsyner, O! Gud Myskuna mier.

4. Þier O Drotten miog i moote, Eg morg Brot og Synder vann, Adstod þijn ei mig þrioote, Annars ei standast kann, Þinn Doom og þwnga Heypt, Siaa þu Vægd Saalu minne, Sem eg fel Myskun þinne, wr Kvøl so yrde keypt.

5 Brioost mitt Efa burt hrinder, Bodum Christs hafna sijst, Saa Einn bar mijnar Synder, Sijn Grøf hefur þær hyst, Handskrift hefur af maad, A þad eg mig reide, Ad ecke mig þvi sneide, Daude nie Diøfuls Raad.

6. Hadung hreke þa alla, Mig hata Sakalaust, J Feigdar Snoru falla, Fiotrader missa Traust, Sem biuggu minne Saal, Oll mijn Hugraun sig Endar, Ogiæfann burtu vendar, Þa Gude þyker Maal.

7. A Guds Raad eg skal setia, Alla mijna Von og Trw, Laat mig ei neinn Voda letia, Lijknargiorn Hondenn su, Hwenn er blijd til þess, Ollum sem hann aakalla, Afþvær Sekt þeirra alla, Sokum sijns Riettlætes.

8. Fødur og Son Guds sæta, Samt Helgañ Anda eg bid, Hug miñ hryggvañ ad kiæta, Og hallda siñ Lærdoom vid, Pa leysest Lijf fraa Ond, Svefn mier sælañ greide, Saal til Lijffens leide, Hana fel eg i hañs Hond.

9. Ovirdtur, Aumur, Smaadur, Ort hefur Kvedling þañ, Miog i Mañraunum þiaadur, Margur hiellt sekañ Mañ, Opt bregdast Otlun kañ, Saung af saarum Moode, Sem hañ bar i Hliede, Gud eiñ veit giorst um̃ hañ.

## Eiñ Bænar Psalmur i Krosse og Mootgaange.

Med Lag, Heill Helgra Mañа.

TAk af oss Fader, Ofþwnga Reide, Og Hyrting harda, Hægre laat verda, So ad Hefndar Efnum, Ei mætum so jofnum, Sem Sekt til sofnum.

2. Ef Refsing rietta, Raung Verk vor hitta, Hver stendst so strijda, Stroffunar Kvøl ad lijda? Hefndar Hrijsed reida, Hratt kyñe eyda, Bygd Heimsens breida.

3. Siaa þvi Vægd vorum, Vondsku Haattum stoorum, Og laat Riette lijka, Lijkn þijna fylgia rijka, Samt maa sæt blijfa, Sekt Heims ad hlijfa, Art þijn eillijfa.

4. Heimsens Heills Smidur, hvi ertu so reidur? Ormum Ohreinum, Efne vort vier greinum, Kveik spillt, Moor Molldar, Myrkur Veralldar, Fet Torfa Folldar.

5. Fedra

5. Fedra Sekt forna, Fleckar oss borna, Veyk-
añ vorn Huga, Viel Hollds vors þraabuga, Ma-
ñs Neyd so stwkre, Sion þijn ad hiwkre med Myß-
kun miwkre.

6. Laat Christs Koronu, Kross Nagla og Pij-
nu, Bond beyskañ Dauda, Og Blooded hañs hid
Rauda, Mylt mille standa, Mergd vorra Syn-
da, Og Handar Hegnanda.

7. Søsugt Guds Smijde, Slotun ei nijde,
Lausnar Pijsl lioosa, Laat ei vera Gagnlausa,
Dyrst Vatn og Dreyre, O Notteñs Briooste hi-
er vere, Lausn Synda Saure.

8. Heill þa helgasta, Halldast laattu fasta, Oss
Christnum øllum, A þig nu af þvi kollum, Eiñ Gud
og Preñe, J Hœtigneñe, Heims HErrañ sañe,
Amen.

## IV.

# Umm Kross og Mootgæng.

## Huggunar Psalmur i Mañraunum og Mootgœnge.

Med Lag, Gude Lof skallt Ønd.

AF Eiñ Gud vil eg trwa, allmargt þo mier gœnge
œ moot, Sœ Hug til hañs vill snwa, vid Hel-
lar Pijnu mun fiña Boot, J Jord þo Lijked ligge,
Lijkast Molldu nu, Og i Grofeñe Geymslu þigge,
Grunlaust þad er mijn Trw, Lausnareñ lijfgar
Anda, Sem lofa hañs Blessud Maal, Daude

gietur ei grandad, Nie glatad miñe Sæal:

2. Braut mijna Bro þu HErra, Biarga þu mier a Hialpar Veg, Aumum ei mun þverra, Eilijf Nand þijn, Þvi treyste eg. Ast þijn vill ei þess Dauda, Sem Jordan fiñst ei hiat, Frelsa mig fra þeim Voda, Fullsæll er eg þa, Lijfed og Sælu saña, Sonur þiñ keypte mier, Fyrer Ander allra Maña, A Krosse daaeñ er.

3. Christi Kieñing blijda, Kroptug byr mier Muñe i, wtgeingeñ er so vijda, Aller skulum vier fagna þvi, Hañ vill mier Syndugum syna, Saña Hiartans Ast, Ad Ordum hañs ei skal eg tijna, Ad þeim helldur daast, Ei vill hañ mig uppgiefa, Einka Hirder vor, Su Von er soñ aan Efa, Þo Sorg mijn og Raun sie stoor.

4. DRottens Otte mier uñe, Ætijd so lifa i Heime hier, Ad eg Kiærleik hallda kuñe, vid Christna Meñ sem skylldt er mier, Trwna Sidgiæde syne, Syndaña varest Villd, Heldur Guds hatt so skijne, Ad hlijfest þijn Myskun milld, Maklega mier ad giallda, Margskonar Synda Grein, Ef Hefnd ardoom villt fram̃ hallda, Hialpast ei Mañeskiañ nein.

5. Eymdum vafeñ og Vanda, Veitst þu giørla Mañeñ hvern, Vid Anaud Obriotanda, ætijd bwa Maña Born, Af Leyr og Molldu mynder, Mañlegt Hollded hlaut, Ysred skiott þad ender, Pa Andeñ hverfur Braut, A styttre Stundu þrijtur, Þo stærre gyrnest Dvol, Fra Heime fliott burt slijtur,

ur, Farleg Daudans Kvol.

6. Frid veittu voru Lande, Volldug Fader Fyrr og Sijd, Yfermonum ollu Grande, og Undergiefnum forda Lyd, Pa lijdur ad Lijffens Enda, Og liner Heimsens Stund, Gief oss þin Guddooms Anda, Ad gledie vora Lund, Fader og Son urenn sæte, Og Sanleiks Anden best, Hann geyme vor og giæte, Pa geingur æ moote mest.

## Hugboot i Soott og Mootgange.

Med Ton, Være nu Gud oss ecke hiaa.

Aull Guds Born Hughraust verum vær, Vijlunst i eingvann Maata, Ad HErra Gud vor heimvitiar, Helldur skulum þvi jaata, Forþient hofum vier Hyrting þa, Hver Madur vid þvi gaanga maa, Eingenn kann sig afbata.

2. Pvi giefum oss æ þijna Naad, Pu ert vor kiære Fader, Velferd, Upphellde, Vernd og Raad, Vor Hlijfd er Taal og Skade, Holld vort og Lijf i Heimsens Dvol, Hladed er allskyns Eymd og Kvol, Hiaa þier er Von æ Fagnade.

3. Hveiteskorn eingvann Avoxt ber, Ef ei fellur æ Jordu, Vort Jardneskt Holld so einenn er, Utann ad Molldu verde, So komum vier i sama Dyrd, Sem JEsus tilbioo sine Hiord, Hans Dauda Heill þad giorde.

4. Fwser skilium vid hættann Heim, Hann er vor Raunastadur, Eitt Sinn fer hver fraa Eymdum þeim, Ofvijdenn er saa Madur, Sem sofnar eins og

Simeon, Sañlega trwde a Guds Son, Sæ mun afgaunga gladur.

5. Siaa vel um̃ þijna Saal og Lijf, Sialfur Gud vill þig geyma, Hañs Vardhallds Einglar vissa Hlijf, Veita þier alla Tijma, Eins sem Hæn- añ sijn Ungakorn, Elskar, Fordar og veiter Vorn, So leider Gud oss auma.

6. Vier erum hañs Eign og eigeñ Hiw, Hvert vokum eda sofum, A Christo stendur oll vor Trw, Ofluga Vernd þvi hofum, Adam fieck oss i Dau- da leidt, Eñ JEsus Naad og Blessan veitt, Hañs Nafn Heidrum og Lofum.

## Bænar Psalmur, þa Stoor-Soott og Siwkdoomur yfergeingur.

Med Lag sem, Fader vor sem aa Himnum ert.

Eilijfe Gud vor einka Von, Aumka þu oss fyrer þiñ Son, Þijn Magt er stoor, Þijn Millde er blijd, Myskuna þijnum auma Lyd, Hrygd og Kvol vora Hugleid nu, Hiaa þier Einum er Lækning su.

2. Vid Fals Snoru oss forda þu, Forræde Diofuls burtu snw, Mañskiæd Land-Plaaga liñe braatt, Laat skyla oss þiñ mykla Maatt, Vert þu vor Borg og volldug Hlijf, Vernda med Myskun Ond og Lijf.

3. Sem Hænañ Ungum hiwkrar vel, Hlijfer med sijnum Væng vid Kvol, So frelsa oss af Ogn um Noott, Og Pijlum sem fram̃ fara sliott, Fraa Meine sem i Myrkre skier, Og Middags Plaagu sem hættust er.

4. Grim̃

4. Grim Reide þijn umgeingur hart, Grijpur brædlega Foolked margt, Eins sem Gras þad i Dag er heillt, A Morgun strax er nidur fellt, Giæsku miinest þijn Milldeñ froom, Mykun lat fylgia þijnum Doom.

5. Pitt Ord huggar vor Hiortu best, Hvar iñe þu oss fyrerhietst, Ad vottar oss þijn eigeñ Born, Eñ þig Nadugaň Fodur vorn, Af þvi setium vier allt vort Traust, A þig vorn HErra Efalaust.

6. Biood þijnum Einglum brædre Goott, Burtu fra oss ad snwa fliodt, og hafa oss i Hond um fier, Hvar sem um vorn Veg gongum vier, So hverge Fætur hitte Stein, Og hindrud verde Kollun nein.

7. Astsamlega oss ælijt þu, um Hiælp og Styrk þijn leitum nu, Vier bidium þig i vorre Neyd, Virdst oss ad heyra millde Gud, Svipt oss wr Dauda Goott og Kvol, Sæmd veittu oss og hugga vel.

8. Lattu oss Heill og Hiæstod fa, Heipt þijna eingeñ standast ma, Leingre Æfe af Nad oss gief, Ad þock am þier og syngium Lof, Ad sijdustu Stundu send oss Frid, Sælum vorum og tak þu vid, Amen.

## Af þeim 11. Cap. Matth. Komed til mijn, Og taked mitt Ok uppa ydur.

Med sijnum Ton.

GUds Son kallar, Komed til mijn, Sem kvijded vid ydar Andar Pijn, Og Synder jafnañ sæ-

ra, Meñ Kvíñur, Allbraber og Børn, Ydur vil eg vera Naabargiarn, Og alla Endurnæra.

2. Ok mitt er ſætt, Og Byrde liett, Epterfylg mier, ſo munt þu riett, hiaa Helvijte ſneida, hiaalpa ſkal þier mijn Hiaaſtod merk, hlioota muntu af mijn um Styrk, Arf Guds eilijfra Giæda.

3. Allt þad ſem giorde eg ydur og leid, um̃ Æſe mijna fyrr og ſijd, A ydur vil eg ſkilia, Ahvggiu Verk og ydart Maal, Allt riett og gott þad vera ſkal, Ef geingur Guds ad Vilia.

4. Hiaalpræde kys og Heimur ſaa, hatar þo alla Mædu þa, Sem Børn Guds hlioota ad bera, Þad tekſt þo ei aa añañ Haatt, A þad ven þig ſem meſt þu maatt, Vilier þu hoolpeñ vera.

5. Øll Skiepna vel þvi Vitne ber, um̃ Votneñ, Lopt og Jord ſem er, vid Kvøl ſier kañ ei forda. J Guds Nafne ſaa ei vill þad, Med ſijdaſta mun i Kvala Stad, Sitia med Hugraun harda.

6. Heill, Ungur væñ i Dag er Mañ, A Morgun Siwkur og Saar er hañ, Framlideñ flioott vier reinum, Lijka ſem Bloome væñ um̃ Voll, Veralldar Prijde þrijtur oll, Og eydeſt i Svip einum.

7. Hollded kvijdet vid Kvøl og Deyd, þa komeñ er Mañ i Sijduſtu Neyd, þa fyrſt byria froomer verda, Eiñ ſtundar hitt, eñ Añar þad, alla Lijfdaga þaangad ad, um̃ ſijna Saal ei hirda.

8. Þa Lijfed ecke leingur ſæſt, leyner ſier ei Aſokun ſtædſt, Þa vill ſig Gude giefa, Hvert ſa Gudlega hitter Naad, ſem hefur ovirdt og jafnañ ſmaad, Þad horfer helſt til Efa. 9.

9. Rijkum-Fiaarmagn ei forda kañ, Frelsar ei Hreyste Yngismañ, fraa sijnum Fegnud þeir hnijga, Po Verolld veittest einum oll, Audur heñar Sylfur og Gull, J Daudans Daus maa stijga.

10. Lærda verndar ei Vitska sijn, Vols, Makt og Sæla Heimsins dvijn, Aller hliootum ad deya, Saa Gude vill ei gaanga aa Hond, þa giefed er Lijf og Andar Stund, J eilijfre Eymd mun þreya.

11. Heyred og merked Børneñ blijd, sem bundnd Trw vid sañañ Gud, Ydur skal Kvol ei ergia, Hreinum Guds Ordum halldeð trauft, hugga þau ydur efalaust, Æ vill Gud ydur biarga.

12. Alldrei launed Jllu illt, ydar Lijfe sie saklaust og stillt, ei laated ydur upp erta. Einstijg þañ gaanged hier uñ Heim, Hefnd og Dijrd alla giefed þeim, Sem Verolld hart vill hirta.

13. Hefdu þier alla Holldsins Villd, Sælu Virdingar, Goots og Snilld, allskioott yrdud þo kallder, Hirting þvi sender HErra Gud, Holld ydar typtar Krosse med, ad seiñe Sælu halldeð.

14. Pyke Heims Mootlæte þrwngt og straangt, þeynk Vijtes Baal mune heitt og laangt, Hvert Vitlaus Verolld reñur, Med Lijfe og Saal þar liggur i Kvol, sem liñer hverke nie er aa Dvol, Eñ þo alldrei uppbreñur.

15. Pier munud epter þessa Tijd, þiggia med Gude Sælu og Frid, hvert jafnañ Huga snwed, Mañs Twnga eingeñ mæla kañ, Maatt Dijrd og Fognud eilijfañ, Sem Gud hefur ydur bwed.

16. Hvad Gud Milldaste HErra vor, hiet og i sijnu Nafne ioor, oss Christnum ollum samañ, an Esa helldur oll siin Heit, Oss hiaalpe hañ i Eingla Sveit, Fyrer JEsum Christum, Amen.

## Vijsa Drottningareñar af Hungaria Lande.

MA eg Olucku ei moote staa, mun þvi Onaad faa, Heimsins: fyrer Trvona rietta, Po veit eg vijst, Pad er mitt Raad, Guds Hiaalp og Naad, leysast verdur mier þetta, Gud stendur nær, um̃ Stunder þær, dylst hañ þar hiaa, medañ eyder þa, Sem hañs Orde fraa mier fletta.

2. RJett sem eg vil mijn reyneſt Sok, þo eg sie veyk, Gud liet mig Hrædslu fiña, Ad vite eg eckert Valld hier fest, var þad allt best, Verallðlegt maa oss liña, Eilijft Gootz mest, fær Hugeñ hrest, hier vil eg med, voga Lijf og Frid, Gud hiaalp mier ad yfervina.

3. Allt aa sier Æfe, Sem Ordtak er, O! JEsu mier, munt þu standa vid Sijdu, og aasiaa oll Osköp mijn, Eins og være eg þijn, þau sem reisa mier Mootstrijdu, Hlijt eg nu þa, Gotu ad gaa, sem vill Verolld, vel eg Gud mier Skiolld, Hañ leyser mig fraa langre Kvijdu.

V.

# Um Christelega Kyrkiu.

Bænar

## Bænar Lof-Saungur, i allskyns Neyd og Offooknum Christneñar, Og einkañlega a moote Tyrkianum.

Med Lag sem, Af diwpre Hrygd ækalla eg þig.

EIlijfe Gud vort einka Raad, eiñ Fader og vor HErra, Oll Christneñ bidur uñ þijna Naad, æsiaadu Hormung vora, Lijknsamur til vor lijter þu, Lostu vora so þeckium nu, og kyñum Ydran giöra.

2. Syndgast hofum þier miög æ moot, margvijslega uñ Æfe, med Drambe, Hatre Heipt og Bloot, Heims Gyrndum og Saurlijfe, Fiedrætt, Agyrne Fals og Ploog, framed hofum med Lygd og Roog, ei fiñst sa Aumum hlijfe.

3. Helgust Ord þijn, vier hofum smaad, hofnudum þau ad geima, Astverka þiña ecke gaad, yfer oss vard þvi koma, Vondur þiñ stoor og Hirting hörd, Hvar med þu straffar þijna Hiörd, æ þessum efsta Tijma.

4. Miklar Sootter i morgum Stad, Mañfiolda stooraň deyda, Dijr-Tijd geingur og Dreigd ad, aumlega Foolked neyda, Tyrkians Ofrijke æfram fer, æ sæker opt med grimum Her, og kieppest Christne ad eyda.

5. Eingeñ Madur þad þeynkia mæ, þiñ Vond Ræinglega hlijootum, Forskulldad hefur Hirting þa, Hver vor med Syndum liootum. Sw Refsing þijn af riettum Doom, Ræinglæte voru makleg kom, Þvi Bod þijn jafnañ vier brlootum.

6. Af

6. Af þvi vor Fader eiñ ert þu, ei viliũm fraa þi- er falla, Helldur eflaust af Hug og Trw, Hiaastod þijna aakalla, slyia til þijn med fullre Von, forsmaa þu alldrei vora Boon, Þu Verndar þijna alla.

7. Sæt HErra þijn Giæska good, gleyme ei Christne siñe, Vernda oß þijna veyku Þiood, vor Eymd sie þier i Mliñe, Ei duga Vopn vor, Afl nie Strijd, ef þu veiter oß ecke Lid, So Tyrkiañ sigra kyñe.

8. Þu hefur frelsad fordum Tijd, Foolk Jsrael vor Voda, þa Oviner uppvoktu Strijd, ecludu þad ad deyda, Josua, David, Ezechia, og fleirum veitter Lidsemd þa, sem Ritning vottar vijda.

9. Eñ þa Lydur þiñ ysde þig, med allskyns Syndum sijnum, heidrudu Skwrgod Heidenslig, hafnande Lærdoom þijnum, Þa braust Herfoolk a þeirra Lond, byrmde eingvum med grimre Hond, sloo þaa med allskyns Pijnum.

10. Ef þeir sneruſt aptur til þijn, þa Anaud þol- du mesta, og gyrntust Hiaalp af Hiarta sijn, Hiaa- stod lietst þaa ei bresta. Þu leyster þaa af þwngre Kvol, Þeirra Ovine slooſt i Hel, Foolk þitt fieck Huggun besta.

11. Kiære Fader þig kollum vær, Kvol Hormu- leg oß græter, hiaalpa oß eingeñ añar maa, utañ þu HErra sæte, Fyrergief þu oß alla Synd, Ovina Vallde fraa oß hrind, Neyd vora Naad þijn bæte.

12. O! Gud vor Fader eilijfe, a vorar Bæner heyrer, Kom þu til Hiaalpar Christneñe, kvitta af Offookn-

Offooknum giorer, Fyrer JEsum Christum þiñ sæta Son, sem oß forþiente Naadar Von, Hlijfd og Hiaastod oß veiter.

13. O! JEsu Guds Son eingieteñ, ei gleym oß Christnum þijnum, fyrer Haatign og Heidur þiñ, helgañ Mañdoom og Pijnu, Fyrer þitt Blood og Dijrañ Deyd, ONotteñ leys oß af allre Neyd, og frá grimmum Ovinum.

14. Heilage Ande HErra Gud, af Hiarta at þig kollum, wr hættum Kvolum, Hrygd og Neyd Hiaalpa oß Christnum ollum, Ovine vora yfervinn, upplys og blessa Lydeñ þiñ, so alldrei frá þier follum.

15. O! Preñing heilog HErra eiñ, hugga nu Christeñdoomeñ, Gud Fader, Son og Ande hreiñ, ei laat oß hrædast Heimeñ, þa vier skilium vid þetta Lijf, þijn Naad og Myskun sie vor Hlijf, uñ Allder Allda, Amen.

## Hiartnæm Huggun Heilagrar GUDS Christne.

Ton, Pier ONotteñ eg Packer.

GUEtt Lof skal Gude syngia, soñ Christneñ honum kiær, Pier verdur vel ad gaanga, Vernd hañs þvi jafnañ fær, Po margskyns Mædu lijder, medañ þu lifer hier, Adstod Guds alldrei kvijder, wr Voda hañ hiaalpar þier.

2. Pig hefur hañ sier kiored, Huggun med Orde giort, Og þier med Eide svared, af þvi hañs Brwdur ert, Upphellde vill þier veita, vantar þig ei

ei hañs Laan, Ei skal þig Ovin þreyta, þvijnga nie giora Smaan.

3. Mar þad vera ad Mooder, mune ei Barned sitt, Hvert Lijf heñar þo fæder, hirde ei þvi sie fridt? Þo hun aumke þad eige, Astlaus gleyme þvi hier, Samt Gud i Eide seiger, sioa skal eg til med þier.

4. Nær glogt þu vel adgiæter, Guds Adstod, Vernd og Raad, hverke hrædest nie sæter, Heims Reide, Fors nie Haad, hver þig vegna þijns Herra, hatar kvelur og smaar, Gud vill þitt Forsvar vera, vid ollum sem þig þiaar.

5. Hañ brijtur Afl Ovina, og helldur vid þar Strijd, Sem Ofsooknara sijna, sigrade fordum Tijd, Ohefndañ liet ei vera, Offa þeirra nie Mord, So mun ad Oſæmd giora, Svikul Verk, Raad og Ord.

6. Hier fyrer Christneñ helga, hrædst eingva Ogn nie Kvol, Forsioon Guds mun þier fylgia, Freisa og vernda vel, Guds Vellde glogt nu lijtur, gaanga moot Antachrist, Raad hañs og Rijke brijtur, raung Bod og falska Lyst.

7. Glogglega lætur gaanga, Gudspioll sijn vijda nu, Ad brioote Breytne raanga, Blindleik og falska Trw, Lyd sinum liet kuñgiora, Lijkn, Fegnud Raad og Traust, Son Guds af Syndum þeirra, sialfur hafe þa leyst.

8. Ydrast mun hañ þess eige, adur hiet sijnum Lyd, ad Christne endurnye, um̃ þessa sijdustu Tijd, Af Hiarta vill ad þier hyggia, Hiastod vel fær þier sent,

sent, Allvel mun þig uppbyggia, Ord hañs og Sacrament.

9. Gud eigum alltijd lofa, af Naad hañs komeñ er, Sw Heill og sætust Saka, sialfum Christ þockum vier, Hañ virdest oss ad hallda, hier i Trw, Ast og Sid, Laate ei Lasta gialda, leide i Dijrd og Frid.

## Bæn, ad bidia um̃ Frid Christelegrar Kyrkiu.

Ton, Lof saung Gude Mey Maria.

GJef Frid DRotteñ um̃ vora Tijd, Vode nu stoor frañgeingur, Ovin leitar mest ætijd vid, ad Villa sw halldest leingur, Christi Nafn hreint, kiesta vill beint, klaara Guds Ord a Jordu, HErra gief þu, hrein halldest Trw, hlijf oss vid Angre hørdu.

3. Gief Frid hvern ædur høfum mist, med hiaa-Trw og leidum Syndum, Ord þitt bijdur nu øllum Vist, ofmiog moote þvi støndum, Sumer Heill þa, sier hrekia fraa, Sañleik ei vilia hlijfa, Adrer Huglaust, jaata med Raust, aan Guds Otta þo lifa.

3. Gief Frid, og oss þiñ Anda med, ad Hug vorn endurnyе, so Hrosun sijn sie hverium leid, um̃ Hialp til JEsu flije, Ad af hañs Naad, Ill Verk og Raad, Orlog og Heipt nu liñe, a þiñe Hiørd, Þijn Ast og Dijrd, Øllum Heim byrtast kyñe, AMEN.

## Ad bidia fyrer Guds Christne.

Ton, Være nu Gud oss ecke hiaa.

O! Gud besolud æ sie hier, wtvaleñ Christneñ hreina, so hun jafnañ i Heime hier, halldest fyrer Naad þijna, Lat þijna Makt og Sooma siaast, sæta Huggun og saña Ast, vilier oss Aumum syna.

2. Podtt moodgum þig aa margañ Veg, med Synd aa hverium Deige, af þijnum Vilia opt og miøg, Unger og Gamler hneige, hvern Dag styrker oss Huggun sw, hefur þvi losad sialfur þu, Syndugs Dauda vil eg eige.

3. Pa fullkomlega fordast vill, Frañferde sitt hid lioota, og vidurkieñest Verk sijn ill, Velferd og Lijf skal hliоota, Hug vorn gledur sw Huggun væn, heyra virdest þu vora Bæn, lætur oss Naadar niоota.

4. Fyrer þitt Nafn oss frelsa nu, fraa vorre Mædu laangre, Þeim bundner eru biarga þu, burtu fraa þeirra Angre, Hoop þijnum Christna hallt nu vid, Huggun veit þeim og goodañ Frid, J Heims Astrijdu straangre.

5. Sem Borgena Bethulia, brioota villde med Sverde, Holophernes sem hafde þa, Hatur a þijnu Orde, Leyster þu i þeim litla Stad, Lyd allañ sem þig jafnañ bad, Frw Judith þad fullgiorde.

6. Eins er nu Zion sialfs þijns Borg, sokum Kieñinga þiña, af Verolld hweñ Svik og Sorg, sækest hana ad viña, Alleina þu Guds einka Son, ert heñar Vernd og Hialpar Von, Hiaastod lat hana fiña. 7. Heilag-

7. Heilagre Christne hallt þu vid, Heidner so alldrei eyde, Veit þu oss O Drotten Vernd og Lid, Vid Diøfuls Flærd og Reide, Send oss af Myskun sañа Trw, So oss til Enda styrke su, Og i Lijf til þijn leide.

8. Heidrum Gud Fodur og Frelsarañ, Fyrer Myskun margfallda, Og Heilagañ Anda Huggarañ, Hver oss vid Trw vill hallda, Dyrd Guds sem var i Upphafe, Eins nu a Jordu og Himnum sie, Um allar Allder Allda.

## Bænar Psalmur moote Christneñar Ovinum.

Med Ton, Adams Barn Synd.

O! Gud þitt Nafn akollum vier, Eingeñ Hiaalp are añar er, A vorum Eymdar Deige, Ovinar Heipt og Ogn er stoor, Eñ þu O Drotteñ ert Hirder vor, Veit oss hañ viñe eige, Urrræde vort er eingvu neytt, Af þvi vier hofum illa breitt, Og þig til Reide Reitad, Lijt þo a Skijrn vier feingum fyrst, Frelsarañs Blood oss hefur leyst, Naad þijn sær oss ei neitad.

2. Syn þig nu fliott og legg oss Lid, Leitar Ovin ad spille Frid, Pier ber a þad ad lijta, Þvi þad kiemur vid Christna Trw, Kyrkiu þijna Offæker nu, Ord þitt vill af oss slijta, Skule gaanga hañs Grimd vid os, Gudleg Dyrd þijn Heidur og Lof, blijtur hia oss ad liña, HErra fyrer þiñ sæta Son, Siaalfur hindra þu þetta Tioon, Laat oss þitt Fulltijng fiña.

3. Ef tekst Ovina Ogn og Mord, Eingver Dauder þier syngia Dyrd, Nie þeir i Helin stijga, Sel oss ei under soddañ Pian, So Christne þiin hañs verde Rean, Viñ þu hañ vollduglega, Piñ Son JEsus leid þwnga Pijn, Polugur fyrer allt Mañkyn, Af þvi hellst a þig kellum, Vernda oss þijna auma Piood, eingva hofum vier adra Stod, Hialp so ei fraa þier follum.

4. Añars þitt Nafn ei þeckiast kañ, Peigia aller uñ Lausnarañ, Par Ovin þig svo hatar, Heilagañ Anda hæda meir, Hvad er Gud ydar segia þeir? Hañ hefur ydur glatad, Lijksame HErra lijt þar a, Laat þijna Magt oss standa hiaa, Ad þiñe Dyrd upphallde, Pa vilium vier i Eymd og Kross, Eiñeñ i Dauda giefa oss, Pijnu Gudlegu Vallde.

## VI.

# Um Bæner og Þackargiørder,

### Psalmar og Lof-Saungvar.

### Bænar Psalmur ad bidia uñ Von, Kiærleika og Poleñmæde.

JEsu Christe þig kalla eg a, Kvein mitt bid eg þig heyra, Laat mig þa Naad uñ Æfe faa, J þier stoduguñ vera, Uñ hreina Trw þig hellst eg bid, Hana vilier mier giefa, Og Ast aan Efa, J Þorf Samchristnum leggia Lid, Þijn Ord ad hallda og hafa,

2. Miñ

2. Miñ HErra Gud um̃ meira eg bid, Mier kañtu þad vel veita, ad girneſt ei aptur Glæpa Sid, Gief mier Von þar med heita, Einkum þa eg hlyt falla fra, Faſt Trwñe a þig halldе, Og efeſt alldrei, Laat mig ei vænta Verk mijn a, So verde mier ad Giallde.

3. Hialp mier og þar til af Hiartañs Root, Heyptar Moñum forlaate, Lamb Guds veit mijnum Loſtum Boot, So Lifnad miñ þier jaate, Æ ſie mijn Fæda Orded þitt, Ond mijna Fegnud fylle, Vid Freiſtne ſtille, Oluckañ þo mig angre tijtt, Ecke hæglega ville.

4. Laat ei Sælu nie Otta mier, J Verolld frá þier hrinda, Þu hefur allt i Hende þier, Halltmier ſtødugum til Enda, Verdſkulldan eingeñ viñur þad, Nie Verk vor þar til ſtoda, Ad varna Voda, Eckert nema þijn eilijf Naad, Ond miñe fordar Dauda.

5. Eg ligg i Strijde og ſtoorre Kvol, Styrk mig Gud Þioon þiñ veyka, Naad þijn ein hialpar øllum vel, Ei laat mig fra þier ſkeyka, Frelſareñ giefe ei falle eg, J Freiſtne hvenær ſem rata, J einhvern Maata, Siaaer þu hun mig ſækie miog, Sijſt munt þo viña laata.

## Eiñ Bænar Pſalmur.

Med Lag ſem, Hver hiaalpaſt vill i Heimſens.

HLijſd og Naad veit mier HErra Gud, Hialpa þu mier af Synda Naud, J hveriumi eg er al-

eñ, Og send mier Heilags Anda Stod, Ond mijn mun añars kvaleñ.

2. Hiartañs Fader og HErra miñ, halltu mier æ vid Lærdoom þiñ, Krapt þiñ og Raad so kuñe, Heilaglega i hvert eitt Siñ, Heidra med Hug og Muñe.

3. Laat mig og jafnañ lifa riett, Logmaal og Bod sem Gud hefur sett, Af Hug og Vilia hallda, Med Frid og Ast i miñe Stiett, Millde þijn vill þad giallda.

4. Ei vilier mijnar Synder sia, Son þiñ leyste mig Kvolum fraa, Med Dauda og Dyrre Pijnu, Kiærleika þiñ og Kvittun faa, Kuñe eg ei med odru neinu.

5. Mier hefur Gud þiñ sæte Son, Sælu giefed og Lijffens Von, Med siñe Pijsl og Undum, Efslaust frelsar siñ auma Pioon, A miñe Sijdustu Stundu.

6. Eilijfe Gud Allsheriar Raad, Ætijd hefur þu Heime tiaad, Elsku af Millde þiñe, HErra laat þijna Hiaalpar Raad, hugga mitt Briost og Siñe.

7. Riettlætes dyrste Domareñ, O Roiteñ laattu ei Piooneñ þiñ, maklegum Doome mæta, Lijkna þu mier Lijfsgiafare miñ, Lijttu aa Son þiñ sæta.

8. Synder, Helvijte, Diofull og Deyd, Dramb Veralldar og allskyns Neyd, Allt er sigrad af Christe, Ætijd veiter þiñ Andar Frid, ollum Lyd sem hañ leyste.

9. Eckert Mootfall eg Ottast kañ, Af þvi ad

ſanur Hiaalpar Man, J Heimen hefur fared, at ſijnum Mandoom ſiaalfur han, Synd mijna hefur bored.

10. Soa þarf hreinſaſt af Syndum hier, Sem vill i Himnaviſt med þier, Æfeinlega liſa, Nær i Chriſto Nyfæddur er, Raad þijn vill þad mier giefa.

11. Grimlega Fordæmingu fær, Fellur i Pijſler eilijfar, hver ſem hier vill ei trwa, Heilagur Ande honum er fiær, hverge kan undan ſnwa.

12. Hvenær Dauden vill Hug min ſlaa, Hugg un þa eina minneſt aa, Ad JEſu Eign mig jaata han Pfergiefur alldrei þa, ſem aa han ſig foriaata.

13. Hiaalpiega gief mier Hlijfdar Stund, hrædaſt laat mig ei Daudans Fund, ad alldrei fraa þier vijke, Myſkun þijn leide mijna Ønd, med Fognud i Guds Rijke.

14. Hallt mier i Trwne HErra min, Hreinſa þu Brjooſt og Skilningen, Af Synd og illum Vilia, Og gief mier Helgan Anda þin, Ei laat han vid mig ſkilia.

15. A þig er Von og øll mijn Trw, Eins ſem mier loſad hefur þu, Um hvad þig bidia villde, Pa Gaaſu ſkyllde eg þiggia nu, Af þine Raad og Millde.

16. Helge Ande min Huggare, Hiaalp þijn og Vernd mier naalæg ſie, Og ætijd fyrer mig ſtrijde, Nær ſem mig hreller Helvijte, Heimur, Synd, Dioſull, Daude.

17. Dróttenn seiger sannlega so, Sem eg life, Girnd eingva ad, Syndugs Dauda eg hefe, Eg vil hann snwest Illsku frá, Og æfennlega life.

18. O! Gud vor Fader, oll þijn Hiord, Alleina treyster þier á Jord, Lát oss ei frá þier falla, So þier med Lof og Packargiord, Pioonum umm Æfe alla.

19. Fyrer Skopun, Lausn og Lijknseme, Lof, Dyrd, Heidur ad Eilijfu, Umm allann Christenn doomenn, Fodur Syne og Andá sie, Sunged af Hiarta, Amen.

## I moote Hauskasamlegum Saalar Ovinum, Heime og Andskota.

Ton, Má eg Olucku ei moote stá.

GUd veit mier þijna Giæsku Rád, Gief Hiálp og Rád, So meige mig Esenn ei æra, Morg Pusund Ovina þyrpa skal, I þetta Tal, Peir vilia mig frá þier færa; Heimurenn Prett, hefur mier sett, Og Hollded spillt, I Voda villt, Vil eg þad fyrer þier kiæra.

2. Diofull er fyrstur firs á Slægd, med Flærd ar Nægd, Gierer hann Hvecke ad hylia, Po giefur eingenn Gaum þar ad, Gloorar á þad, So kann sá Dreingenn dylia, I frijdre Mynd, Enn fullur af Synd, Felur hann sig, Ad svijkia mig, Vill mig vid Skaparann skilia.

3. Vid þeim Mordingia vernda mig, Vor Gud eg bid þig, Hreinnt i mier Hiarta giordu, Bygger þu ei sialfur þetta Hws, Pa er Fiandenn

fws,

fwo, Ad fella þad nidur ad Jordu, Hvar misse eg viist, HErra JEsu Christ, Piñ Hialpar Dryck, Vid þeñañ Pyck, Pa mæte eg meir eñ hordu.

4. Stattu mier DRotteñ hædste hia, hiedañ i fra, Allt til mijns Alldurs Enda, Vijslega skal eg voga þar a, Sem mest eg ma, Myskun villtu mier senda, Su Von er traust, Vijl er mier laust, Verr alldar Stærd, Og Fianda Flærd, Fra þier ei ma mier venda.

5. Pott Heimsens Ment, Og Dioffla Drott, Drage samañ Ott, Vielræde Svika siña, Hlijfd veiter þu og Hvijldar Vist, HErra JEsu Christ, Allt kañtu yfervina, Vijk eg a burt, Veit eg ei hvort, Verdur ollum eitt, Hug hreller ei neitt, hiar þier læt eg mig siña.

6. HErrañs Dagur mun hefiast snart, Hefner Ospart, Lyd sem hañs Lærdoom hrekia, Og trwa ei i allre Neyd, A þig vor Gud, Synd þeirra sijst munt þekia, Eyder þeim Kvol, Og eilijft Bol, Alvalldur miñ, Mig Prælen þiñ, J Christo virdstu uppvekia.

7. Pu sañe Gud munt hyrma vel, Pijnum Jsrael, A hinum effsta Deige, Gudlauser heyra hardañ Doom, med hvellum Room, Sem þig nu elska eige, Eilijfa Nad, Allsheriar Rad, akalla eg þig, HErra heyr mig, Eign mijna eg þig seige, Amen.

## Eiñ Hiartnæmur Bænar Psálmur.

Med Ton, Guds Son kallar.

ALLt mitt Raad til Guds eg set, A mier siñ Vilia verda liet, mier bid eg hañs Myskun hlijfe, Heilsa, Vit, Lijf, Sal, Heidur Fie, Hañs Vernd jafnañ blijfalad sie, Nu og i Eilijfu Lijfe.

2. Verolld hvad tapad verder braatt, Vidriett er Gud med sijnum Maatt, Pa Angre af vill venda, Verde þvi a mier Vilie þiñ, Vel muntu Hiartans Fader miñ, Leida mig allt til Enda.

3. Hier til bid eg miñ HErra Gud, halltu mier jafnañ vid þijn Bod, Laat mig þeim alldrei neita, Poleñmæde eg þiggia vil, Peim ad vægia sem giora mier til, Sakleyses mijns munt leita.

4. Hvad verdur mier ad Meine þa, Maattugur Gud mier stendur hiaa, hvad kañ mig þa ad þriota? Pu hiaalpar mier af allre Naud, Andar og Lijfsens Heill og Aud, Lætur mig HErra hlioota.

5. O! JEsu Christ mijn einka Von, Hverke Veralldar Happ nie Tioon, Laattu mig fraa þier leida, Naad þijn Avaxte vora Trw, Vid Synd og Kvol oss forda þu, Og gief mier Utfør gooda.

## Idrande Mañs Bænar Loffsaungur.

Med Lag, Hallt oss Gud vid þitt.

MYskunsame og goode Gud, Giæt ad Eymd vorre Kvol og Naud, J vorum Maatt er eingeñ Von, Allijt oss fyrer Christ þiñ Son.

2. Mañs Naattura er aum og blind, Erft hefur þad af Adams Synd, Sijdañ er Madur Synda Þegn, Sañraadeñ under Diofuls Megn.

3. Mañleg Astundan JEsu fraa, avallt girnest

þad verra ꝏ, Allt hañs Riettlæte er þier leidt, Eins og miog saurugt Klæde eitt.

4. Hlijda vill þier ei Holldlegt Skyn, hallded gietur ei Vilia þiñ, Pier einum hiet ad þioona riett, Po hylleſt Diøfuls Rææd og Prett.

5. Ef oſs upplijser ei Ande þiñ, Og i Chriſts Samneyte ei leider iñ, Øll Storf og Mæda er þa tijnd, eckert fiñſt nema Heipt og Synd.

6. Af þiñe Rææd þvi vitum vier, vorar Synder og Miſgiørder, beidunſt Vægdar med liwfre Lund, Leys oſs O Rottẽñ af allre Synd.

7. Pu hrædeſt eingvañ Mañs Mæatt, metur ei þeirra Tignar Hæatt, Vilier þu i Doom vid oſs gꝏ, Vodalega tilhorfeſt þa.

8. Af Mañſkiepnum er eingeñ froom, Af þvi hrædunſt þiñ dijra Doom, Eingva hofum vier Hiꝏlpar Von, ef hlijfer oſs ei þiñ sæte Son.

9. Uppꝏ þijn Ord vier vonum meſt, verndar þu oſs og hiꝏlpar beſt, Oſtraffanlega oſs tilbijr, allt til þeſs hefſt þiñ Dagur dijr.

10. Par til þu hefur i JEſu Chriſt, oſs frꝏ Dauda og Diøfle leyſt, Rææd og Riettlæte veitt oſs vel, vijs er Fognudur vorre Sææl.

11. Utvalningar ei ydraſt þu, Um̃ þad vottar þijn Kieñing trw, Hollur ert oſs og Giæſkugiarn, ſem goodur Fader vid ſitt Barn.

12. Syn oſs Myſkun, og ſend oſs Rææd, ſo jafnañ þockneſt þiñe Rææd, Set oſs i Chriſti Samneyte, ſijdañ Erfingia i Dijrdeñe.

13. Laat þu oss glediа Anda þiñ, af þvi hañ heiter Huggareñ, Ad med Trw, Von og Elsku Styrk, Andskota sigrum og oll hañs Verk.

14. Pier til Heidurs og þiñe Trygd, þioona laat oss med allre Dygd, Ad i Elsku og Hlijdne hier, Hlaup vort Gudlega endum vier.

15. Pier sañe Gud sie swngeñ Dijrd, Syne þijnum og Packargiørd, Helgum Anda a Himne og Jord, Heidur og Lof af þiñe Hiord.

## Yorande Mañs Bænar Saungur.

Med Lag, Gud hañ Eingel siñ Gabriel.

O! Gud Von mijn, er oll til þijn, eiñ ert mijn Hiaalp i Heime, Saal mijna þiaar, morg Neyd og Faar, Myskun þijn, Gud mig geyme, af Synda Saur, eg gieteñ er, og fæddur var þar iñe, So fiell eg fraa Naad þiñe, Fyrer miñe Sioon, er Andar Tioon, Daude og Hel, Og eilijf Kvol, Hvert skal eg Hiaalpar leita? Med hryggre Lund, Fly eg a þiñ Fund, ei munt mier Naadar neita.

2. Mijn Synd og Brot, er morg og lioot, miñar Symdar ei gaade, Yorun og Ast, Otta og Traust, og þijna Naad forsmaade, Nær sem eg stood, J Neyd og Mood, Nafns þijns eg ecke giætte, nie Orde þijnu sætte, eg blindde Fyst, og Holldsins Lyst, Hefd, Dreiss og Skart, hellst var mier kiært, Sælliijfe sveik mig illa, Ef a þiñ Veg, ei snerest eg, myrdt hefde mig sw Villa.

3. Syndgade eg, wt Maata miog, moote Naatunga mijnum, Pañ heidra bar, Ohlijdeñ var, hollur

hollur i eingvum Greinum, Ofrid, Heipt, Smaan, Okur, Svik, Raan, Alyge, Roog med Kviſe, Raunga Gyrnd og Aſtleyſe, af øllum Maatt, ydkade eg hraatt, Hiaalp HErra mier, ſo hlijde hier, hegde ſem Ord hijn kieña, Hvo mijna Ond, af allre Synd, og laat mig Myſkun fiña.

4. Fyrerheit hijn, J Hiarta mijn, helld eg, hat hu ſo ſeiger: So ſañarlega, ſem eg liſe, Syndugs Dauda vil eg eige, Hitt Gyrnd hijn er, hañ ſnwe ſier, fraa ſijnum vonda Veige, og med mier liſa meige, Hver Kvol og Synd, er kvitt og tijnd, af øllum heim, J heſſum Heim, hijn leita, Ydraſt trwa, Til hijn eg ſkal, af Hug og Saal, alvarlega mier ſnwa.

5. Eg helld mier vid, mijns HErra Sid, Af Hiarta vil tilgiefa, Yfd Naaungans, Aſt hef til hañs, ſo Guds Saatt kuñe eg hafa: Miñ Gud hig bid, mig kvitta vid, Margfallda Synda Byrde, So hiaa hier hoolpeñ yrde, Alleina aa hig, eg forlæt mig, Hijn Myſkun trauſt, mig heſur leyſt, ſws ſkal fraa Heime hverfa, Med hiñe Hyrd, Hvijld Fognud Dijrd, J Himnarijke erfa.

## Ein Bæn i Hørmung og Mootgaange.

Med Lag, Fader vor ſem aa Himnum ert.

O! JEſu Chriſt Guds einka Son, Endurlauſn mijn og Naadar Von, Eg veſæll Madur vitia hijn, veit, øllum baudſt: Komed til mijn, hver ſem reyned Hrygd og Neyd, Hiaalp mijn er Lauſn vid Synd og Deyd.

2. Lijkn

2. Lijkn og Bernd ydar vera skal, vid Gud miñ Fodur sætta vel, Fyrer mitt Ord og Anda gief, ydur Kvittun og eilijft Lijf: Eg set miñ Hug a Orded þitt, upplys og hugga Hiartad mitt.

3. An þijn kiemur mier eckert Lid, angradur þijna Myskun bid, fyrer þitt Blessada Blood og Foorn, sem burt tookst Synd og Dauda vorn, J Dijrd þiñe mijn miñstu nu, Milldaste Guds Son eiñ ert þu.

4. Fyrer Mootgange mestum vard, mijn Neyd sie þier af Hiarta kiærd, forlaat mig ei i Eymdum þeim, Adstodarlaus er nu i Heim, Umsioon veit mier af Ast og Naad, Eg gief mig þier og allt mitt Raad.

5. Stod mijn og Skiolldur ertu eiñ, Endurlausn Von og Prestur hreiñ, Bid nu fyrer mig Fodurþiñ, Flyt honum Ord og Mootgang miñ; Lijfs Velferd og Andar Frid, J þiñe Bæn mier veiter Gud.

6. Brot og Synder þa mæda mig, Mijn Trw er veyk og vesællig, Eckert mitt Hiarta hugga kañ, hrædest Afgang og Siwkleikañ, Allar Skiepnur mier flya fra, Frida og gled miñ Anda þa.

7. Ovinar Valld ei angre mig, Oll Von og Trw mijn er a þig, Hryggur Ande og Hiartad kloft heiter Foorn sw þier lijkar glogt, Pa hier skilst Ond vid Holldeð mitt, helge mig dijrq Bloded þitt.

8. Naad þijn giefe mier gooda Stund, geym mijna Saal i þiñe Hond, Eins bid eg ad Borneñ mijn,

mijn, bleſſe og geyme Myſkun þijn, Chriſtnu Hiord þiñe hallt þu vid, hreinañ Lærdoom og goodañ Frid, AMEN.

## Bæn i Hørmungum og ſtoorum Land-Plaagum.

Ton, Hallt oſs Gud vid þitt hreina Ord.

NÆr Hugraun þwnga hittum vier, So hverge neitt Hiaalpræde er, Urræde vort og Adſtod ſlijr, ærla og ſijd oſs Sorgeñ lijr.

2. Ein er vor Huggun epter ſu, Aller ſamañ ad ſøfnuſt nu, Og bidium þig vor blijde Gud, Ad biarga oſs wr allre Neyd.

3. Med hreiñe Joran, Hug og Sioon, høfum til þijn i vorre Boon, Af Loſtum ad oſs leyſer þu, Linare Heſnd ſo nædum nu.

4. Hietſt þu alla ad heyra þa, J Hormum þeim þig kalla æ, Fyrer JEſum þiñ ſæta Son, Sa er vor Heill og Hiaalpar Von.

5. Kiære Fader þvi komum vier, Kvein vort og Harma birtum þier, Veiter ei añar Vernd nie Boot, Vijda og margt þo gange æ moot.

6. Lijt þu ei vora lioota Synd, Lijknſamur biod hun verde tijnd, J Eymdum vorum oſs ſiert nær, Alkvitta gior þu oſs vid þær.

7. Sijdañ ad kyñum ſvipter Kvøl, Af ſoñum Hug þier þacka vel, Pijn Heilog Ord ad hyllaſt beſt, Heidra þig æ ſem meigum meſt.

* * * * * *

## Ein Hugguñar Vijsa i þessa Heims Fartækt og Athugaleyse.

Maa syngia so sem, O! Herra Gud þijn helgu Bod.

ALlt Lucka Glere lijkust er, Laus og styggd ad reyna, Uñ ymsa Stade Ofbraatt ber, Elskar ei Bidlund neina, Af Fylge heñar feingum vier, Fie og Vine hreina, Stundu sijdar strauk fraa mier, Stend þvi nu alleina.

2. Miñstur er eg i miñe Ætt, Miøg faaer mig kieña, Po hefur ad mier HErrañ giætt, Hiaastod veitte Tveña, Hiarta mitt hefur Christur kiætt, Kross þo bere þeña, Saa Harma mijna best fær bætt, Pa burt fraa Heim skal reña.

3. Forsmaad hefur mig Fiølmeñed, sorer Christe eg þad klaga, So margañ hef eg Motgaang sied, Mier giører laanga Daga, Vijllaust skal þo venia Gied, Verde hvers Mañs Saga, Af Trwñe mig i Gude gled, Greider hañ miñ Baga.

4. Pa margt hvarlar i Huga miñ, Heims Laatæded ad skoda, Margañ goodañ eg fromañ fiñ, Sem Fied tæler i Voda, ad hafa Otal Audæfeñ, Ottalegt þvi boda, Froomur hver er þvi forliteñ, Firdtur soddañ Grooda.

5. Fullreyne eg þad fyrr og nær, Fiñst i margañ Maata, Peim eitt Siñ fyrre eg var kiær, aangra nu mig og hata, A Christ alleina vonum vær, Vernd hañs skulum jaata, Saa Hlijfd og Fognud hryggvum fær, Hoolpeñ mun mig laata.

6. Huxe nu uñ þad hver eiñ Mañ, Heims er komeñ

komeñ Ende, Hæde mig ei neiñ um Motgaang þañ, Milldur Gud mier sende, Ef siaum margañ aud-ugañ, Alls Nægd hafa i Hende, Sa sem Gud eignast sæll er hañ, Soñ Trw þañ audkiende.

7. Framliden er nu fyrsta Tijd, fylger þvi kom-ande, Hiaalpe oss JEsu Hiaastod bliid, Heims Raun so ei grande, U..e oss sijnum leysta Lyd, Lif-nad hver vel vande, So sijdar vid hañs Hægre Slid, Himna Arfar stande.

## Andleg Vijsa.

Maa syngia sem, Giæsku Guds vier priisum.

EG gieck a einum Tijma, Ei þo laangañ Veg, Hvar mig Hollded auma, Og Heimur villte mieg, Peckest og þeirra Laat, Andskoteñ bioo oss Prette, Eva ad oss riette, Pa bun af Eple aat.

2. J Paradysar Prijde, Plontud Eykeñ stood, Af þeim einum Vide, Eta bañar Gud, Jllnande Eple bar, Ovinur Faar ried fysa, Frooda giorer og Vijsa, Og skal ei skada par.

3. Ofdirfd ei var funden, Aumkun Boot nie Dvol, Ur Heidre voru hrunden, Heims i þwnga Kvol, Under Regn, Vind og Frost, Hlutu Hws ad smijda, Hafa Stark og Kvijda, Um Klæde Born og Kost.

4. Ymest þoldu Ofhita, Eda yfred kallt Med Sorgum og med Svita, So eyddest Lijfed allt, Og mædest alla Tijd, Gud vill Eymd vora bæta, Og Avaxtar giæta, Vid Froste Hagle og Hrijd.

5. Pa Ond vor aatte ad deya, Eingeñ siec

Kvittun faũ, Fædde oß fromuſt Meya, Frelſaraũ Gud og Maũ, Sem leyſte oß af Synd, Huggun ſaña þar hofum, Himneſkaũ Gud þvi loſum, Liet oß lifa þa Stund.

6. HErraũ Himeñ og Jordu, og Hofudſkiepnurnar, Med ollu odru giorde, Oß til Nytſemdar, Sender oß Soolar Lioos. Frioſgunar Dogg oß fæter, Fienad og Landed nærer, Med Bleſſan mettar oß.

7. Allskyns Fiſkar uppgaanga, J Votnunum og Sioo, Fuglar ſætlega ſyngia, Sitt Lag hefur hver þo, Uñ Lopted leika ſier, Dyreñ uñ Skooga ſkrijda, Skiepnur þeſſar friidar, Allar eigum vier.

8. Lof Dyrd af Huga hreinum, hveria Stund ſyngium vær, eiliifum Gude einum, ſem alla Hiaalp oß fær, Af þvi erum hañs Born, Hañ vill oß viiſt aan Efa, Ollum fyrergiefa, Synd og Veykleika vorn.

9. Hier med hliootum ad enda, Huggunar Kvæde þad, Bidium Guds Son oß ſenda, ſiina Myſkun og Naad, Holldum oß æ þar vid, Ad lofum vorn Lauſnara, Sem Liif og Saal vill næra, Og fieck oß ollum Frid.

10. Vier ſkulum hallda honum, Hverneñ ſem gaanga kañ, So i Sælu og Raunum, Siidſt yfergiefum hañ, Meſt liggur Magt þar aa, Hver Mañ fraa Heime ſnwe, Hiedañ aavallt ſig bwe, Hiaa Gude Hviild ad faa.

* * * * * *

Pſalmur

## Pſalmur i moote Agirnd og Bwkſorg.

Med ſijnum Tön.

MJtt Hiarta hvar til hryggeſt þu, J Harme og Trega velkeſt nu, Fyrer valltañ Verالldar Aud, Set þijna Trw a ſañan Gud, Sem allt ſkap ade fyrer ſitt Bod.

2. Yfergiefa þig ei vill nie kañ, Alla Þorf þijna þecker hañ, Hañs er Himen og Jord, Miñ ſæte Fader og ſañe Gud, Þu ſend mier Hiaalp i allre Naud.

3. Þu ert miñ Gud og Fader kiær, Þitt Barn alldrei forlaated fær, Aſt þijn er miwk og milld, Eñ þo mig mæde Eymdeñ hord, Eckert hef eg Trauſt a Jord.

4. Rijkur af Gotze gledur ſig, Gud miñ i þier eg hugga mig, þo hier forliteñ ſie, Pad er mijn Trw og Eſlaus Von, Adſtod veiter þijnum Þioon.

5. Hiaalpare Gud Helia var, þa Himen lukteſt ſo ei rignde par, J þeirre Ö-aars Tijd, A Sidons Lande Eckia ein, Allvel fædde D Rotteñs Svein.

6. Þig maatte eingeñ mæda Kvol, Med þvi Gude þioonader vel, Og honum hlydeñ varſt, Hrafnar komu med Kiot og Braud, Kvolld og Morgna ad ſvipta þig Naud.

7. Einerbertrie ſatſtu under þa, Eingell Guds kom og liet ſig ſiaa, Bar þier Vatn og Braud, Til Orebs Fialls þar epter gieckſt, Eingva Neyd a Veigenum fieckſt.

8. Egyptiſkum Joſeph ſelldur var, Saklaus ſat

ſat i Fangelſe þar, Gud leit med Giæſku hañ, Med Herra Nafne heſur hañ giædt, Til Heidurs allre ſiñe Ætt.

9. A Daniel miñteſt Gud ſo gløgt, J Groſ Lioña þa var honum ſokt, Siñ Eingel ſende wt, Fædu liet honum fœra þar iñ, Fyrer Habacuch Pimara ſiñ.

10. Sañur Gud birte þa ſitt Valld, Svein-uñi Premiur var fleigt i Eld, Siñ Eingel ſende heim, Baaled þa ecke breña maa, Burt wr Voda Frelſade þa.

11. Hiaſtod Guds Jona bliiſde þar, J Hval-Fiſkenum byrgdur var, Priaa Daga og Nætur Priaar, Eñ fyrer Guds eiliiſt Raad, Aptur heſur hañ Landenu naad.

12. Þitt Riiſke DRotteñ þriitur ſiiſt, þitt Vald er ſtödugt jaſnañ viiſt, A þier er allt mitt Trauſt, Eiliiſt Gotz heſur eckert Taal, Audga med þvi mij-na Saal.

13. Stundlegañ Heidur eg hyxa ei aa, Him-neſkañ villde eg giarnañ faa, Hvern þu heſur keypt, Med þiinum Dauda og dyrre Piin, DRotteñ bid eg heyrdu til miin.

14. Allt þad Verolldeñ er af full, Eigner Gotz, Sylfur eda Gull, Stundlegt Skraut og Skart, Liiteñ Tiima þad laanad var, Liiknar ecke Saal-uñe þar.

15. JEſu Guds Son eg þacka þier, Peſſa Viiſku þu veitter mier, Fyrer þitt Gudlegt Ord, Veit

Veit mier stoduga Von og Trw, Vænst er Sælu Huggun su.

16. Lof og Heidur a hverre Stund, Hædste Gud sie hier a alla Lund, Þig Fader þess eg bid, Eilijfan gief oss Andar Frid, Og Arf Himens þa þa skiliunst hier vid.

## Um Hioonabands Stiett.

Ma syngia sem, Til þijn Heilage.

FAder Sonur og Ande Heilage, Eilijf Guds Þrenning Eina, Alla Hlute i Upphafe, Giørde gooda og hreina, Þa Skapade af Molldu Man, Med sine Lijking prijdde han, Og sette i Sælu sijna.

2. Gud sa ad Mans ei var Medhiaalp nein, Mætte þo Ein ei vera, Sofande took han Sijdu Bein, So villde Kvenman giøra, Sette þau yfer allan Heim, J Blessan sine bijdur þeim, Aukast og Avoxt bera.

3. Hioonaband er af HErra Christ, Heidrad og styrkt af honum, J Brwdkaupe let Krapt sin fyrst, Kunugan verda Sioonum, Vijn hefur þar af Vatne giørt, Voittar med þessu Adstod bert, Huggun og Vernd sie Hioonum.

4. Sa nu lifer i soddan Stiett, Og sig vill þar til giefa, Han skal minnast og hyxa riett, Hvernen þar a ad lifa, Med Guds Otta og Heidre hier, Heilaglegaña Christnum ber, Sin Kier til Eignar ad hafa.

5. Kvinnan Otest sin eigen Man, Elsku og Heidur velte, Hlyde en ei Ovirde han, Og Yfer-

Radum neite, HErra sin Mañeñ hallda skal, Hañs Stioorn laate sier rada vel, J Þogn ad Lærdoom leite.

6. Eigeñ Kvinu skal elska hver, Epter Postulañs Raade, Med hreiñe Trw, sem HErra vor, Helga Christne elskade, A sin Lijkama Saklaus took, Saara Pijsl fyrer heñar Sok, Gaf heñe oll sijn Giæde.

7. Skynsamlegana sierhver Mañ, Vid sijna Konu bwe, Hvad a veykt Kier korn vanta kañ, Væge og til Besta snwe, Sijnum Fodur og Mood ur maa, Madur þess vegna hverja fraa, So ad heñe sig hneyge.

8. Hiooneñ skulu a hverre Stund Hellst i Guds Otta standa, Lijf og Gotz fela honum i Hond, Hreint Framferde vel vanda, Uppala Born i Sæmd og Sid, So þecke, Dyrke Lofe Gud, Og efleft hañs Samkunda.

9. Nær Neyd og Hormung Hiooneñ saa, Hug sin skulu ei pijna, Christum Guds Son þau kalle a, Kiære honum Pianing sijna, Hañ er saa sañe Hiaalpar Mañ, Hver Vijn af Vatne giora kañ, Hioonum vill Hiaalstod sijna.

10. Leid þu ORotteñ fraa Lost og Synd, Ad lise sem bydur Soomeñ, Hver Mañ sem byriar Hioonaband, Helldur og er þar til komeñ, Þeirra Gotze Sæmd, Saal og Lijf, Siertu Blessan og wolldug Hlijf, Fyrer JEsum Christum, Amen.

* * * * * *

Brwdz

## Brwdkaups Psalmur, af 2. og 3. Cap. Gen. B.

Ton, Dagur og Lioos þu Drottenn ert.

GUd skoop Adam alls Riettlaatann, og i Paradys sette hann, Siidann took Rif hanns Svefne i, So giörde honum Kvinnu af þvi.

2. Manntyns tegna hanns Medhiælp sie, Med Avext so þad fiolgade, Siidann med allre Eingla Hyrd, Ætiid synge honum Lof og Dyrd.

3. Pa Adam siinum Svefne bræ, sagde gladur nær Evu sa, Hun er mitt eiged Holld og Bein, Hollur Fylgiare og Ynde ein.

4. Pa gaf Gud Evu honum i Hand, Hoof og sette so Hioonaband, Forelldra siina þvi fyrrest Mann, Feinged Kvennraad sier vid hallde hann.

5. Ormurenn slægur af Osund þa, Evu Guds Hlydne giörte fræ, at af Trienu og Bod hanns braut, Bolvan og Dauda so Mannkyn hlaut.

6. So misste Adam Sælu og Skyn, Sæmd, Riettlæte og allt hanns Kyn, Fyllteft Ecka, Eymd, Swt og Sekt, Sinne Konu þvi hlydde offrekt.

7. Almkade Gud miog Afall þad, Eilijfur Son hanns fyrer þeim bad, So falled Mannkyn sein ge Vægd, Fyrer þad var makleg Refsing lægd.

8. Siaalfur Gud Ormenn sagde vid, Siertu Bolvadur alla Tijd, Sæde Kvinnunnar sannheilagt, Sundur skal brioota þinn Haus og Magt.

9. Eva heyrde þau Aloog skiott, Alla skalltu þijn Born med Soott, Og under þijns Manns Vallde

vert, Vird hañ þiñ Yfermañ leint og bert.

10. Piñe Kvon Adam hefur þu hlydt, hier med broted mitt Bod og lytt, J Sveita skalltu eta þitt Braud, Og þess orka med Mædu og Naud.

11. Adam med Evu wtlucktust, Af Paradys i Eymdarvist, Vonlaust saau þar vitia heim, Vardhalld liet Gud fyrer Dyrum þeim.

12. Þar Christus JEsus Kvíñu Sæd, Kom hier til vor med Lausnar Nad, Leysdar eru oss Lijfsens Dyr, Luktar skulu ei framar sem fyr.

13. Sæ kiærre Brwdur, Christnum Lyd, J Kiærleiks Trw sig teingde vid, So liete Elsku sijna siaast, J Sætre og hreiñe Hioona Ast.

14. Sem Brwdgumeñ sitt eiged Vijf, aaliijkt elskar og siaalfs sijns Lijf, Ast Christs til siña er so hrein, Af þvi eru hañs Holld og Bein.

15. Oll Christeñ Hioon vill Efalaust, Eiñeñ þaug i Dag samvijgiast, Hesta geyma i hreiñe Ast, Heims Vesolld þar til vidskiliast.

# Epterfylgia nockrer nyer Psalmar, Hveria flest-alla hefur ort, Saal. S. Sigurdur Jonsson, ad Presthoolum,

## Ein Fogur Saung-Vijsa.

Ton, JEsus Christus er vor Frelsare.

LJknarfullur Gud og Goodur, Giæskurijkur og Poleñmoodur, Skrijd eg til þijn, Þitt Skiepnu Barn,

Barn, Skaparenn allrar Naadargiarn.

2. Ad Footum þijnum fer eg ad kriwpa, Flatur vil eg þar nidur driwpa, Af þvi eg hefe ædur spurt, Eingvann þar komenn, Þu reker æ burt.

3. Siaa þu Barn þitt saarlega grætur, Sier helldur vid þijnar Fætur, Augunum mæne eg uppa þig, O! Gud kiendu i Briooste umm mig.

4. Vidurkienne eg Misgiord mijna, Mogulegt er þo ei ad sijna, Synda Andstygd og Svijvirding, Sem eg er hladenn allt ummkrijng.

5. Syndugre Skiepnu Soolu under, Sannlega ecke sinna munder, So sem er fleckud Saalenn mijn, Samt fly eg þo aa Naader þijn.

6. Soddann Hiartans Kvol mig kremur, kvijdande Brioost sier nidur lemur, umm Naad bidiande nu i Dag, Neyd ædur kiemur og Neidennar Slag.

7. Hegna mier ef villder veykum, Vondum epter Makleglleikum, Stædest eg ei þann stranga Doom, Stodve Reidena Naadenn froom.

8. Biwgt og skielkad Brioost og Sinne, Beyge eg fyrer Majestat þinne, So sem einn Lijflaus Saka-Mann, Stofalldlega til Dauda vann.

9. Allt gott giorde eg af mier ad brioota, Olucku hveria verd eg þvi hlioota, Eins i þessum og ødrum Heim, Ofbijdur mier vid Pijslum þeim.

10. Nu er mitt Hiarta hart þo kveine, Hardara ødrum Marmarasteine, Myke þad JEsu blessad Blood, So bradne þad ei i Vitis Glood.

11. Mætte ad sonnu molast i Parta, Mitt

Samvitsku so og særer, ad fallen er, Til Helvijtes hart nærre, Pa Byrde eg ber.

4. Mitt Saarafar, Frwlt af sier Odaun leider, Til Groopnunar, Svo geing allur og eydest, Po medgeing eg þau Heimsku Hooten morg, J Dupt asfram, Hlyt eg biwgur ad beygiast, Med Hrygdar Ham, Og svo Daglega deya, sveittur af Sorg.

5. Mijn Jdur øll, Heitt brenna, Og hartnær rifna, Af Synda Sull, Sem noog er Blygd ad nefna, J Hollde mier Heilbrygde finst ei nein, Magnlaus er miøg, Synden mig sundurknosar, Hiartad og eg, Piaest, af þvi wtlosast, Kalled og Kvein.

6. Samt er øll mijn, Epterlangan min Herra, Og Andvørpen, Sem i Brioostе mun bera, Ohuled Vijsdooms Raade þijnu þo, mitt Hiarta hart, min Krapt molar i Stycke, svo Augun snart, Formyrkvast, og siaa ecke, af Sorgum stioo.

7. Af þeim fyrr meir, Mier Æra og Elska tiaadest, Stallbrædur þeir, Og sem Braud giefa gaade, Plagu og Pijn, Fiarlægdust mijna miøg, Skylldmenne mitt, Med Hiartad hart, af Vega, sette Fet sitt, og took mijns skamast Trega, i Hiarta og Hug.

8. Eirneigen mier, Til Fiortioons samansuku, Og falskar sier, Snorur jafnlega juku, Peir mitt Ofall, uppfrietta fijstust ort, Sin Munn umm mig, Mier til Smaanar upplaata, Til Svika sig, Af þvi svo hart mig hata, Bwande bert.

9. En a medan, Liet eg sem ecke heyrde, hvoria

þa Smaan, um̃ mig sem mæla giordu, sem Dumbeeirn, Eg var, og Ordsaar noog, Og svo sem sa, Er hvorke kañ ad heyra, Nie svara maa, Ei helldur Tungu hræra, Moot raungum Roog.

10. Eg biid Drotteñ, Med allre Epterlaungan, Og vænte eitt Siñ, Andsvar af þier ad faunga, Af þvi i mijnu Hiarta þeinkte þa, Ef þu lijdur, Eg Fooþt ei saae sestañ, mier þa rijdur, nær mig sijn mille kreysta, Hart Hæla aa.

11. Þvi ef þu Gud, gyrnest mijn Rif ad reyna, Þagne eg vid þad, Med hallta Hræring Beina, þvi Pijna mijn, Mier fyrer Siooner setst, Miñ Misgiorning, Eg vil i Lioose laata, Og af Hrelling, heitre, Harma og Graata, Mijn Brot og Brest.

12. Aufundar Meñ, Mijner mektast og lisa, So og eirneñ, Miog margfiolgader blijfa, Jaa, Þeir sem illu Endurgulldu Gott, Sem Andskoteñ, sialfur mier moote stoodu, Og hielldu señ, mig, Þvi eg giegnde goodu, Athlæe eitt.

13. Eñ þu, O Gud! Munt mig stidia og styrkia, moti Anaud, Þvi eg af Dygd þig dyrka, Vert ei Drotteñ, miñ miog i Fiarska fraa, Flyt þier, Hialp mier, Og ber mig hægt aa Hende, Svo Dyrd hiaa þier, Drotteñ og Lofstyr lende, Mijn Heilsan haa.

## Morgun Saungur aa Midvikudogum.



Kom sæl mæt Morgun Tijd, med Gull



og Gagn i Hond, Lof sie þier goode Gud,



og gieck alheill fraa Blund, Ei skal mijn



Augabraa, wr þessu Svefnværd send, fyrr eñ



sws i Herrans Hws, eg stille og þar stend.

2. J Giærkvølld Lampa og Lioos, liet wtslockva hvor Mañ, Eñ miñe Ønd JEsus, Eitt Lioos Fagurlegt brañ, mitt þreytta Holld Hvijlld took, J hollum Fride sier, og mijn Sæng, var ei so þraung, ad Gud være ei hiaa mier.

3. O! Gud þitt Auga var, mier ein klaar Nattur-Sool, Þo Sæng mijn læge þar, a þijnum Foota-Stool,

ta: Stool, Samt hugder þu ad mier, Herra Holl þiñe wr, Slisum vid, og Satans Sid, varstu mier Vernd og Mwr.

4. Til DRottens or æ Ferd, Alltaris vil þvi gæ, og miña Tarra Mergd, midt i hañs Akur sæ, Þvi skal mijn Twnga Pock, þijda stilla i Maat, hætt um Siñ, J Himeniñ, med Andans Lyst og Laat.

5. Giærdagsens giefst nu ei, Gagnsemd nein nockurs verd, Eñ þessa nioota næ, J Tijmans Flijte-Ferd, af DRottens EdlaRaad, er hañ lætur i Tie, Mijns Lijfs Klijd, og tæpleg Tijd, so hier af hugleidd sie.

6. Hiaalpa mier HErra trwr, ad hyra um Tijmans Skeid, og hvorneñ Hende wr, hañ mijnum Fedrum skreid, so Heimsins Gyrnda Groom, grooe ecke med mier, eñ hyre riett, hvad Tijden liett, vellteft og vender sier.

7. Eg hef og eirneñ reyndt, hvad hætt er haal og sleip, Veralldar Braut, þo beint, bende: O! Gud i Greip, þiñar mier hægre hallt, Handar, so falle siist, til Skamar, ad yfer þar, miñ Ovin ei gled: est.

8. Siaa til ad mijn sijfelldt, Saal sie i Gude glod, hun so hallde audvelldt, Heimeñ ad skiliast vid: So og varna mijn sie Samvitska Steinum þijngd, eñ lære fraa, Synd sier ad slaa, burt laangt i Braud og Leingd.

9. Mijnu Embætte i, O! Gud mier hallt i Hond, ad mier spiñe alldrei, eitt Konguloo ar

Band, Blessan þijn Luckusogd, læte mig Friodsgun fa, Agyrnd Od, og Aumra Blood, mier sie i Fiarska fra.

10. Hier Nordur Alsu i, Ord þitt og Dijrd Rootfest, Ad i Stad Liossens ei, Jll Myrkur innlædest, med þiñe Hiælp og Hond, HErra gled Kongeñ vorn, Esl og prijd, hañs Land og Lyd, vid langsteduga Stioorn.

11. J sijnu Kalle send, sierhvorium Biorg og Braud, og øllum Christnum vend, Ofalle frá og Naud, añast þu Siwkra Sæng, Saaler hwngradar fæd, snw þeim vid, fra Satans Sid, sem veyker Villañ skiæd.

12. Aleidis ad Guds Villd, ytest mitt Sigurverk, under mitt ydsta Kvolld, eg bij mig med hañs Styrk, hogg þu lausañ miñ Hnwt, HErra Gud nær sem hier, þyker Maal, svo mun mijn Saal, hefiast i Himna Her.

## Kvølld Psalmureñ.

Med sama Lag.

O Kiærre Sool er nu sett, Sia Kvølldar meir og meir, Hvørs Verk-Mañs Hond er þreytt, Og Hvijldar æsker sier, Daudanum dregst eg nær, Deige einum eñ fyr, Tijmeñ fer, hægt og hægt mier, Opnande Daudañs Dyr.

2. Hier billtest Tijdeñ hert, Breytest Dagur og Natt, Af Sool epter eckert, utañ Skuggeñ var sett, So skiptest Hefdeñ Heims, Hun tekur Enda hast, Madka Hioom, Myrk Grof og toom, Er Mañs Eigneñ seinast.

3. O!

3. O! Saal mijn huxa hier, at Hvijlder ecke þu, J vølltum Heime hver, Ei hell dur Kyrd nie Trw, Nu strax saaum vier Sool, Nu siest Verølldeñ myrck, Allt var skiært, adañ og tært, Eñ nu sem Eydemørk.

4. Eg fære Fætur Tvo, Frañ i Naattdøggs-vad Gras, Naatturañ seiger svo, Siai hier statt vid og les, Hvad morgum Bloomstred mætt, mløg so er følnad nu, Stood i Frackt, Eñ er nu slakt, Jhuga þetta þu.

5. Saal mijn sit kyrr uñ Stund, Eg samañ ber i Hug, Hvørneñ Guds liwsa Lund, Lijknar-giørn er vid mig, Bæde Bloomstur og Hey, Byrta mier Lijking mijn, Dag og Noott, mig fræder flioott, Ad eitt Siñ Æfeñ dvijn.

6. Þier sie sagd Þusund morg, Þock, O! Gud eilijfe, Sem mier syner Uñsorg, Sijfellt i Tijdeñe, Fraa þeirre fyrstu Stund, Er eg af Nootum rañ, Giørder meir, Af mijnum Leyr, Eñ eg uppkveda kañ.

7. Sagnþvo Getnadar mijn, Giørder þu blood ug Brot, Og gafst i Syne þijn, Eñ adra Vaxtar Root, Fægder Flecke af mier, Fyrer þitt Heilagt Ord, Aund mijn þa, Nied opt ad faa, Sadning vid sialfs þijns Bord.

8. Eg vard i Dag eirneñ, Fraa øllum Slisum friaals, Þo ædde Ovinureñ, Er þad Mysfun þijn sialfs, Brande þu bijtter mier, Og Blessun epter Þorf, Þesse Maal, wr þiñe Skaal, Hreppa lierst Himna Skierf.

9. Eñ þu mier millde Gud, Misgiordernar forlaat, Og siaa yfer þañ Sid, Af Synda Root er spratt, Samvitskuna vid sijn, Syndaña skyldu Bond, Þeim aa Kaf, Kaste i Haf, Þijn Heilög Naadar Hond.

10. Eingla Skialldborg umgyrd, Allañ Sængur-Stad miñ, So ad iñ fyrer Hurd, Ei komest Andskoteñ, Gior Hug og Hiarta hreint, Himeneñ læs þar i, Hollds af Flein, Hid miñsta Mein, Aund mijn forneme ei.

11. Upplijs þiñ Lijd, Lofstyr, Laangt þiñ so wtbreidest, Og þijna Astarhijr, umfadma Brædur best, Hvoria hier Nordur þu, Hefur elskad ad þier, Uñ Koll slaa, Þeim hana þiaa, Og ræna i Heime hier.

12 Fullting Frelsarañs, Faae Vor Kongur siaa, Affsniid Ovine Hañs, Sem Dreñ hoggur Straa, Auk þu Hañs Æfe vid, Sem oll Tijgugligheit, Sæde Hañs, Þess Maktar Mañs, Velldemyked hier veit.

13. Ofañ af Himna Hæd, HErra þijn Tigneñ froom, aalijte i hvorn Stad, Allañ siñ Christeñdoom: Albweñ upp i Sæng, Er eg ad leggiast braatt, Veit þu mier, Ad eg i þier, Farsæla faae Naatt.

14. Kom Eingla Hyrdeñ haa, Kom legg nu Froo og Frid, Lijf sem Aund mijna aa, Og allt þad mier ber vid, Sof Madka Seckur, mig, A Morgun JESUS klaar, Vekur hier, Eñ þar epter, J sjau Eilijfu Aar.

## 4. Ydranar Psalmur.

### Sem er hiñ 51. i Psalma-Toluñe.

Med sama Lag.

MYkuna mier O Drotteñ, Og maa af Synder mijn, Ei fyrer Makleik miñ, Myklu helldur Naad þijn, Af þiñe Naadar Nægd, Sem Omælañleg er, Sierhvørn sliett, wt Synda-Blett, Sem hrein aa Hollde mier.

2. Afþvo og hreinsa hijr, hvørn eirn miñ Synda-Lost, (eg veit Arf-Syndeñ bijr, J mijnu Hollde fost) Frem þijna Farva-List, og sæg so Mottul miñ, Ad hañ tær, Skyne og skiær, Um allañ Aldur siñ.

3. Af þvi miñ Jllsku Korg, Auga mitt grañt nu sier, Eirneñ Afbroteñ mørg, Jñst þad i Hiartad skier, Setst fyrer Siooner liooft, Synd mijn jafnañ og staar, Bodast mier, Ad þar yfer, Haange vijst Hefndar Faar.

4. Eg fyrer einum hier, O Drotteñ hef syndgad, Og drijgt þad illa fer, Auga þitt sier vel þad, Maal þitt aa moote Synd, Miñe Riettferdugt er, Piñ Doomur, Eirn Ovalltur, Mætt Hreinleiks Merke ber.

5. Siaa þu Gud, Syndum var, Eg settur i þañ Tijd, Er mig mijn Mooder bar, Miog var su Fæding strijd: Jaa þa mier Varma vañ, Veita i Lijfe fyrst, Frañkvæmdest, Ei utañ Brest, Su Skom Skiemtunar Lyst.

6. Siaa þu, þier þocknast vijst, þess hulda Sañleiks Leit, sem so er lukt og læst, Ad eingeñ Mañ af- veit,

veit, Mig huggar hijrt i Leynd, Pitt heilagt Guds-spialls Ord, Blisdoom fær, Eg mun þar æ, sem skygger Skijlañ giørd.

7. Einunges med Ysop, mig opt og tijdt afleis, So vid Saurenda Hroop, Eg sie og verde laus, Vel þu mig vaska þa, Verd eg hvijtare Snioo, Blood og Deyd, Messiæ med, Fognude sied fæ so.

8. Kyñ þu Heyrn Hugskots mijns, hijra Fag-nadar Naad, J Evangelii þijns, og Ords Dyrd-legre Daad, ad miñ Mergur og Bein, molud med Leona Teñ, Af þier þraatt, J smaatt og smaatt, Gioreft oll gladvær señ.

9. Yfer Jllgiordum mijn, Og Veige Hrosun-ar, Byrg þu Asioonu þijn, Peinkiande ecke par, Epter þvi eg hef giort, med Hiarta og Hende liett, wißliett þad, O Gud af Naad, wr þijnum Reik-ning riett.

10. Skapa hreint Hiarta i mier, moot hættre Synda Root, Hvør ad i einum þier, A Blood-Skulld hreppte Boot, Jñst i mitt Brioost og Lijf, Eirn nijañ Anda send, Eg þa kañ, Sem eirn Guds Mañ, Þar epter stia vid Synd.

11. Utskwfa ei mier fra, Andlits þijns Heilsu-boot, (vert ei sar-reidur so, Þo Saurgun mijn sie lioot) Syn Myskun millde Gud, mier helgañ Anda þiñ, Ei tak fra, Þvi añars maa, Satan fa Sig-ureñ.

12. Aptur gief mier alvijs, O Gud Huggun-ar Traust, Pijns helga Hialpræðes, moot hætt-um

um Andar-Breſt, Vel ſo vidhalldeſt mier, Piјns viſſa Anda uñ, Gott ydiad, So giete i Stad, med Hiarta, Hond og Muñ.

13. J Epterdæme mijn, Eg ſkal riett kieña þa, Ad þeir Syndugu ſijn, Setie Spor Veg þiñ aa, Jaa þeir Jllgiordum af, Otta Guds vonduſt fraa, ſkilie vid, þañ Synda Sid, og hate epteraa.

14. Hier med hiaalpa mier fraa, hættre Blood-Skulldar Raun, O Gud mijn Heilleñ haa, Hiartañs ſo grooe Kaun; Riettlæte þitt vil þa, Pijdleik og Lijknar Ord, Giora kuñ, Med mijnum Muñ, Breytt wt um bygda Jord.

15. Opna Drotteñ Muñ miñ, og miña Vara Dyr, (añars er Lofſtyr þiñ, J mier Daudur ſem fyr) Epter Einglaña Sid, wt ſkal breydd reynaſt þa, Vegſemd þijn, Af Vorum mijn, Vijda ſem verda maa.

16. Þvi eg veit þier er ei, Þocknun ad Offurs Reyk, Og upptendradre i, Eingeñ Pægd Foorna Steyk, Añars af Uxa Flock, Eg liete noog i tie, Og Þuſund, a eirnre Stund, af Lombum færde og Fie.

17. Foorn er mier oñur kiend, Sem Gude Giedþeck er, Krameñ Ande, Sem Synd, ſier og ſtoort Angur ber, Hiarta ſem hrædeſt Synd, Hrellt og knoſad i ſmaatt, Af hañs Makt, Er ei forlagt, Eñ vid hañ verdur ſaatt.

18. Þier i Hag ollu ſnw, Og þiñar Kyrkiu Frid, Soſnud þijnum ſend þu, Og Zion Aſtar-Lid, Borgar Jeruſalem, Bygg þu upp Mwra trauſt,

Yppe sier, Ovinerner, Eñ laate Strijded laust.

19. Pa mun vijst Offred hier, Pocknanlegt veida allt, Hvørt i Riettlæte er, Upptendrad Pusundsalldt, Velbwna Foorn sem villt, Og Vara Kalfa i tie, Lata Meñ, Marga i Señ, uppa hitt Alltare.

## Morgun Saungur a Fimtudøgum.



Upp uppstatt i Nafne JEsu, upplyst mijn Saal eñ helldur heilu hu, Sooleñ



Svefnværdum wr, hijns AugaBrau, hiñ Sængur Stad, skijn skiært uppa,



hvørn Dag nijtt tier, Drotteñ sijns Sattmaals



Verk, hans Sool gyller sorglitañ Nætur-Serk.

2. Ovedugur eg være mig, Sool miñsta Gey-
sla

sla siñ, sette uppa, Ef mijn Gleymska so eflde sig, ad mijnu Hiarta Gud, gleymdest i fra, og Augna hañs, Voku ei villde eg, prijsa til sañs, medañ hier lifde, mieg.

3. Upp upp mijn Saal, lat Lof og Pock, Latt helgañ Himna Saung, til reidu riett, allt ad Haa-Stoolnum audmiwk gack, og fyrer Guds Asioon, fall nidur flioott, Prijheilagt Lag, hatt syng med Eingla Koor, þvi þier hvorn Dag, DRotteñs Naad giefst og groor.

4. J DRotteñs Skaute og a hañs Arm, hef eg nu teked Hvijlld, hæga i Natt, Guds Naad bygde mitt Briooft og Barm, Eingla Vardhallde i, gafst Hæled gott, Pvi urdu sier, Jller Andar ad Spie, vijkia fra mier, og mijnu Rwmstæde.

5. Af þvi fell eg med Audmykt frañ, ei uppa Riettlæte, eigeñlegt mier: Eñ uppa helgar Under Fiñ, og Pijn sem leid JEsus langa a sier, þar ad eg snij, Pad er mijn Heilsu Laug, Par fæ eg i, Fagnun og Frelse noog.

6. Uñ Hialp og Naad eg beide þig, O! goode GUd eñ nu, uñ þeñañ Dag, svo,'oll mijn Verk Luckusamlig, med Giætne vid þitt Gied, greidest i Dag, Naunga mijns, og mijn Nytsemd þar vid, allt under eins, aukest i fogrum Frid.

7. Mitt Holld og Blood, hallded Breyskleik, til hvorskins Hrosunar, frañbrynder mier, svo er mier iñrætt Synda-Kveik, ad heñar Olifian, J Barme ber, kiæf þu O! Gud, Jllskwsa Edlis Blood,

Glood, svo mier ei Deyd, afreke Syndeñ Od.

8. Eñ meige eg hrasa ad miñe Glood, og Foot miñ prettad fær, haall Heimsins Js, fyrer JEsu, þa bættu Blood, Bloodugamijna Synd, og hept þitt Hriis: Sakfelle sitt, þo stærcke Stoor og Aum, gior Hiarta mitt, vel mlwkt sem Vatna-Straum.

9. Ef nu i Dag aafalla maa, Ogiæfusamleg Tijd og Augablik, Vatn og Elldur ef vilia þiaa, og Sootteñ samañhrærd, vid Daudans Dryck, laat mig ei þa, hæfa Hugleysed kallt: Eñ glogt þess gaa, ad Gud giorer þad allt.

10. Sofnudeñ þiñ og Sauda-Hiord, hvar i hlaa oss þitt Ord og Æra staar, fraa Saalna Ulfum frija fws, og heim til Skijlu er, Sauds felldur flaar. Rek oss i fraa, þañ Pardus Fleckia Flock, sem spiñur aa, med Leynd siñ Satans Rock.

11. Veit þu vors Erfda Konungs Ar, framleidast mættu med, Lijfdaga Leyngd, Kongsens Hws gief ad fyrrest Faar, Mædu, Sorg og Mootgaangs, þwngbæra Preyngd, vijs Raad og væn, veit honum Fyrr og Sijd, og heyr hañs Bæn, J mestu Mootgaangs Tijd.

12. Græna Dale gior þu og Lond, af Avexte uñ allt, Friooſsom og frijd, Par med wtsend wr þiñe Hond, Frid þiñ sem añad Flood, og still alle Strijd: Hwngur, Drepsoott, hept þu og Elldsens Maatt, og Hafsens Proott, ad ei geysest Ofhaatt.

13. Eg geing til Hwss þijns aptur nu, fyrer mij..um og mier, med heita Bæn, Gud vor Fader og

og Vin vertu, og endurgialld oss ei, vor verdug Laun: Hws, Kviñu, Born, og hvad mier eignast mat, Nead, Luckn, Vorn, Hialp lat og Hiar-Stod far.

14. Hugleida læt mig hvort eitt Siñ, ad eg O-vallta Vist, hefe ei hier, Heims Dvol reiknast Rekspolur miñ, afram mitt Ferdalag, Od fluga fer, Gud veit hvenær, mier opnast Grafar Gatt, og mijn brotnar, Leyrsmijd sundur i Smatt.

15. Kom JEsu, Kom, þegar þu sier, ad miñe Salu er, mest þar a Porf, brioot i sundur mitt breyskt Leyrkier, þa sæ eg fyrer viist, sookt Sælu Arf, Himna Deilld fra, miñe Molld blastu fyrst, hvortveggia a, Effta Dag sameinest.

## Kvolld Psalmureñ.

Med sama Lag.

MJog lijdur nu ad myrkre Natt, Dagur a effta Fet, framsetur sig, Sooleñ vender i Vest-ur Att, Sier a Vanalegañ Undergangs Veg, J Jacob reñur upp ein Stiarna þo, Dal Londum i, Sem efftu Fiollum a.

2. Lattum dimma sem verda vill, Eg fæ samt ecke neirn, Skielf nie Skielfing: Nær Lopteñ dockna Fælufull, Mier lyser miñ JEsus, Og allt um kring: Hañs Ande hijr, uppblies eitt Loos i mier, hiar hvoriu rijr, Heimsens oll Byrta er.

3. Þvi skal krimpa og kyssa Jord, Fyrer Naud ar Footum, Mijns HErra hier, Af þvi Mystunar morg Velgiord, hañs yfer Hofud mitt, J Frioof-

gun

gun fer: Fyrreñ Sooleñ, Til fulls mier hverfur fraa, ſkal eg i gien, Hiartaňs Pock þijda tiaa.

4. Upp i Lijfs Reiknings Rijmstock miñ, Giœrdt hefur Gud ad ſkraa, Lijf, Lucku og Braud, hañ giefur noog i ſierhvort Siñ, Gull-Dogg mier ei i Skaut, Po reñe raud, Hond Guds eg vid, Miñeſt og þacka þijdt, Sem hvorn Dag ried, Mier faa Upphellde mitt.

5. Viiſt hef eg ſvitnad vel i Dag, J mijnum Viingarde, Og Steine vellt, Samt bioo eg vid ſo veikañ Hag, Ad eg gät ecke Reit, Eirn Frioogun ſyllt, Pad veitte þo, hañ mier Aaſt ſiñe af, Og mijnum bioo, Audnu Erfides Staf.

6. Po Satan giorde Gylldrur til, þad eg ſkyllde þeñañ, Dag drygia Synd, Til einſkis urdu hañs Viigviel, Gud gaf ad eg vtſaa, hañs Hreckia Mynd, J Trwar hañ, Skyllde braut Skeyte breid, og Lijfs mig fañ, J Chriſti dijrum Deyd.

7. Mitt Lijf, Æru, Siñe og Saal, J Grid og Geymſlu vañ, Setia Guds Son, Po bide eg Bit Hoggorms i Hæl, Sem mier ſette aa moot, Syndar Verdlaun, Eg nam þo faa, Hvorke Sorg edur Saar: Og ei uppaa, mitt miñſta Hofud-Haar.

8. Eñ O! mig aumañ Adams Nid, Saur ſettſt aa miñ Kyrtel, og forna Flijk, eg vellteſt um i Syndа Sid, Mijn er ordeñ Omynd, Gud Mynd Olijk, Huxun i mier, Ord mijn Athofn og Daad, med Gallbeiſkt er, Synda Fræ yfer ſaad.

9. Ur þvilijkre Uppſprettu Æd, uppvall Synda

da Ydan, Kviklæt og kolld, Eñ mijna Blygd og broteñ Leid, oll took JEsus uppæ, sitt helga Holld, Fyrer hañ tiest, Mier Rædar Rægdeñ klær, hañ hylur best, giorvoll mijn Synda Sær.

10. Mier halla nu til Hvijldar eg, sprette Fotunum fræ, Og klædest af, vid mitt Rúm Hvarflar mier i Hug, Hvijldar Sæng mijns Doms-Dags, Og Geymslu Grof, hvar Heimsens Kurt, Eg hafna hlijt i Stad, Og ber i burt, Eirn Hiwp og ei añad.

11. Umkrijng mig þa mitt Lioos er slokt, æstrijder Myed mig, Og ængra ser, Eg þeinke þa, Þegar iñsmeigt, i Aleigu mijna, Alla er mier, hvorneñ Madkar, Mitt Horund kviker hriæ, Og eta þar, Alla Heims Frygd i fræ.

12. Eñ epter midia myrkva Nætt, Þa heyre eg hlooma sniallt, Eitt Hana-Gal, Oll Verolld er til Sijdu sett, Miñ Hugur helldur sier, vid Himna Sal, Vid Lwdur-Hlioom, uppvaknæ eg þa vijst, Aefsta Doom, J saña Sælu Vist.

13. Vid soddañ Þanka vil eg fa, Allværañ Svefn i Noott, Ad taka æ mig, Yfer mier mun Guds Asioon stæ, Og skijna Eingla hañs, Vernd volldugleg, J Gude værd, Ond mijn oruggva sær, Og Satans Flærd, Hvørge til Hollds mijns nær.

14. Geimslu Vardhalld Gud HErra trwr, Legg þu krijngum þiñ Lijd og litla Hiord, Vertu Skiolldur Vors Kongs og Mwr, Laisar luckter med Frid, Læse Hañs Gard, Þitt Lioos fagurt,

Halldest

Halldest Hans Naade hlaa, Sem Nootten svort, Ecke wtisleckva maa.

15. Gud hugge þa sem halldast nu, J Dauds añs efsta Punct, Og Afgangs-Tijd, Siwka eirn eigeñ añast þu, Þeim veite Polgiæde, Þijn Lunden blijd, Ei gleima gior, Nockrum einum af þeim, sem þu þecker, ad vera eirn þiñ Lim.

16. Hier med vil eg mig vesia iñ, J DRottens wtbreidt Skaut, under hans Naad, Hañ upplijser mitt myrkva Siñ, Ætijd og allra hellst, J mijnum Deyd, J sogrum Frid, Frelsarans sofna eg sætt, J Lijse og Deyd, Er miñe Trw Ohætt.

## 5. Ydrunar Psalmur.

Sem er hiñ 102. i Psalma-Toluñe.

Med sama Lag.

O! DRotteñ giegn miñe Graatbæn, Og laat koma mitt Kall, fram fyrer þig, Byrg þijna mier ecke Asiaan, Pa mijn er Mootgaangs Tijd, Hellst Hormulig, Liaa Eyrad mier, Nær eg þig hroopa aa, So eg, flijt þier, Hiaalp meige sloota faa.

2. Þvi mijner Dagar hvorfu hradt, Sem reñe Reikur og lijde i Lopt, Mijn Bein Skielfing brende og batt, Sein eyder mier, Og wtkwgar miñ Krapt, Mitt Hiarta hrært, uppþornar eins og Jurt, So Brauded kiært, Er mier ad eta swrt.

3. Af mijns Hiarta hardre Angist, haanga mijn Bein vid Holld, Saart samañlest, sem Neyrstorkur, med Kvak og Kryst, A villre Eydemork, Okaatur siest, Sem helldur sig, Naattugla i Eyde-

Mwr

Mwr, afſkieckfur eg, Sit og bijd Skin og Skwr.

4. Mig ſvipter Svefne Sorg og Vol, Eg vake og alla Stund, Oroo er i, Sem Titlingur ſetſt a Hwskiol, Flæmdur Vinum i fraa, Eg bygge og bij, Ovina Her, Nyder mitt Nafn med Skiemd, Þar med ſamſver, ſig moot miñe Gagnſemd.

5. Oſmeckur er i mijnum Mat, Eg et-Auſkuna lijkt, Sem beſta Brand, J miñ Dryck blanda eg mijnum Graat, Og liet hañ verda Log, ſem Lwt er rand, Af Prwgan þijn, Þviad þu reiddeſt mier, Þu þreyſſt til mijn, Og mier Kollkaſtader.

6. Eins og Skuggeñ aptur a moot, Þreſt mitt Dagatal, Ad enda faatt, Eins og Jurt viſnar allt ad Root, Svo miſſe eg miñ Styrk, Og Andar-draatt, Eñ þu Gud ert, Og blijfur Krapta klaar, Miñing Oſkiert, Þijn ſiñſt um eilijf Aar.

7. Upprijs O Gud og aumka þig, Yfer Zions Angiſt, Og ſtoorre Neyd, ef hun ſkal ei uppgiefa ſig, Þa er nu Tijme til, ſig ſyne Naad, Su Tijd þack-næm, Hier er nu Hende nær, Miñſt þeß, Fram-kvæm, Þad þu hietſt HErra kiær.

8. Þviad þijner Þioonuſtumeñ, Hafa miog kiært heñar Uppgiorſlu Grioot, þad er þeirra hædſt Hugguneñ, Ad DRotteñs Hws aptur, Færdeſt a Foot, Þeir aumka ſig, Yfer Guds Hwſs For-ſmaan, Og harma miog, Sie þad Uppgiordar aan.

9. Heidner Meñ munu hier af faa, Ad Ottaſt Gudlegt Nafn, Ordſak i noog, Hier med Kon-ungar Heimſens þraa, Ad efla DRotteñs Dyrd,

Og siælfs sijns Ploog, Nær sem Zion, Uppbygger Gud i-gen, Og Dyrdar Von, Hañs er aptur audsien.

10. Nær sem hañ Asioon siñe snijr, Þeirra yfergiefnu, Aptur Bæn ad, Hvørra Orka er ordeñ rijr, Og þeir sem Vørklaus Eik, J Eyde Stad, Hvørra Bæn hañ, Til Hiarta liet sier gaa, Og hana vañ, Audmiwka ei forsmaa.

11. So skal þesse Guds Myskun mæt, Uppteiknast med Akiesd, Og gooda Gaat, Fyrer epterkomande Ætt, Hvørre ei er alkuñ, Sllijk Lyst og Laat, Fyrer þeim Flock, Hier epter skapast skal, Virdugleg Pock, Mun Gude tiaast Otal.

12. Uñskygning var af Gude giørd, Hijngad Ofañ wr Hæd, Hañs Helgedooms, Ofañ leit hañ af Himne og Jord, Og saa ad sitt Foolk leid, Hard þessa Heims: Ad veita Vørn, Fongum Faangelse fraa, Og Daudans Børn ad leysa wr Eymd og Praa.

13. Svo þeir giøre i Zion Heim, Dyrd ad tiaa DRottens Nafns, uñ Æfe Aar, Og hañs Lof i Jerusalem, Nær Foolk til HErrans Hwss, Med Giætne gaar: Kongs Rijkia Piood DRottne þa þioona skal, J Christi Blood-Dogg Yferdreysdum Sal.

14. Eñ Gud i mijnum Mootgaangs Reit, Og a þeim Veige er eg, Herleiddur hiellt, Audmykte mig, Eg allvel veit, Hvørsu mørg Araas mier, Vond hefur vellt, Hañ giørde klient, Mitt Lijf uñ

Mæðu

Mædu Gaung, Og ſkar i Tveñt, Voñ mijna er var ſo laung.

15. Miñ goode Gud, Eg mællte þa, Tak mig ei burt nær hælf, Mijn Æfe er, Mig lææt Takmarke mijnu naa, hvad miøg ſtutt mitt er Lijf, þu ſiælfur ſier, Pu Gud eg ſkil, Ert hiñ ſame og ſtaar, fraa Slecktetil, Slecktes eru þijn Aar.

16. J fyrſtu Heimſens Upphafs Tijd, Grundvalla giørder þu, Faſt Folldar Hrijng, Himna Hvelfingeñ vard ſo vijd, Ad hun umgyrder Jord, Alla i krijng, Handaverk þijn, þau eru undarleg, Hvar á Aund mijn, faſtlega furdar ſig.

17. Eñ þau ſkulu aſamt forgaa, Pu blijfur ſame þo, Og ei ſkeikar, Sem Føt þau er Mañ færeſt aa, Eins ſkulu þau ſlijtaſt, Med fyrnſku Faar, Pau breytaſt viiſt, ælyckt Klæde med Keim, Pegar þier lijtſt, ad ſkipta Alldre þeim.

18. Eñ þu þañ ſame ert alltijd, Og Aara Tala þijn, Endalaus er, Pu tier þijnum Pioonuſtu Lijd, Ad hañs Sæde ſtanda, Fær fyrer þier, under Aſioon, Og þiñe fordaſt ſkal, Pad er vor Von, J þeſſum Eymdadal.

## Morgun Saungur aa Foſtudsaum.



Sooleñ uppruñeñ er, aa Auſtur Sijdu',
Fialltinda forgyller, med Hæalſa Hlijdum,










2. Hafs Diwped Mañ ei maa, mæla þo villde, Nie telia Sandeñ sma, svo er Guds Millde, Sem hañ hvorn Dag, mier yfer Hofud heller, hvorn Morgun miñ Bikar, med Naad, sem Omællt var, hañ fleytefyller.

3. Eg er Madkur af Molld, til Mædu boreñ, Po hefur Gud mitt Holld, til Hialpar kiored, hañ med Varwd, vill mig sier a Hond setia, Eg Trwna af þvi mun, alla a hañs Myskun, Hug styrkur hvetia.

4. Eñ nu mitt Hws i Natt, med Eingla Meinge, hañ liet umhverfes sett, so Hætta eingeñ, hefur nu hæft, a neirn Veg, mig nie miina: Frials og frij, wtkomst eg, wr Daudans dimum Veg, og Andar Piinu.

5. Eg bead eñ hvorium Lim, og Dreyste miñe, so

so alls eingeñ af þeim, aangraſt ad Siñe: Af Anda Guds, er mier og Vitne gieſed, Ad eg hañs Oſka Son, ſie fyrer Chriſti Boon, og ætijd blijfe.

6. Saal mijn ſiert glod vid þad, Sorg lættu fara, þitt Lijkams Bloomſtur Blad, vill Gud bevara, hañ mig i Dag mun aan alls Efa ſtyrkia, J mijnu mier og añ, Embætte hiaalpar hañ, med Dygd ad dijrka.

7. Hiaalp Gud Handfeſte mier, og helgañ Anda, Þad mijns Embættes er, allvel ad vanda, bleſſa Gud mig, af hæſu Himna Vellde, Eg ſo nitt Ynde hier, J Ydiu miñe og þier, hafe og halldе.

8. Ei laat mig Synd i Dag, wt af forblinda, ſo Guds Giedþeckne eg, giore ad ſtunda, eñ ef miñ Foot, eg kañ i nockru ſteyta, vijk mier þa Gud i Veg, og virdſt ecke vid mig, þiñ Doom ad breyta.

9. Þu leggur mijna Þorf, þier Gud i Miñe, Hier med er Luckañ hverf, J Hende þiñe, og hvad mier beſt, hentar eda kañ ſkada, Allt þu aaleingdar ſier: mijn Saal hvad villtu mier? Gud a ad raada.

10. Fyrer mijn Born ef eg, Umhyggiu bære, ſyrgde aa ymſañ Veg, og ſpyria fære, Hvar ſkal eg þeim uppbera Biorg, og bijda? Gud lifer eñ, og þaug, hefur i ſijnum Hug, þau þurfa ei kvijda.

11. Þo eg um̃ Jord og Land, ſveimade i Sveita, Þo Brauds um̃ Sydе-Sand, eg fære ad leita, Þo vegna Guds, og Brauds eg Sverded bære, Þa er mijn Trw og Trauſt, ad Gud hætte miñ Breſt, og med mier ſære.

12. J Dag veit Dygd þier þeck, mier dafne miked: Og auk Ønd miñe Smeck, af Himnariike, Laattu miñ Hug, Heimenum jafnañ sleppa, eñ heitt i Andvarp, Audmykt og beygdu Knie, til Christs uppkieppa.

13. O! Gud i fogrum Frid, þijn Christne kiærest, svo stande, legg þu Lid, a føstum Fæte. Antachristeñ laattu Kollsteypast kuña, med siñ Skynhelgañ Haatt, Hoops þess Taal bunded þraatt, gaange til Gruña.

14. Laat Kongeñ Fognud faa, J Gude alleina, og hvad hañ gyrnest a, gief þu og liena, priid Kongsens Hws, med Lucku Metord stædstu, hañ feste þier vid Hond, Haaverdug Ástar Bond, lijk Gull Vef glæstum.

15. Landed laat Frioofgun faa, fulla og sæta, Rietteñ siñ Framgaang siaa, og Sañleik mæta, GUd giefe mier, miñ deilldañ Verd aa medañ, og til þess eg vid Grøf, aflegg miñ Ferdastaf, og helld burt hiedañ.

16. Svo giøre eg gooda Naatt, med Glede biooda, GUd mun med Lijknar Maatt, mig giegnum leida, Daudans Daleñ, og Grafar Gaungeñ þraungu, Pa blijt eg Hiaalp og Traust, þa hverfur Hrygdar Raust, J Eingla Saungvum.

## Kvølld Psalmureñ.

Med sama Lag.

NU hnijsest Sool og setst, Sijgur ad Kvøllde, Eñ Notteñ vthellest af Myrkra-Velldе, Gud liene oss,

ne ofs, Lioos sitt og Naalægd sijna, So Naadar Liooſed lioost, uppliisgad um vor Brioost, Ofs stioorne alleina.

2. O! Gud eg jaata maa, Og klaart medkieña, Ad til Gruñs ei kañ naa, Nie Enda fiña, Peirra fogru, Floods Strauma Naadar þiñar, Ein Lynd añare nær, Abyggiu mier þad sær, þier Pock ad iña.

3. Utlending med mijnum, Mig Fedrum tiaae, J Reit añarlegum, Og betra þraae: Pilagrijms Staf, Mijnum snart eg mun kasta, Og giegnum skiootlegt Skrid, Tijmaños og dapraõ Deyd, Til Himna hasta.

4. Pad tiaaer Tijmeñ mier, Hvor Vænge hefur, Liett og gladt fraa mier fer, Med fliootu Skrefe, Nu þeñañ Dag, Sem fær med Noott ad falla, hañ mier i Huga slær, Hvorsu Groseñe nær, Mitt Hofud hallast.

5. O! Gud af Hiartaños Grund, Mijn Andar Ydia, Pijd skal þessa Dags Stund, Pig ad tilbidia, Pu hefur mig, Af þiñe Giæsku sparad, Og mijnu Kalle i, Fraa Ohoppum giordt frij, Og vel forvarad.

6. Biargræde bijtter mier, med Burdum hraustum, Og Blessun i mitt Kier, Pier til Pienustu, Stilla skal þvi, Mijns Hiarta Horpu Streinge, Og Gude þacka þad, Hañ man til mijn af Naad, Sijns Barns so leinge.

7. Ef eg aa einhvorn Haatt, Braut þijn Bodorden, Sie þad stoort eda smaatt, Sem er aa ord-

ed, Framfallande, Fyrer þitt Tignar Sæte, Pa bid eg þig i Trw, Ad það fyrer JEsu, Bloods-Sveita bætest.

8. Odygd sem i mier bijr, Synden̄ Raadrijka, Sijst ad Illgrese rijr, Ei skal mier lijka, Helldur dempast; Mitt Hiarta þier i Hondum, Hafdu min̄ HErra dijr, Hellst er min̄ Maattur rijr, Ad siaa vid Syndum.

9. En̄ snijst mitt Augna-Lok, Aptur til Hvijlu, Hiaa mier, O! min̄ Gud vak, So Satans Pijlur, Forgiefens wt, Flimge af Daudan̄s Skeite, Eg kijs sofande ad siaa, i Hiartan̄s huldre Kraa, ÆDst Guds Auglite.

10. Eg bid Gud aa medan̄, Ad Kyrkiu sin̄e, Hneigie sijna Asiaan, So ecke lin̄e, Han̄s Lioos hiaa oss, Eda Formyrkvun fae, So aukest Satans Haad, Þess gooda verde gaad, Men̄ þar aa þrae.

11. Klaart Lioos kveik þu eg gled, J Kongsens Lunde, Han̄s Sool af hædstu Slood, Ei gange under, Raad han̄s O Gud, Gief þar aa sijfellt sæk-ie, Heilræde Fridarfull, Ad færa um̄ Rijken̄ oll, Og Rietten̄ rækia.

12. Ef hier er nockrum gleymt, Gud Gleym þeim ecke, Ad ei stande ofnaumt, En̄ aller drecke, wt af þin̄e, N oogdimpre Naadar Kielldu, Legg þa uppaa þin̄ Arm, Og uppfyll þeirra Barm, Med þijna Milld e.

13. Svo far nu Verolld vel, Eg vil nu sofa, Aund mijn i Gude gled, Sitt Hæle hafa, Eg vil mijn

mijn Born, Eirneñ hier iñe lykia, Hvor ædur æ-samt riett, A DRottens Foota-Stiett, Sig oll audmykia.

14. Svo skal hier sofna uppæ, Sæng miñe eige, Vill miñ Gud vijkia fræ, Eñ vid mig seigia, Sof mitt Barn sætt, Byrg þig i þijnum Klædum, Pu skallt, Stund ei er laung, Upp vakna i Einglæ-Saung, Og Himna Hædum.

## 6. Ydranar Psalmur.

Sem er hiñ 130. i Psalma-Toluñe.

Med sama Lag.

UR dypstu Andar Naud, Og ollum Voda, Hroopa eg HErra Gud, Heyr þu og nada, Pu miñe Raust, Og Ost, Alldreige gleymer, Eyr-uñ læt opeñ stæ, Og mijnum giordu gæ, Ad Hlioода Hreime.

2. O! DRotteñ ef þu villt, Athuga Synder, Og meta allt hvad Jllt, Og Oriett finder, Hvor standast þa, Munde medal vor allra? O! Gud Doom þijnum i, Umbreyting mæ hañ þvi, Fæ, Og so falla.

3. Vijst er, Volduge Gud, Vægd hiæ þier fiñest, Og Synd afmæd, so ad, Ei heñar miñest, Allt fræ Ellijfd, um þig þad Ryckte vottast, Pvi erum aller vier, Eins og Born skylduger, Pig eirn ad Ottast.

4. Jeg þreye epter þier, J Anda og Siñe, Og breyte ollum mier, Epter Villd þiñe, Miin Tal DRotteñs, Vænter fast Fyrerheita, Uppæ hañs

Ord og Eid, Er hun fws lijka Bid, J Von ad þreyta.

5. Eg eñ væntande er, J Hug og Hiarta, Til HErrañs horfa fer, Og ei umkvarta, Boku-Meñ eg, Viñ, sem vænta ad liñe, Myrkred og falle fræ, Eñ Morgun-Rodeñ a, wr Austre reñe.

6. Jsrael vone a, HErrañ Helgasta: Þeir skulu Frelsan fa, Nær gyrnast glæsta, Þvi honum hiæ, Er Giæsku Þeled gooda, Og mikel Endurlausn, J hañs Hende med Rausn, Moot megnum Voda.

7. Hañ eirn eilijfur Gud, Uppspretta Nædar, frelsar sitt Foolk og Lijd, wr illum Voda: Hvorsu miøg sem, Synden kañ yfergnæfa, heitt i Von umbeden, Allt vill þad hvort eitt Siñ, Gud fyrergiefa.

## Morgun Saungur a Laugardøgum.


















2. Til Himna vil eg Hiartans feigeñ, hefiast Jardlegu Siñe fraa, mitt Heimile aa Himnum seige, hvort medañ life, giøre ad þraa: Þusundfallt Lof og Þockeñ skijr, hier sie Gud sem i Hædum bijr.

3. Ecke neitt añad eg til hefe, Eñ Þacklæte af Hiartans Rañ: Hin øll mijn Athøfn hier i Lijfe, hun er lok, so ei biodast kañ, Eñ Augna-Taar og Andvarp mitt, ecke forsmaae Vellded þitt.

4. Nu stood eg upp, Svefn aftook allañ, Eirn Gud gaf þad eg svaf med Frid, til Jardar vil eg þvi framfalla, og Footspor DRottens miñast vid: Mijn hefur goodur Gud og Mañ, geymt þar eg laa i myrkvum Rañ.

5. Nu sie eg reña upp Sool ad fullu, sitt Hrijng-bogna hun geingur Skeyd, O! Gud sw Glede af-ber øllu, aa hverium Deige er Saal mijn beid, þar mitt

mitt upplyser Hiartans Hws, helg: Riettlætesins Sool JEsus.

6. Lioos þitt JEsu i mier upptendra, og i Liooss Barna Tal iñset, so fære Heims Blecking ei blindad, Nie bendlad Satans Viela Net, Laat mig stonia mitt Holld sie Hey, eñ hlijda þess Gyrndum alldrei.

7. Pijlur sem Ovinureñ allar, ætlade adsenda i Huga mier, nidur riedu lærngt fraa mier falla, og feingu ecke raaded sier, Mordinglanum aa moote stood, mijnar Dyr aadreist JEsu Blood.

8. Andskoteñ mun eñ ætla hijngad, J Dag Kappgiarn og utañ Hik, hañ so mig nære i Hæl ad stijnga, og herda a siñar Twngu Svik, heñar Eitre so hæde eg ad, Hiaalpa mier Gud, med Styrk og Raad.

9. Po mig heimsæke Sorg, Ogiæfa, Soott og Fætækt, sem vill miñ Gud, og ætle mig ad underkiæsa, Ætijd halltu Trw miñe vid, þañ Bikar Dkottens þu mier veit, med Poleñmæde ad drecka wt.

10. Blessa þu Gud miñ Sveita sialfur, signdu mijn Verk af Himna Slood, sijst drage Ploog miñ Satans Kaalfur, so mig ei feite añars Blood, Farleid rietta til Fiaar og Auds, fylg þu mier aa Otta Guds.

11. Hallt uñ þiñ Vijngard Hende þiñe, hreinañ Lærdoom vernda og geym, Ords þijns hiaa oss good Frioofgun fiñest, full af Kiærleika utañ Keim,

im, Kyrkiuñar Fiandmeñ kañe Harm, Christine-
na geym i þijnum Barm.

12. Heidur og Lucku med Laangiæde, legg yfer
Kong vorn DRotteñ kiær, Korona hañs og Hi-
atta bæde, hueygdt sie til þijn, sem Davids var,
Leggi hañs Raade þau Lysta Raad, ad Lucku og
Framgaung fare naad.

13. Fridar Mwr riett uñ Rijkeñ bæde, reis þu
O! Gud, Styriolld aa moot, þaa sem oss stofna
Strijd og Fæde, steypast laattu under vorn Foot:
Soorter lina, Lopteñ gior hrein, Landed korone
Mysku þijn.

14. Ad so mælltu, eg vil mier venda, ad Verke
og giora aa Skil: Vijst mun Gud mier Raad sij-
na senda, sem hañ giortt hefur hijngad til, hañ legg-
ur med mier Hendur aa, og Hiaalp sijns Anda læt-
ur faa.

15. Eñ þo nu meige i Kior falla, ecke treysta aa
Heimeñ maa, helldur þegar Degenum hallar,
Hugañ skal eg þar miña aa: Tijma-Glased flijtur
og fer, fyrer Hondum Eilijfdeñ er.

16. J Guds Otta allteins eg Hasta, aaleides
mijna Klwngur Slood, under Andartaked sijda-
sta, Anda siñ sender mier miñ Gud, mitt Syndugt
Hollo hyl þu O! Jord, hefst upp Saaleñ i Eingla
Hyrd.

## Kvolld Psalmureñ.

Med sama Lag.

SJaa hvad Dagureñ Ferd eñ flijter, Fegurd
Soolar til Vesturs snijr, Vor Hvijldar Tij-

me ad Hondum ytest, HErrañ sem i Lioosenu bijr, Og a Himnaña situr Sal, Siertu vort Lioos i dymum Dal.

2. Vort Stunda-Glas wtreñur Odum, Af Noott Dagureñ rekst i burt, Heims Dyrdeñ er sem grijpe a Gloodum, Geyse skamviñ og hiadnar burt: Fiollum hærra var Sooleñ sæl, Su er nu under vorum Hæl.

3. O! Gud mijn Pock af þijdre Ondu, Preing er sier iñ i Himna Slot, Til þijn upplypte eg nu Hondum, Audmiwklega fyrer allt Gott, Sem þu hefur mier tiaad og tier, Til þeirrar Stundar sem nu er.

4. Fra Voggu miñe ef villde og Framan, Velgiordum þijnum seigia fra, Hialpe mier Gud þær hrwgast samañ, Hier ma ei koma Tolu a: Til somu Stundar sem nu er, Siñt hefur þu og lijknad mier.

5. Ei ma eg gleyma utañ Vijte, Umsioon mijns Guds sem med mier var, Nær eg var ungur og dalijtell, Ei skiniande Hatt Veralldar: Pa unde eg vid þañ Kost og Kior, Ad kuñe eg mijna Fader Vor.

6. Strax sem mig Alldur yfer færdest, Auka took eg vid Fræden sma: Og safnade i Siood Guds Orde, Sal mijn ried Lækning þar af fa, Ef þa nockur angrade Praut, under strax Hun ang rañ og flaut.

7. Svo giore eg þad Gall ad mykia, Sem

grælynd Verolld byrlar mier: Ad eg mier þad lynda og lijka, læt, Fyrst ad Gud nadugur er, Po reñe ar Sorg med Soolu strax, Su tekur Enda ad Kvollde Dags.

8. Svo dregst Dagur eingeñ a Enda, Ad Andlit Guds fare eg ei sia, Hvorneñ sem Bladed vill sier venda, Og verda hvikul Luckañ ma, Eg fiñ samt ad Guds Aastar Naad, Yfergnæfer allt Mañlegt Raad.

9. Mitt Andlit sveitt, Og mijn Andvaka, Mijn Orooseme ei gyllda ma, Hvad sem eg kañ samañ ad raka, Svo er liettvægt sem Fis og Stra, Ef Gud er sialfur ecke med, Añast og Blessar Verkaged.

10. Gude eg þijdar Packer sege, Peñañ Dag ad hañ færde mig, Og hiellt a riettum Himna-Vege, Svo Hialpsamlega i Naund vid sig, Ad i Hædeñe hañs fæ sied, Hiarta til mijn og Fodur-Gied.

11. Med Audnu, Lijf, Æru og Hreyste, Eg a nalægt Skref komst nu hier, Og aungvañ Stein ber fyrer Briooste, Sem Byrde Samvitskuñe er, Nadugañ Gud eg Eflaust a, Eñ þo nu strax leys-est hier fra.

12. Frij er eg ecke samt fra Syndum, Sokum þess eg em Holld og Blood, Syrndaña Vaal tek-ur sitt Tundur, Tijdast i mier sem blaseñ Glood, Þvi hefst eg ad þad Oriett er, Eñ ecke þad mier giora ber.

13. Þo mun Gud mier þad allt uppgiefa, wt af Naad, Eñ ei epter Riett, J Hiarta mitt hier med iñskrifa, Siin heilog Maal, Synd mun svo kvitt, Hañs Ande mier Heilagur þa, Helldur þeim rietta Vege a.

14. Umkrijng Sæng mijna alla Vega, Þitt Einzla settu Vardhalld gott, A Flootta rek Andskotañ slæga, Fra Eigum mijnum þessa Nott, Ad mig ei skade um þa Stund, A hvorre eg tek Hvijld og Blund.

15. Þig bid eg DRottiñ þar med lijka, Ad þiñe Kyrkiu giordu ga, Svo Myrkreñ burtu verde ad vijkia, Vend heñe Sool þijns Andlits a, Naadar-Dyrnar ei lokast laat, Nie Lioos þitt bless-ad slokna wt.

16. Kongs Vors Hwse holldum i Miñe, HErrañ latte Doom, Riett og Frid, um Hañs Tijd samteingd hvoriu Siñe, Halldest med Longum Alldre vid, Svo oll sigre Ovina Volld, under Guds Skugga og Verndar Skiolld.

17. Fyrer Siwkum sierhvorium Broodur, Sorgbitnum og Christnum med mier, Helld eg Bæn, Þvi mun giegna goodur, Gud, Sem trwr og Lijknsamur er, Hañ mun añast hvorn fyrer sig, Hier med alla mijna og mig.

18. Slockum nu Lampa og Lioosen frijdu, Loke Bæ, Og Dyrnar JESUS, Moot Satans Broddum Styrk ver strijdum, Storme hañ uppa þetta Hws, Hier vill Gud hallda Hws i

Naatt,

Natt, Hier hefur hañ sitt Bordhalld sett.

19. JESU Nafne wt af sofna, Umfadma fast i Trw þiñ Gud, Hañ mun þiñe Ausku uppsafna, Jñ þa þu legst i Bein-Hwsed, J þañ Hag sem er Eingla klaar, Ad eins Madka Fædañ forgaar.

## 7. Ydranar Psalmur.

Sem er hiñ 143. i Psalma-Toluñe.

Med sama Lag.

O! ONotteñ uppliwk Augum þijnum, Eg set oll Maal fyrer þig, J klockvu Andvarpe og Bænum, Eg kiem nu fram, Bænheyr þu mig. Fyrer Naad þijna, Hun er haa, Ad Hiartañs Beidne miñe gaa.

2. Fwsa Bænheyrslu fram laat koma, Fyrer Saker þijns Riettlætis, Og Giæsku, Hvoria Gooder Nooma, Og giefa um Heimeñ fagrañ Prijs: Riettlætes Doom þiñ afbid eg, Eñ til þijn kiem um Naadar Veg.

3. Ei mig wrskurda epter Riette, Ei við þiñ Præl gack þu i Doom, Pier er, O Gud! Alkuñug Ætteñ, Eingeñ Mañskiepna fiñst so froom, Ad Riettlaat meige acktast hier, Af Adams Nidium fyrer þier.

4. Ovinur sar mier Oriett giorde, Utañ Sok eda nockurt Skial, Mier um Koll hratt ofañ ad Jordu, Og villde giora mig ad Præl, Mig sette hañ i Myrkra Laut, Sem Mañ daudañ, Hvorn Gledeñ þraut.

5. Miñ Anda þvi, Eg um þad kvarta, Angist

þekur, Og vesst um kring, Hvar fyrer mitt Harm þrwnged Hiarta, Hefur ongva Dægurstitting, Hrædslu halldeð þad i mier er, Af Neyd sem þad Daglega skier.

6. Eg ser ad hyxa um Forre Daga, Vid Foolk þitt hvorneñ breytter þu, Ei skal þvi ovilnast i Huga, Aleides leingra ser eg nu, um þijn Handa Verk þeinkiande, Þu megnar þo eg Magnlaus sie.

7. Eg þvi bædar uppriette Hendur, Eins og sæ seni nær sockeñ er, Eg til þijn Gud æleides vende, Og fyrer þig Sæl mijna ber, Hun er þurr, Eins og Hrioostur Lood, Hana vokve þitt Naadar Flood.

8. Hrada þier Gud mier Hialp ad senda, Heyr mig þvi minñ Ande forgaar, Andlits þijns Lioos ei laat burt vendast, Eñ gief i Tijd Hialp veitist klaar, So eg ecke sem Lateñ Mañ, Sie Jardadur fyrer Tijmañ.

9. Uñ mier Naad þijna ærla ad heyra, Alla Von hef eg til þijn sett, Kosta leid sem mig kañ ad færa, Kieñ mier i þessum Heime riett, um þetta hef eg Aundu mijn, upplyst Hiartañlega til þijn.

10. Ovina miña Valldе, Reide, Og Villum Tyrañaskap fraa, Eg þig miñ Gud i Audmykt beide, Ad þijna Hialp virdest mier tiaa, Hia þier vil eg mig hylia i Neyd, Og hæde þvi Fiandmaña Lid.

11. Kieñ mier eirneñ eg allt þad giore, Sem allra best þier þocknast maa, Þiñ goodur Ande hier til

til hrære, Og hallde mier Sliettlende ꝏ, So mier heppneſt Heimreyſa greid, J Harma-Dalnum rietta Leid.

12. Svo muntu fyrer þitt ad fullu, Fagra Nafn, Hvort eg þar til kved, Laata mig ẽ lifa med ollu, Lijka fyrer þitt Riettlæted, Med þiñe ſterku Maktar-Hond, Mig vid Neyd ſkilia og Dauds aſis Bond.

13. Af þiñe Millde muntu wtſlietta, Miñ Ovin og leggia i Gruñ, Og þeim eyda ſem Oforrietta, Aund mijna af þiñe Myſkun, Pvi eg þiñ Pioon ad vijſu vil, Vera medañ eg endeſt til.

N.B. Þar ſem þetta Teikn ✱ edur þetta ſtendur i Saungnum, Pa merker þad, ad ſu Noota ſem þar kiemur ſtrax epter, Er ei meir eñ hælf Noota, og ſkal kvedaſt lint ad heñe. Þar ſem Punctur ſtendur vid eina Nootu, Pa eykur hañ Nootuñar valor um̃ Helming.

## Kvollds Saungur Prudentij
Ades Pater ſupreme;
Ur Latinu a Jslendſku wtſettur af
## Sr. Stephane Olafs-Syne.



Kom Fader hædſte HErra, huleñ Sioon



Augna vorra, Ord Guds O JEsu



Christe, Og Andeñ Goodgiarnaste.

2. Kom þessarar Preñingar, Prootttur eirn, eitt Lioos hijngad, Eilijfur Gud af Gude, Gud fram-gangande af bædum.

3. Dvijnad er Dags Ervide, Dregst i Hond Hvijldar-Tijdeñ, Hallkvæmur Hofgæñ aptur, Hresser þreitta Lijfs-Krapta.

4. Þvi er noog Hvijld ef hresser, Holld vort so Lwañ misse, Noog ef gieta ei grandad, Græduger Myrkra Andar.

5. Þvi laat þier i Þanka vera, Þu sem dyrkar vorn HErra, Ad hefur um Holld þitt ruñed, Helg Laug i Skijrnar-Bruñe.

6. Glor, i Sæng þegar sijgur, Svefn þier a bæde Augu, Krossmark fagurt Full-Christeñ, fyrer Eñe þijnu og Briooste.

7. Krosseñ Illu afstijar, Ill Myrkur Krosseñ flya, Hvor þvi Merke fast helldur, Hañ mun ei Otta selldur.

8. Langt burt, Langt burt sier Laume, Lioot Ogn i illum Draume, Langt burt margt missyn-ande,

ande, Meinslægdar slæmest Ande.

9. O þu Ormur Hrijnglagde, Med allskyns Vielabragde, Og Krooka-Kyne svortu, Er kyrr areiter Hiortu.

10. Halltburt, Christur er hierna, Hier er Christur, uppborna, Merked sem þu munt þeckia, Þijna fordæmer Flocka.

11. Þo vor Lijkame ligge, Laagt medañ er æ Skugge, Sie Christur vort i Svefne, samt Hugleidingar Efne.

## Eiñ Fagur Psalmur.

### Um̃ þa nyu Jerusalem.

Rijs upp O Mottne Dijrd, syng þu Saala mijn, Eins og sw gooda, Edla Hyrdeñ þar skijn, vert snortil Strax nu, hañ ad lofa med þiñe Trw, þviad af honum, þiggur allt þu, Kom stijttu þier, og tefdu ecke vid, Þu att ad lofa med Utvølldum Gud, Athuga grandt ad, so þu giører vel þad, þa muntu bwa, J Jerusalem Stad.

2. Lijt a Lijfsins Høll, klaara Kongsens Borg, Þar hverfur þijn oll, Eymd, Armædañ og Sorg, Þar þurkar vor klaar, Sool Riettlætes Augna Taar, Eiñ Dagur er þar sem Þusund full Ar, Fagnadar Snægd oll, alldrei þrijtur þar, reñande Vatnsføll, Og Straumar Vellystar, Guds Saafañ good vijst, Gallalaus og Vellyst, er oss þar ætlud, Æ þar kiæmum sem fyrst.

3. Sw Borg haa og hrein, af Heilagleika full, Er sett med allskyns, Edla Steina og Gull, Ut-

valldra er Skiool, Emanuel þeirra Sool, Par hefur hañ siñ HErra Sætes Hastool, Heñar Mœrveggs Hæd, Hvad mæ jafnast vid, hafande Toolf Stæd, Port og Olæst Hlid, Priw i hverre Att, Einglar syngia þar hatt, Gloria Gude, sem gaf oss Frid og baud Satt.

4. Stoor Astædañ hrein, sterkust dijr og good, Toolf Understodu Edla Steinum æstood, Guds Postula Nøfn, æ voru þar grafeñ jøfn, Ferkontud er Borgeñ Barna Guds Høfn, Gull-Kvarda mællt med, morkud hæ sem breid, vel mællt æ hvern Veg, Toolf Þusund full Skeid, Strætañ med gott Gull, Grunn vollud og sett oll, Eingeñ Opteijde, er i þeirre Kongs-Høll.

5. Þar kiemst alldrei iñ, Angur, Hrygd nie Soott, Eige Dimma medur Otta siñ og ei Noott, ei Dauda ei Synd, og ecke nockur Sorgleg Mynd, Ei er Naatturañ þar eins og hier blind, Hvad sierhver Oskar, Þar fær hañ þad allt, Eingvum er Ofheitt, Eingvum helldur Of-kallt, Eingeñ er hlioodur, Eingeñ fær nie moodur, Giefe oss þa Vist, Gud vor Fader goodur.

6. JEsu Sonur Guds, sie þier Dijrd og Lof, Þu sem oss aflader þessa Auds i Astgiof, og frelsar oss fra, Ollu þvi oss skada mæ, Þier syngium vier eilijft Haleluja, Þu hefur allt Valld, æ Himnum og hier, Lotningar gott Gialld, greide aller þier, Eg bijd hier um Stund, Iñañ Skams sæ þiñ Fund, Saal, Æru, Eign, Lijf, I þijna eg fel Hond.

## Psalmur Davids 114.

Med sijnum Toon.

PA Israel foor af Egypto, og Hws Jacobs sig i burtu bioo, fra aũarlegum Pioodum, Siñ Helgedoom Juda sialfur bar, sijn Makt og Stioorn hia Israel var, under Himnenum viidum, flyde wr Stad þa sa þad Sioor, so og Jordan til Baka foor, Biorgeñ i þeirra Burtuferd, brugdu a Leik sem Sauda Hierd, Hoolar aller og Hæder þa, Hoppudu upp sem Lombeñ sma, Haleluja, Haleluja.

2. Hvad var þier Sioor, ad þu hliopst wr Stad, Hvi sneter þu Jordan þier vid þad, þo Israel ad kiæme? Fioll brugdust vid, eins og elldra Fie, og Hæder sem Lomb af Fognude, Hver eru hier til Dæme? Fyrer þeim HErra eilijfum, Jacobs Gude Almattugum; Oll Jordeñ skalf og bifadest bratt, breitte hañ um̃ med sijnum Matt, Hellu i Botneñ vijd sem Sia, og i Vatns Bruña Stein um bra, Haleluja, Haleluja.

3. Ei oss, ei oss, HErra Heidur gief, helldur þijnu Nafne Dijrd og Lof, fyrer Trw og Giæsku þijna, Hvar fyrer skal spyria Heideñ Piood, Hvar er nu ydar volldugе Gud? Amæle þau oss pijna, Vor HErra Gud a Himnum er, hañ gioerer allt hvad lijkar sier, God þeirra giorde Maña Hond, af Gulle og Silfre fagra Mynd, Muñ hafa þau þo mællt ei fa, med opnum Augum ekkert sia, Haleluja, Haleluja.

4. Cyru hafa, eñ eingva Heyrn, Ylm kieña þau sier i Nøsum neirn, ei þreifa þeirra Hendur, fæ ra kuña þau ei Fætur sicalfs, fer eingeñ Rodd upp, uñ þeirra Hals, ad ollu Onijt stendur, Þeirra Smider eru þvilijker, og þeir sem oc þau treysta hi- er, eñ Arons Hws og Jsrael, og þeir sem Drott- eñ Ottast vel, vorn Gud alleina vona oc, Vorn og Skiolldur er HErra sa, Haleluja, Haleluja.

5. Miñest vor jafnañ Gud millldaste, og Myſk- unar Blessan eilijfre, virdest til vor ad snwa, Sw Blessan hañs yfer Jsrael, og Hwse Arons halld- est vel, ollum þeim oc hañ trwa, yfer þeim sem Gud Ottast nu, Ollum sie jafnañ Blessan sw, Under Moñum og Ædre med, yfer þad sem hier til er ſki- ed, Bæde ydur og Borneñ smoc, Blessun meire Gud læte fa, Haleluja, Haleluja.

6. Blessad hefur ydur HErra Gud, sem Him- en skoop og Jordu med, og allt hvad er þariñe, Himen allavega HErrañs er, hañ gaf Jordena, og hvad hun ber, J Valld ollu Mañkyne, DRott- ne syngia ei Dijrd nie Lof, Dauder og þeir sem fara i Grof, helldur vier sem Gud giefur Lijf, gooda Nad og millda Hlijf, Heidur skulum þier HErra tioc, hier nu og ætijd hiedañ i froc, Haleluja, Ha- leluja.

7. Himneskum Fodur Lof Heidur sie, hañs Stioorn ein upphelldur Skiepnuñe, oc Himne og oc Jordu, og hañs Syne sem oc allañ Hatt, Er jafn honum i Dijrd Vitsku og Matt, sætta vid

Gud

Gud oss giørde, og Helgum Anda Huggara, sem Saññleik kieñer alleina, Pañ rietta Veg oss syner sa, Sañañ Gud lætur kalla a, Hædst Dijrd sem i Upphafe var, eins sie uñ Allder eilijfar, Haleluja, Haleluja.

Benedicite.

## Psalmur fyrer Maaltijd.

Med sijnum Ton.

Fader a Himna Hæd, Hver fyrer JEsu Næd, Elsku þijna oss vottar, Ønd og Lijkama mettar.

2. Hvad uñ Lopt Votn og Jord, Lifer og hefur Ferd, Forsorgar og Framfærer, Fiolgar Klæder og nærer.

3. Blessar øll Børneñ þijn, Burt tekur Synd og Pijn, Færer þeim Fædu hreina, Fyrer þiñ Son alleina.

4. Til Lofs og Dyrdar þier, Lijka sem Christnum ber, Piggium i Dag Packlaater, Pitt Laan sem oss veiter.

5. Laat oss i hreinum Hug, Hallda oss vid þiñ Veg, So med Samvitsku goodre, Sedlunst voru Foodre.

6. Veit oss þad verde fyllt, Sem vottar Paall oss skylldt, Gleymum ei þijnu Orde, Yfer voru Borde.

7. Laat oss ei lijkiast þeim, Lyd sem stundade Heim, Hverium þu hlijfder eige, Hvad Skrift af þeim seiger.

8. Medan mettudu sig, Mintust þeir sijst at þig, Giordu sier Heidna Glede, Grim fiell at þar Reide.

9. Hialp oß nu HErra kiær, Svo Heidur þin eflum vær, Fyrer Frelsaran Christum, Fader at þig treystum.

Gratias.

## Lof-Saungur epter Maaltijd.

Med Lag. Millde JEsu sem Manndoom tookst.

Gud vor Fader þier þockum vier, Fyrer þin Son Christ vorn HErra, Millde þijna sem margfolld er, Med hverre virdest ad næra, Allar Skiepnur sem eru med Ønd, Oß hefur sadt þijn millda Hond, Lof sie þier Dyrd og Æra.

2. HErra sem Mettad hefur nu, Holld vort sem endast bliitur, Saal vora einenn sedier þu, Sem alldrei deyr nie þriitur, Ord þitt er hennar Ast og Megn, Þar til þu verdur hennar Eign, Naavistar med þier nytur.

3. Himna Fodur at hverre Tijd, Heidrum umm Christendoomenn, Sem oß kvittade Synder vid, Su Naad af Trw er komenn, fyrer hanns Son JEsum HErra vorn, Hver med sier liet oß verda Born. Ætijd lofum þig, Amen.

## Enn ein Þackargiord epter Maaltijd.

Med sijnum Ton.

Heidrum vier Gud af Hug og Saal, Hanns Lof vor Tunga syngia skal, Ad sijna Giæsku synde liooſt,

liooſt, Sadde oſs vel med Dryck og Koſt, Saa ollu Hollde Fædu fær, Fædt heſur oſs nu D Rotteñ kiær, Pad allt hañs Millde hockum vær.

2. Pockum honum nu Pioonar hañs, Pad er oſs ollum ſkylldt til ſañs, jaatum ad oſs elſkade hañ, Af Naad ſiñe ſkapade Mañ, Med Hwd og Hollde Bloode og Bein, Bygd er vegleguſt Skiepna ein, Og ſijdañ gieſeñ Saaleñ hrein.

3. Pa Madur Lijf i fyrſtu fær, Fæda heilnæm er honum nær, J Lijfe ſiñar Moodur maa, Madureñ ſiña Næring þa, Po Barnkynd ſu ſie ung og aum, Ei heſur Skort aa Gaaſum þeim, Fram til þeſs hun fædeſt i Heim.

4. Gud heſur Verolld vel tilreidt, Vanta lætur ei aa Næring neitt, Fiølleñ og Dale frioofgar hañ, Fienadeñ Gras ei vanta kañ, Vex wr Jordüñe Vijn og Braud, Veiter þad hvert Ar milldur Gud, Og hiaalpar ſo af Hwngurs Naud.

5. Fiſka veita oſs Votn og Sioor, Verdur af þeſſu Maaltijd vor, Eggeñ og Fugla eignuſt vier, Dſs til Atviñu ſkapad er, Naut, Geitur, Svijn og Sauda Fie, Siaalfur Gud lætur oſs i tie, So ad vor Næring noogleg ſie.

6. Pockum honum og þiggium nu, Pad hañ gieſe oſs ſaña Trw, Ad hoſum ſlijkt i Hiarta riett, Hallda Bod hañs i vorre Stiett, Svo jafnañ oll hañs Heilog Hiord, Heidre hañs Bleſſada Naſn aa Jord, Pad ſkal vor allra Packargiord.



Loſ=

Lof-Saungur epter Maaltijd, wr Donſku wtlagdur, Af Sr Stephane Olafsſyne.

Ton, Heill Helgra Maña.

Pock ſie þier, Good giørd, Gud vor Fader kiære, Sem Soolar Her, Haf Jord, Hefur ſkapt og nærer, Og lætur hier, vorn Verd, Verda þad ſig bærer, Sem hitt er ei hrærer.

2. JEſu Leid, Lijfgiørn, Lof þier ſkulum giallda, ad Synda Neyd, vor Børn, vanſt og Heled kallda, Piñ beyſkur Deyd, Blood Tiørn, Beniar, Kvol margfallda, Pvi vard ad vallda.

3. Helgur haar, Hyr kiær, Hædſta DRotteñs Ande, Sijd og Ar, oſs nær, þijn Æra og Virding ſtande, Ad oſs klaar, Chriſts fær, Kyñing hier i Lande, So hañs Virding vande.

4 O! þu heidre haa, Heiløg Preñing eina, Oſs Lijfs uñ Skeid, al aa, Orde þijnu hreina, Saal er kveid, Synd þa, Sier ei Gløtun neina, Po margt meigum reyna.

5. Sie vor twiſt, Saal fyrſt, Sødd af þijnu Orde. Af helgre Lyſt, Hæneſt, Ad Hiñna ſlijku Borde, Til Dauda ydſt, Oſs vijſt, Moot aumu Saalar Morde, Saa Falle forde.

6. Peſſa Molld, Mañs Holld, Mette Daglegs Fæda, Hungren kolld, Hord Olld, hverſe Porſte Mæda, þier lwkeſt Giolld, Ferfolld, fagra Tignar Kvæda, Og haa Gøfgun Giæda.

7. Æru þijn, Ønd mijn, A þad ſynge tameñ, Neydeñ dvijn, Naad ſkijn, Nu og alltijd frameñ,

Pad

